# GESTUR PÁLSSON.

RIT HANS

Í BUNDNU OG ÓBUNDNU MÁLI.



**FYRSTA HEFTI.**




Útgefendur:

**Arnór Árnason og Sig. Júl. Jóhannesson.**





WINNIPEG.

PRENTSMIÐJA "LÖGBERGS" 1902.



*Hver skýra kann frá prísund og plágum öllum þeim
sem píslarvottar gæfunnar líða' í þessum heim.*

Gestur Pálsson

# GESTUR PÁLSSON.

**RIT HANS**

**Í BUNDNU OG ÓBUNDNU MÁLI.**



**FYRSTA HEFTI.**



[illegible]:

**Arnór Árnason** [illegible] **Júl. Jóhannesson.**



**WINNIPEG.**

PRENTSMIÐJA "LÖGBERGS" 1902.



# FORMÁLI.

---

LANGT er síðan Íslendingar fundu til þess, að nauðsynlegt væri að safna saman ritum Gests Pálssonar og gefa þau út; hefði það fremur átt að vera gjört heima á "Fróni" en hér; þar ritaði Gestur meginpart verka sinna; þar er aðalútgáfustöð íslenzkra bóka; þar búa fjórir fimtu allra Íslendinga; þar eru þeir flestir, sem kunnugastir voru Gesti og handgengnastir, og þar eru fleiri menn færir til þess að leysa verkið vel af hendi en hér. En nú er all-langt liðið síðan hann dó, og engin veruleg hreyfing hefir enn vaknað til þess að hrinda málinu áleiðis.

Tvær aðalástæður knúðu okkur til þessa fyrirtækis: fyrst, að gefa mönnum kost á, að eignast það flest í einni heild, er sá maður hefir eftir sig látið, sem á síðari tímum hefir náð traustustu haldi á öllum betri tilfinningum íslenzkrar alþýðu; og annað það, að reyna að sýna þess vott í verki, að vér varðveittum minning leiðarstjarna þeirra, er lýst hafa þjóð vorri á leiðir menningar og mannkærleika. Við ætluðum okkur að láta prenta bókina heima og skrifuðum í því skyni mönnum, er við treystum til þess að vanda allan frágang, en einhverra orsaka vegna hafa þeir ekki haft tækifæri til þess að svara okkur. Bókin kemur út í heftum, en niðurröðun efnisins höfum við enga ákveðna aðra en þá, að við skiftum hverju hefti í kafla (ljóð, sögur, fyrirlestra, þýðingar og ritgerðir); þýðingarnar

þóttumst við verða að taka sökum þess, að þær eru sumar bókmentalegir gimsteinar og einkenna Gest sérstaklega ; sýna það, hvað hann hefir valið — hvað honum hefir verið næst. Ritgerðirnar tókum við fyrir þá sök, að í þeim eru sumum næstum óviðjafnanlega skáldleg tilþrif, og fölskvalaus mannkærleikur er aðalþráður þeirra Rétt mundu sumir hafa talið það, að gefa að eins út hrafl af ritum Gests, eða það, sem þeir mundu hafa kallað úrval, en okkur virðist það rangt. Þjóðin á helzt að fá sanna og rétta mynd af sál þeirra, er yrkja, eins og þeir eru allir.

Að því, er æfiágripið snertir, skal þess getið, að hvorugur okkar hafði nokkuru sinni séð Gest ; við ritum það því að eins eftir okkar skilningi á honum gegn um verk hans, og leggjum það undir dóm sanngjarnra manna, hvort það hafi tekist vel eða illa ; við mælumst ekki til vægari dóma yfir okkur en við eigum skilið, ef vansmíði kunna á að finnast, sem við efum ekki En hins vegar væntum við þess, að aðfinningar verði allar með sanngirni ritaðar, og sleggjudómum skeytum við ekki. Við samning æfiágripsins höfum við fylgt þeirri reglu, að reyna að segja það, sem okkur þótti þurfa að segja, í sem fæstum orðum ; sýna af honum andlega mynd, sem glöggasta, en óbrotnasta og sem líkasta því. er hann kemur okkur fyrir sjónir. — Ágóða þeim, sem verða kann af sölu bókarinnar, höfum við ákveðið að verja til þess að reisa skáldinu minnisvarða.

Leggjum við svo starf okkar undir álit allra þeirra, er af sanngirni vilja dæma.

Með beztu óskum til allra landa okkar hér og heima.

CHICAGO, í OKTÓBER 1902.

Arnór Árnason.
Sig. Júl. Jóhannesson.

# *EFNISYFIRLIT.*

## II. SÖGUR.



## III. FYRIRLESTRAR.



## IV. ÞÝÐINGAR.



## V. RITGERÐIR.





# Gestur Pálsson.

---

HANN er fæddur 25. sept. 1852 í Miðhúsum í Reykhólasveit; faðir hans var Páll Ingimundarson, er síðar bjó að Mýrartungu í Reykhólasveit, en móðir Ragnheiður Gestsdóttir, kona hans.

Gestur átti tvo bræður, Jón og Sigurð; hinn síðarnefndi lifir, og er verzlunarstjóri á Hesteyri á Íslandi. Móður sína misti Gestur ungur. Hann naut nokkurrar kenslu hjá Ólafi prófasti á Stað, en lærði undir skóla hjá séra Sveini Níelssyni. 1868 tók hann inntökupróf í lærða skólann í Reykjavík og útskrifaðist þaðan 1875; hann var aldrei neinn sérlegur námsmaður, en orti talsvert á skólaárum sínum. Sumt af því er nú glatað. Hann sigldi til háskólans í Kaupmannahöfn 1875 og byrjaði á guðfræðisnámi. Heimspekispróf tók hann 1876. Nokkuru síðar fór hann heim til Íslands og dvaldi árlangt hjá

föður sínum, fór aftur til Kaupmannahafnar og byrjaði á námi, en hneigðist algjörlega frá guðfræði og tók aldrei embættispróf. Hann fór enn heim til Íslands 1882, vann einn vetur talsvert að ritstjórn "Þjóðólfs"; var ritstjóri blaðsins "Suðri" þau fjögur ár, sem það kom út; var skrifstofustjóri alþingis í tvö sumur og all-lengi ritari landshöfðingja; fór til Canada 1890 og tók við ritstjórn "Heimskringlu", en dó 19. ágúst 1891, nær því 39 ára gamall.

Að útliti lýsir Einar Hjörleifsson honum þannig, að hann hafi verið grannvaxinn, hálslangur, kviklegur, fríður sýnum, með einkennilega þunglyndislegt augnaráð.

Það er margt, sem til þess þarf að geta samið rétta og óhlutdræga æfisögu annars eins manns og Gestur Pálsson var. Eitt aðalskilyrðið mun, ef til vill, talið það, að þekkja manninn persónulega; hafa lifað með honum, talað við hann, hlustað á hann, séð hann sjálfan í sem flestum myndum. Má vera, að það sé rétt álitið að sumu leyti, en það er ekki ngó. Það er að vísu rétt, að þeirri reglu er vanalega fylgt, að þeir einir riti æfisögur merkra manna, er annað-

hvort voru þeim nákunnugir eða nátengdir. En þegar engin persónuleg vinátta né annað því líkt getur haft áhrif á söguritarana, þá mætti ætla að þeim væri síður hætt við að einblína á kostina, en gleyma göllunum, eins og stundum á sér stað. Þess skal getið, að hvorugur okkar hafði nokkuru sinni séð Gest Pálsson. Við förum því einungis eftir þeirri mynd, er hann hefir brugðið upp fyrir augu okkar í ritum sínum og líferni. Okkur langar til þess að sýna hann eins og hann var; sýna kostina og ekki síður ókostina. Í lifanda lífi taldi hann sér það heilaga skyldu, að bregða upp spegli fyrir augu þjóðar sinnar, þar sem hún sæi og kannaðist við það, er henni var áfátt. Hann dró hlífðarlaust fram bresti og veikleika þeirra, er hann setti mönnum fyrir sjónir í ritum sínum, en hann fann oftast ástæðurnar og eigi allsjaldan afsakanir fyrir þá, er hrasað höfðu. Sömu skil vildum við gjöra honum látnum, eftir því, sem okkur er unt; segja frá því hiklaust, hvar honum varð það á að stíga skökk spor, en athuga jafnframt hvað því olli. — Sökum þess, að við vildum gjarna láta það festast í minnum manna, hvað það var, sem aðal-

lega vakti fyrir Gesti, og með því að íslenzk alþýða er næm á alt það, sem ritað er eða sagt í bundnu máli, leyfum við okkur að taka hér upp stutt kvæði, þar sem leitast er við að lýsa honum; vonum við, að að mönnum sé þar unt að fylgja honum með nokkurn veginn glöggri sjón, alla leið frá móður knjám, þegar sál hans var eins og hreint og óskrifað blað og hann sá heiminn og mannlífið í sparifötunum, fylgja honum í gegn um skólann, þar sem fyrir honum opnaðist alt eins og það var; þar sem virkileikinn sýndi honum, að þessi heimur, eins og hann er afskræmdur af völdum mannanna, er eins og eitt stórt sjúkrahús, þar sem læknar og hjúkrunarkonur gæta ekki skyldu sinnar og sjúklingarnir deyja hópum saman fyrir handvömm; þar sem hann ásetti sér að lesa þá læknisfræði, er til þess þurfti að verða þar að gagni — lesa andlegar săralækningar. Fylgja honum, þegar hann hefir tekið til starfa í þessa átt, og sjá annars vegar hvernig hann lagði sig þar í líma, en hins vegar hvernig reynt var að draga úr áhrifum hans af þeim, er fyrir voru og samtíða. Fylgja honum loksins ofan í gröfina og líta til baka yfir það, sem hann gjörði. Þetta litla kvæði er þannig:

## XI

,,Á PALLINUM sat hann og lék sér við gullin sín glóandi;
gleðin við hlið honum saklaus og friðsæl og brosandi;
traustið og einlægnin signuðu huga hans hlæjandi,
heimurinn blasti við lítill, en góður og töfrandi.

Móðir hans rétti' honum höndina huggandi, blessandi,
hvenær sem gullið hans féll o'n á gólfið og brotnaði,
þerraði' af kinnum hans sakleysis grátperlur glóandi,
gaf honum eitthvað, sem tárin í augunum stöðvaði.

Sál hans var hrein eins og hvítasta mjöllin á jörðunni,
hugsunin ljúf eins og mildasti geislinn frá sólunni,
augun svo skær eins og bjarmi frá björtustu stjörnunni,
blærinn á málinu skýr eins og tónar í gígjunni.

Á SKÓLABEKK sat hann og skrifaði, las þar og hugsaði,
skáldgyðjan var þar með alheimsins sjónleik á ferðinni,
lyfti upp nútíðar, fortíðar, framtíðar blæjunni,
fékk honum sjónauka, mannlífsins stríðsvöllu sýnandi.

Sál hans varð heilluð og hjartað í brjóstinu þrútnaði,
hundruð og þúsundir — miljónir sá hann þar deyjandi,
flækta í snörur og fallna og örmagna' á götunni;
fætur og lappir með hófum og klaufum þá troðandi.

Skrælnaðar grundir, sem vantaði vatnslindir frjóvgandi,
viði og jurtir, sem alls enginn hlúði né ræktaði,
hungur og þorsta og sorgir og kulda og klæðleysi,
kvalir og þrautir—og auðmann, sem leit á það glottandi.

Sór hann þess eiða við alt, sem var heilagt á jörðunni
afl sitt og líf sitt og starf sitt að helga því verkefni:
glerbrot að tína úr sorphaugum, sígandi, hverfandi,
sverfa þau, laga þau, breyta í demanta skínandi.

Fýsti' hann að vernda það alt, sem var lítið og líðandi,
langaði' að rotberja hræsnina, flaðrandi, skríðandi,

líta þann svívirta glaðan og frjálsan og fljúgandi;
farga því öllu, sem skreiddist um nagandi, ljúgandi.

Kveikja þar eld, sem var ísjökull kaldur og nístandi;
anda burt myrkrinu, svælunni, miðsvetrar-þokunni;
setja upp ljósvita' og lýsa' inn að farsældar-höfninni,
loka þeim sundum, er bera með fleygjandi straumkasti

niður í hyldýpi sogandi, freyðandi, fossandi,
frelsa þá alla, sem hrekjast á sökkvandi skipsflaki,
sæluna' og gleðina gjöra að almennings fjársjóði,
gullinu jafna með auðmanni' og bróður hans sveltandi.

Á STRÍÐSVELLI barðist hann, óvinum gæfunnar eyðandi,
allar þær götur, sem hugði' hann til menningar leiðandi,
reyndi' hann að sýna þeim vini, í villu sem ráfaði,
vitka þá aftur, sem trylt hafði mannlífsins hávaði.

Pennanum beitti' hann og auganu myndir hann málaði,
myndir, sem hataði gikkur, er fégirnin brjálaði,
hvort sem þær málaði' hann mælandi, þegjandi, skrifandi,
mættu þær andlegu sjóninni starfandi, lifandi.

Sendi' hann þær allar með sannleikans stálvopn í höndinni,
sumar til fjalla, en aðrar til varnar á ströndinni.
Sumar í stórhýsi, auðmann til örlætis knýjandi,
aðrar í hreysi með sólgeisla vermandi, hlýjandi.

Þær réðust á stórmenna hrokann í hásæti ríkjandi,
hunda með flaðrandi tungum við fætur þeim sníkjandi;
hæddu þá guði, sem fólkið í fávizku tignaði,
fjandann í manninum særðu, svo máttur hans dignaði.

Stundum varð förin þeim erfið í íslenzku fönninni,
oft varð hann "Mörður" á leið þeirra—hjó þær með tönn-
stundum varð gatslitinn skórinn í grjótinu' og urðinni, [inni;
"guðsmenn" og "höfðingjar" úthýstu, skeltu' aftur hurðinni.

XIII

Í GRÖFINNI liggur hann Gestur—en þjóðin hans syrgjandi,
grætur hún forlög hans, andlit í höndum sér byrgjandi :
nú sjá þeir allir, sem grýttu' hann og flæmdu' hann af fold-
frjóanga þá, sem hann plantaði' í íslenzku moldinni. [inni

Lág er hún gröfin hans—lítið er gjört til að hefja' 'hana,
langar þó fjölmargan eilífðarblómum að vefja' 'hana.
Látum ei hetju, sem lífgaði þjóðina, hóf 'hana,
liggja sem hund eða níðing, sem drap hana, gróf 'hana.

Þó týnt væri leiðið hans, glatað í hyldýpi gleymskunnar,
grafið sem örlítið sandkorn í eyðimörk heimskunnar,
lifðu til eilífðar orðin hans, ljóðin hans, verkin hans —
íslenzka þjóðlífið geymir í hjarta sér merkin hans.

Því ber ekki að neita, að saga Gests Pálssonar er sorgarsaga að mörgu leyti, og í vissum skilningi má hann teljast óhamingjumaður. Sál hans var eins og ólgandi haf, æst af stormum sterkra tilfinninga, sem stundum virtust nálega takmarkalausar og stjórnlausar.

Það er skynsemin og tilfinningarnar, sem alt af eiga í sífeldu stríði í instu tilveru allra þeirra, sem nokkuð kveður að. Það er jafnvægið á milli þeirra, sem skapar alla heilbrigða vellíðan ; komist ólag á það jafnvægi, þá er hætt við, að maðurinn fari eins út á þau svellin, sem hann í rauh réttri veit að hann getur ekki staðið

á. Tilfinningarnar fóru stundum með Gest í gönur. Hann leiddist snemma út á þá braut, sem flestum ágætum Íslendingum hefir að falli orðið — hann var drykkjumaður. Til þess átti hann alla sína ógæfu að rekja. Á námsárum sínum var hann trúlofaður stúlku, og unnu þau hvort öðru hugástum; en fyrir þá sök að hann var drykkjumaður, mun hún ekki hafa séð sér fært að fara lengra. Leiðir þeirra skildu, og eftir það var víst óhætt að fullyrða, að Gestur leit aldrei glaðan dag. Vonbrigðin urðu honum svo átakanleg, að hann fann s j á l f a n sig aldrei aftur. Sumir telja það lítilmensku, að láta þess konar atvik hafa áhrif á líf sitt til lengdar, en þeir vita ekki, hvað þeir segja. Því er nú einu sinni þannig varið, að ástin er óaðskiljanlegur partur frá mannssálinni, og það sá allra viðkvæmasti. Enginn sannur maður getur lifað sönnu lífi án þess að elska og vera elskuður. Hvað sem sagt er, þá er það sannleikur, að líf hvers einasta manns er stöðug og sífeld leit eftir einhverjum, sem hann geti elskað. Þegar hann er fundinn, þá er eins og öllu sé náð. — En þegar svo atburðirnir á einhvern hátt svifta honum í

burtu, þá er eins og sjálft lífið finnist lítilsvirði, og ekki sízt, ef samvizkan kvelst í eldi eigin ásakana. Það er enginn efi á því, að óhamingja sú, er Gestur varð fyrir í ástamálum, hafði meiri áhrif á líf hans en nokkuð annað. Hann segir frá sjálfum sér í því efni svo vel og rétt í kvæðinu: "Ég skil mig ekki—alt af hlýt ég unna", að tæplega er hægt að gjöra það betur. Þar segir hann:

"Ég skil mig ekki — alt af hlýt ég unna,
en elskað sömu lengi' ei get ég *meir*,
mér finst ég þjóta meðal ótal brunna
og mega drekka' — en þyrsta alt af meir.

Ég hefi elskað aðeins einu sinni,
og elskað þá svo heitt, sem nokkur má,
með þeirri glóð, sem brendi inst mig inni
— nú askan þakin er með klaka' og snjá.

En alt, sem bærist inst í sálu minni,
og alt, sem neitar mér um stundar ró,
er þetta: Ég vil elska einu sinni,
bara' einu sinni til — og þá er nóg."

Og enn fremur í kvæðinu: "Ég er þreyttur af angist":

"Ég vil leita og finna' eina einustu sál,
sem ann mér og þekkir mitt alt."

Það var síður en svo, að Gestur léti sér ástmeyjarmissinn að kenningu verða, og segði skilið

við Bakkus; þar var hans veika hlið. Hann er einn af þeim, sem vínsalan hefir komið ofan í gröfina fyrir tímann, á það skulu engar dulur dregnar. — Sökum þess, að Gestur var tilfinningamaður meiri en í meðallagi, höfðu vonbrigðin og sársaukinn þau áhrif á hann, að hann virtist ekki geta haft hugann heilan og óskiftan við nokkurt starf. Annars vegar var svo að sjá sem heillandi, töfrandi, tælandi raddir glaums og munaðar héldu honum föstum og teldu honum trú um, að hann gæti svæft sjálfan sig og látið sig dreyma vært í skauti nautnanna. En þar varð honum þó aldrei svefnsamt; hann hrökk alt af upp öðru hvoru með andfælum og þeirri hugsun, sem hann lýsir i þessum línum:

> "Margoft hlýt ég sárri gremju gráta
> mitt glópsku líf og þetta ráðlag alt."

Og þegar hann var þannig staddur, þá þráði hann svo innilega hluttekning einhverrar sálar, "sem þekti hans alt," eins og hann sjálfur kemst að orði. En þá fanst honum heimurinn svo óbærilega kaldur; honum fanst sem augu allra manna mættu hinum ógæfusama eins og ískaldar klakakúlur, sem alt af hefðu nóg af

frosti lengst innan frá einhverjum andlegum, óþíðanlegum öræfajökli. Þar sem svo virtist sem einhvern yl væri að finna, fanst honum oft sem eigingirni og óeinlægni kæfðu alt, svo ekkert yrði að notum. Góðverkin, sem hann sá unnin, voru mörg af óhreinum rótum sprottin. Honum fanst það vera nokkurs konar þegjandi trúarjátning að sigla undir fölsku flaggi og svíkja lit. Þegar um það var að ræða, að koma einhverju góðu fyrir kattarnef, þá sá hann Pílatus og Heródes taka saman höndum. Aumingjana, ógæfumennina sá hann fótumtroðna, og þá sjaldan þeim var rétt hjálparhönd af þeim, sem betur stóðu að vígi, var það oft gjört á sama hátt og þegar maður klappar hundi eða strýkur kött, kastar í hann einhverjum molum og kallar hann greyið sitt. Hann sá það og heyrði hvernig ýmsar getgátur, sprotnar í miður góðgjörnum hjörtum, voru fyrst eins og lítill neisti, en uxu smám saman og urðu að stóru báli, sem logaði alt í kring um litla hreysið þess, er logið var á, og brendi hann inni; en hvatamaðurinn stóð hlæjandi fyrir utan og hafði tunguna fyrir skörung til þess að auka bálið. Hann sá það hvernig

flestum þeirra, er reyndu að brjóta skörð í vígi þau, sem eldgamlar venjur höfðu hlaðið umhverfis heimsku og hleypidóma, var gjörð leiðin erfið; hvernig þeir höfðu oft orðið að svelta og skjálfa húsviltir á götum mannlífsins meðan þeir lifðu, þótt þeim hefðu verið reistar háar hallir í hugsjónaríki fólksins eftir að bein þeirra voru orðin að moldu. Hann, sem sjálfur var trúmaður í raun og veru, sá það að trúin, helgasta tilfinning mannshjartans, var gjörð að úlfi, sem engu hlífir, höggormi, sem spýr eitri á alt, sem nálægt er, eldi, sem brennir lifandi menn á báli heiftar og hefnigirni; en kærleikurinn, sem átti að vera hornsteinn kirkjunnar, var rifinn burt úr undirstöðunni, honum kastað út á eina óþokkalegustu götu mannlífsins, götu hræsninnar, og þar hafði verið gengið á honum af þúsundum saurugra fóta um margar aldir. ,,Kærleiksheimilið" er þegjandi vottur þess, að svona hugsaði Gestur. Þar eru tvær elskandi sálir aðskildar og beittar þeirri hörku, sem engu tali tekur. Anna, sem er saklaus stúlka, sólfagurt blóm í lundi þeirra lifandi trjáa, sem heita gleði, traust og von, hrekst í stormum táls og tilfinninga-

leysis, þangað til hún er orðin eins og hrímguð frostrós á svelli, og það er eins og allir, sem í nánd bú.., telji það skyldu sína, að stíga sem fastast ofan á hana, þangað til hún loksins er troðin niður úr svellinu ; en presturinn og aðrir kirkjunnar menn, sem óþyrmilegast höfðu stigið á hana, liggja á bæn í kring um vökina, og lofa sjálfa sig fyrir kærleiksríkan ávöxt af trúnni, um leið og þeir kasta steinum á eftir Önnu niður í hyldýpið. Þegar Gestur samdi þessa sögu, hefir hann óefað langað til þess, eins og Ella Wheeler Wilcox segir, að sjá hræsnisblæju uppgerðar-kristindóms brenna utan af þeim lifandi morð-vélum, sem deytt hafa í þúsundum hjartna allar heilbrigðar tilfinningar, í því skyni að geta því betur komið ár sinni fyrir borð í kappróðri þeim, sem fégirni og metorðafýsn stöðugt þreyta við drenglyndi og ráðvendni.

Hvar sem gripið er í að lesa rit Gests, þá kemur það fram, að djúp tilfinning fyrir sorgum annara manna, takmarkalaus fyrirlitning fyrir allri hræsni í öllum myndum, brennandi löngun til þess að fletta hlífðarlaust ofan af öllu, sem af óhreinum rótum var runnið, helzt ef það reyndi

að dyljast í fölsku gervi, var það sem knúði hann til að rita og yrkja; en sterkasti þátturinn í því öllu voru óefað brjóstgæðin; þau voru honum engin uppgerð. Einar Hjörleifsson segir frá því, að hann sá mann koma til Gests og beiðast fjár. Hann fór ofan í vasa sinn og tók upp 25 aura — aleigu sína — og gaf honum, með þeim ummælum, að ekki mætti það þó minna vera, en að vingjarnlega væri tekið á móti þessum olnbogabörnum hamingjunnar.

Það er svo að sjá, sem mannlífið hafi legið fyrir augum Gests eins og opin bók. Þar sá hann myndir á hverri blaðsíðu, málaðar af ímyndunarafli sjálfs hans, en svo trúar og náttúrlegar, að þær svöruðu allar nákvæmlega til annara virkilegra mynda; og það var eins og hann hefði sérstakt lag á því að gjöra þær—ef svo mætti segja—sjáanlegar og heyranlegar, ekki einungis sjálfum sér, heldur einnig öllum öðrum. Á það er áður minst, áð Gestur hafi ekki verið neinn framúrskarandi námsmaður, en þessa bók — bók mannlífsins — las hann spjaldanna á milli, svo langt, sem mannlegt auga getur eygt. Letrið var þar misjafnlega stórt fyrir sjónum hans. Ranglætið,

hrokann og drambið sá hann ætíð skýrast á annari blaðsíðunni, en eymdina, bágindin og fótum troðið sakleysi á hinni. Hann segir frá því sjálfur í ritdómi sínum um ljóð Matthíasar Jochumssonar, að hvert skáld og hver rithöfundur eigi að vera nokkurs konar andlegur sáralæknir, sem skeri burtu meinsemdirnar, og í fyrirlestri þeim, er hann kallar "Lífið í Reykjavík", skýrir hann frá því, hver sé hnífurinn, sem beita eigi við þess háttar lækningar — "það er háðið, nógu sárbeitt og nógu napurt", segir hann, "sem hefir alt af verið og verður alt af öruggasta ráðið til þess að vinna bug á andlegum meinum þjóðanna." Og Gestur var fyrsti Íslendingurinn, sem fyllilega sýndi það, að þetta er rétt.

Sögur hans eru sérstaklega einkennilegar að einu leyti, og ólíkar flestu öðru, sem birst hefir í íslenzkum bókmentum. Þegar hann vill sýna heiminum rök og tildrög ýmsra mála, afstöðu ýmsra persóna, illra eða góðra, þá er eins og hann setji nokkurs konar réttar-hald. Hann leiðir fram báða málsaðila og yfirheyrir þá frammi fyrir öllum lýð, lætur þá ýmist segja söguna sjálfa, eða einhvern annan í þeirra stað,

og þeir eru alt af neyddir til þess að segja hana rétta; flíkurnar, sem hinn seki reynir að hylja sig í, eru jafnan svo götugar, að í gegn um sést. Að loknu réttarhaldinu dæmir hann ekki sjálfur; nei, hann lætur fólkið gjöra það, en þegar hann á annað borð hefir þannig dregið einhvern fyrir lög og dóm, þá skilur hann aldrei við yfirheyrsluna fyrr en málið er svo skýrt orðið, að dómurinn hlýtur að verða hinn sami hjá öllum, að minsta kosti inst í sjálfum þeim, þótt þeir, ef til vill, ekki kannist við það. Í "Kærleiksheimilinu," "Tilhugalífinu" og "Grímur kaupmaður deyr" kemur þetta einna glöggast í ljós.

Gesti Pálssyni var oft um það brugðið í lifanda lífi, að hann væri stefnulaus, hefði ekkert ákveðið málefni, er hann vildi berjast fyrir; heldur skifti sér af öllu og ynni því lítið gagn; rifi alt niður með háði og aðfinslum, en bygði ekkert upp aftur. Einkum var honum borið þetta á brýn sem blaðamanni. En þegar rétt er að gætt, er það efasamt, hvort nokkur blaðstjóri hefir skilið betur stöðu sína en einmitt hann. Það skal játað, að hann var ekki eins vel lærður í pólitiskum flækjum og ýmsir aðrir blaðamenn,

er haga seglum eftir vindi og eru reiðubúnir til þess að koma fram í hvaða gerfi sem þeir halda að gullkálfinum sé þóknanlegt. Hann var enginn hundur, sem léti siga sér á hvað sem vera vildi. Sannleikurinn er sá, að fjöldi íslenzkra blaðamanna misskilur gjörsamlega stöðu sína. Sá, sem les Suðra og Heimskringlu þann tíma, er Gestur stjórnaði henni, hlýtur að sannfærast um, að þar er sál á bak við. Aldrei hefir nokkur íslenzkur blaðamaður skrifað ritdóm af meiri snild, né fyllri skilningi en þann, er Gestur reit um ljóð Matthíasar Jochumssonar; en fyrir þann ritdóm hlaut hann allmiklar óvinsældir, og svo var um það flest, er hann sagði réttast og bezt.

Gestur var eindreginn *jafnaðarmaður;* það er jöfnuður, sem hljómar stöðugt og endalaust í gegn um alt það, er hann ritaði og sagði, frá því fyrsta og til hins síðasta. Það er því misskilningur á honum, að hann hafi verið stefnulaus. Blöðin eiga að vera nokkurs konar vekjandi afl, sem beini heilbrigðum skoðunum í allar áttir ; en heilbrigðar eru þær skoðanir einar, sem eru réttar ; og þótt sumar kenningar hans væru kallaðar loftbyggingar, sem lítinn grundvöll

hefðu á að hvíla, þá hefir það frá öndverðu verið viðkvæðið þegar um eitthvað nýtt var að ræða, einkum hafi höfundar þess verið ungir og félitlir, eins og Gestur var, því það er furðu ríkt í hugum margra manna, að aldur og auður, eða þá vellaunuð staða, eða ættgöfgi eigi að vera einkaleyfi til þess að ræða, rita og hugsa. Þess er of sjaldan gætt, að allar stærstu og fullkomnustu byggingar heimsins hafa fyrst verið bygðar í loftinu; stoðirnar settar undir á eftir; það er að segja, þær hafa verið bygðar í hugsana lofti þeirra manna, sem áttu heilbrigða skynsemi. Í gegn um blaðið sitt talaði Gestur máli lítilmagnans; gegn um það leiddi hann heita strauma í kring um litla bátinn ógæfumannsins, þar sem hann hraktist á íshafi lífsins með látna von í stafni; í gegn um það andaði hann hlýjum anda á gaddfreðna rúðu fátæklingsins, svo ylur streymdi inn í hrörlega kofann hans; í gegn um það kynti hann bál í kring um klakahjarta auragikksins, svo það hlaut að þiðna. Sá, sem þetta hefir gjört, hlýtur að skipa hinn æðra bekk á meðal blaðamanna, og "Suðri" er þess þegjandi vottur, að þetta gjörði Gestur.

En það voru ekki einungis mennirnir, sem hann lét sér ant um. Hann fann einnig snortinn streng í hjarta sínu í hvert skifti, er hann sá dýrunum misboðið. Enginn getur lesið söguna ,,Skjóni" án þess að vikna, ef hann á nokkra tilfinning í eigu sinni, og grein, sem hann ritaði í "Suðra" og kallaði "Sauðfénaðarskurður", er svo átakanleg lýsing á kvölum sauðfjárins á Íslandi, að gremjublandin meðaumkun hlýtur að gegntaka lesandann. Það er tvent, sem aðallega festi sjónir Gests á dýruunm og snart tilfinningar hans fyrir þeim: í fyrsta lagi brjóstgæði hans, sem hlutu að koma fram gagnvart öllu því, er meðvitund hafði og sársauka, og í öðru lagi það, hversu hann var mikill náttúrudýrkandi. Náttúran var fyrir honum eins og voldug vera, móðir alls, og hún mat ekki meira þau börn sín, í hans augum, sem kölluð eru menn, en hin, sem nefnast einhverjum öðrum nöfnum. Náttúran var honum óendanlegt umhugsunarefni; lífið og tilveran vakti hjá honum hverja hugsunina á fætur annari; hann spurði sjálfan sig ótal spurninga, en fékk ekkert svar; hjarta hans var fult af óslökvandi þrá til þess að

skilja takmark og tilgang lífsins, en þeirri þrá fann hann enga svölun.

Þess er áður getið, að hann hafi í raun og veru verið trúmaður, en hann neitaði þeirri trú, sem kom í bága við réttlæti og skynsemi. Hann gat ekki felt sig við þær hugmyndir um guð, sem honum fundust, að því er kærleika og réttlæti snerti, standa á baki réttlæti og kærleika mannanna, með öllum þeirra ófullkomlegleika ; hann neitaði mörgu af aðalkenningum kirkjunnar, svo sem útskúfun og endurlausn, og var því talinn vantrúarmaður ; en ef sannur kærleikur, sprottinn af göfugri trú, hefir búið í nokkurs manns hjarta, þá átti Gestur Pálsson það hjarta. Kvæði hans sum bera þess ljósan vott, að hann trúði. I kvæðinu ,,Á gamlaárskveld 1874" segir hann :

"Ó, þökk sé föður fyrir alt,
ó, fyrir heitt, en líka svalt,
því gegn um sérhvert sorgartár
þú signdir vorar grátnu brár,
unz hjartað brosti' að harm
og hneig að föður barm,
og gleymdi' í faðmi guðs
að gráturinn er sár,"

Og enn fremur í kvæðinu : "Ég er þreyttur....";

"Ég vil bindast þér, alheimsins eilífa sál
og anda við náttúru barm,
og tala svo hjarta míns helgasta mál
og huggast — og þerra minn hvarm."

Það er ekkert trúleysi, sem lýsir sér í þessum orðum. "Að eðlisfari var hann hneigður í trúaráttina, eins og flestir viðkvæmir menn," segir Einar Hjörleifsson, "það lýsti sér í svo mörgu, að á því var ómögulegt að villast fyrir þá, sem þektu manninn til muna."

Oft var Gesti borið það á brýn, að hann væri ekki þjóðrækinn, og héldu sumir því fram, að hann skorti mjög ættjarðarást; töldu þeir það því til sönnunar, hversu lítið hann gjörði úr öllu heima á ættjörðu sinni og hversu djúpt hann tók í árinni um svefn og dáðleysi landa sinna. Það er gamla sagan, að sá, er til syndanna segir, er venjulega talinn vargur í véum, hversu hreinar sem hvatirnar eru, hversu göfugur sem tilgangurinn er. Sá er oft talinn beztur þegninn, sem mjúkust mælir orðin í eyra konungs, og mörgu ríki hafa þess háttar menn að falli orðið. Gestur var vermdur af brennandi kærleikseldi til þjóðar sinnar og gagntekinn af gremju yfir öllu því, er henni var til vansæmdar. Hann var heima

á Fróni það sama, sem Georg Brandes í Danmörku; hann sagði ósómanum stríð á hendur og tók þrælmenskuna hlífðarlausu kverkataki, hvar sem hún var. Ást hans á þjóðinni var ekki svo blind, að hann sæi ekki gallana. Í kvæðinu: "Hinn síðasti Rómverji" farast honum orð þannig:

"Kveð ég þig á döprum degi bana,
dáðalausa, frelsisvana,
ættjörð, mér þó alla daga kær."

Hann lætur kvæðishetjuna á dánardegi lýsa yfir ást sinni til ættjarðarinnar, um leið og hann harmar forlög hennar. Þannig var afstaða Gests sjálfs til Íslands. Síðar í sama kvæði lætur hann hinn deyjandi mann strengja þess heit, að þegar hann komi yfir takmarkalínu lífs og dauða, þá skuli hann ganga fram fyrir guð allsherjar og biðja hann liðs og líknar ættjörðu sinni til handa. Í kvæðinu á þjóðhátíð skólapilta 1874 segir hann um Fjallkonuna:

"Hún grætur sældartíma, heiða, horfna,
er hetjuskapur stýrði bjartri fold;
hún grætur það, að týnt er frelsið forna,
og frægðin lögð í haug og orpin mold.
Hún grætur af því boðar brotna þungir
við brjóstið þreytt, svo minning vaknar köld;

> hún grætur það, hve seint að synir ungir
> úr svefni rísa, byrja nýja öld."

Þegar hann er í Kaupmannahöfn, horfir út yfir Eyrarsund, og sér blasa við fjallatindana í Svíþjóð, segir hann:

> „Þó er eitthvað — eitthvað vantar,
> augu mín því hjúpa tár;
> það er ekki Esjan bjarta,
> ekki Snæfellstindur hár.
>
> Nú er heima haust og kuldi,
> heiðló flúin burtu er,
> og þó finst mér Ísland aldrei
> eiga haust í brjósti mér."

Það má leita lengi til þess að finna viðkvæmari og sonarlegri tilfinningar gagnvart ættjörðunni, en þær, sem koma fram í þessum vísuorðum.

Hér skal staðar numið; við höfum leitast við að lýsa tilfinningum Gests, eins og okkur virðast þær hafa verið, og sýna hann í réttu ljósi, bæði sem *skáld* og *mann*. Þess skal getið, að oss .irðist hann ekki hafa verið ljóðskáld eins mikið og söguskáld; rím á kvæðum hans er víða stirt,og sumstaðar rangt; en efnið í þeim flestum er þannig, að það heldur lesandanum föstum. Með sögum sínum hefir Gestur ekki einungis getið sjálfum sér ódauðlega frægð, heldur einnig

þjóð sinni yfir höfuð. Þær hafa verið þýddar á tungumál ýmsra þjóða, en mestan þáttinn í því á hinn alþekti Íslandsvinur og fræðimaður dr. Carl Kuchler á Þýzkalandi. Erlendar þjóðir hafa sungið Gesti verðugt lof og reist honum veglegan minnisvarða við altari bókmenta sinna, en vér höfum látið gröfina hans óáreitta í 12 ár — mikið ef nokkur veit hvar hún er — og rit hans hafa verið í blöðum í ýmsum áttum, sum á glötunarvegi, allan þann tíma, án þess að þeim hafi verið safnað, en tugum og jafnvel hundruðum ómerkilegra bóka hefir verið helt yfir þjóðina, eins og steypiregni, svo köldu og haustlegu að hún skelfur af hrolli eftir alt saman; hún þráir því einhverja vermandi geisla, einhvern hlýjan anda, og það hlýtur hún að finna gegn um rit Gests Pálssonar — *geisla kærleikans — anda drottins*. Því hjá Gesti á það heima, að:

„Guð er sá, sem talar [s]káldsins raust."

**Útgefendurnir.**



sýndu hljótt að himin yfirgefur,
þótt harmur napur dauða byggi mér.“

1871. Fyrri hlutinn [I.] eftir h.dr. H. M.: síðari hlutinn [II.] eftir h.dr. Ólafs prests Björnssonar á Ríp.)

---

## Lækurinn.

Lækur ljúfi, blíði,
líð þú hægt að sæ,
þótt blóm á bakka stríði
mót báru þinni, æ
þig huldu afli héðan ber
fram að dimmum, döprum sæ,
þars dauði' og gleymska er.

Meðan af himni háum
hnígur sólin skær
og af geisla gljáum
gyllist jökull mær,
á bakka þínum blunda' ég vil,
hlusta' á niðinn helga þinn,
er hnígur sævar til.

Fyrr á æskuárum
oft ég dvaldi hér,
söngur í svölum bárum
sælu veitti mér,

hjá þér fann ég frið og ró,
forni lækur, ljúfi vin,
er líður hægt að sjó.

Svaf ég í sætum draumi
sælum blómum með,
en er af stríðum straumi
stráið brotna réð,
féllu tár mér, hægt og hljótt,
þau voru saklaus, sæl og blíð,
svöluðu þýtt og rótt.

Nú þótt blómið blíða
brotni', er straumi mót
orkar ei að stríða,
eigi græt ég hót.
Hvar eru' blíðu bernskutár?
Þeim fyrir löngu' í harmi heims
hafa svift mig ár.

Eini æskuvinur,
eg þig kveðja má;
hjarta' af harmi stynur,
horfi' ég staðinn á,
þars forðum tár að féllu mér,
yfir því að bára blóm
braut og hreif með sér.

Smáa blómið blíða,
berst þú hægt að sæ:
eg hlýt einnig stríða,
ei þó sigur fæ;
öldur varpa einnig mér
fram að dimmum grafargeim,
þars gleymska' og dauði er.

(1872. Eftir h.dr. H. M.)

[Lag við þetta kvæði hefir samið séra Stefán Jónsson á Auðkúlu. H. M.]

---

## Meðal vina

(í samsæti).

Alt í heimi óðum fer,
ekkert varir lengi,
því á meðan unt oss er
okkur skemtum, drengir;
berum vínið vörum að,
vora harma sefar það;
sorg og sárum gleymum,
og seinni tíma geymum.

Þögul nú er næturstund,
næðir úti vindur;
þekur húmið græna grund,

grár er fjalla-tindur;
mænir fram á myrkan sæ
myrkur jökull, þakinn snæ;
draugar reika dimmir
og dökkir álfar, grimmir.

Fjögur klukkan hringir hátt,
heyrið, nú hún segir
að vér skulum skilja brátt,
skært því lýsi' af degi;
nú er liðin næturstund,
nú fer dagur brátt í mund;
kveðjumst, vinir kærir;
kalla' oss dúrar værir.

(1872. Eftir h.dr. H. M.)

---

## Svanasöngur Bjarnar Breiðvíkingakappa.

Uppi' á himins fagurbláum boga
blika norðurljós, og loga
gullnum varpa'á græði-lostna strönd.
Vankunnandi viltur andi sefur
Vínlands-byggja', er nóttin þögla hefur
helgri blæju hulið sæ og lönd.

Í þéttum skógi þýtur napur vindur,
þreyttur hjörtur stynur sí og æ;
mænir þögull, myrkur fjallatindur
mánabjartan fram á sæ.

Aleinn halur stendur fram við ströndu,
stynur þungt og varpar öndu,
er hann lítur yfir nákalt ver.
Líða' á herðar lokkar hvítir niður,
litfölt enni bleikum mána viður
skín; og hundrað ár á baki' hann ber:
,,Enginn heyrir, nema náhvít alda
og nóttin þögla', er aldrei segir frá,
orð mín, þótt að æfi' sýni' eg kalda'',
aldinn halur mælti þá.

,,Þar sem æðir dauðakrafti dimmum,
dunar heljarómi grimmum
alda hvít við snjófgan Snæfellsás;
þar sem fleygist fram úr öldnum dölum
—feigð og dauða' ei sjaldan boða hölum—
áa skærra óstöðvandi rás.
Þar ég fyrst leit sælan sólarljóma,
og sæll í bernsku móður dvaldi hjá,
þar ég ljúfum lærði beita skjóma
og leiðum fjendum sigrast á.

En hvað gagnar æsku- blíða drauma
endurtaka', og viltra strauma

kvalir sýna' á kaldri dauðastund?
Mikið; því að minning þessi getur
mærum öllum hreystiverkum betur
mig hetju nefnt, er hinsta sofna' eg blund;
því eigi kvalir lífsins lyddan dapra
lengi ber á köldum æfistig,
fyrir lífi heldur hræðslu napra
til heljar lætur færa sig.

En kappinn berst mót heimi' og goðum
grimmum,
og gremju sollnum straumi dimmum
örlaga, sem engir sigrað fá;
útlægan fjarri öllu, er mannsins hjarta
unun veitir, frið og sælu bjarta,
hræðsla lífsins hetju' ei buga má.
Er það hreysti', að hræðast ekki bana,
er hjarta mannsins ró og svölun lér?
Nei, aleinn berjast, auðnu- og friðar vana
öllu móti, hreysti er.

Ofurliða illa fjendur bera,
eina sanna hreysti vera
hélt ég fyrr, en heimska var það sár.
Móti fjendum megnaði' eg að standa,
en meginböl réð sælu minni granda,
og hár mitt gjöra hvítt fyrir elli-ár.
Útlægur vinum, engum minna nærri,

af óðum sæ að Vínlands borinn grund,
fann ég glögt að hreysti' er harla fjarri,
að hræðast eigi banastund.

Minning döpur minna æfistrauma,
minning ljúfra ástardrauma
sem náhljóð eru nærri látnum hal.
Sæll ég undi fyrr á feðraláði,
frægðarljóma glæstum náði,
og minni hreysti marga áa fal;
fyr ég hneig að meyjar mæru hjarta
og munaryndi gladdi veika sál,
til mín virtist brosa vonin bjarta,
en bráðum sá ég — alt var tál.

Myrku nornir! miklu, styrku dísir!
að menn þér hatið, gjörvalt lýsir,
því yðar sæla' er manna meginböl;
er mig, hrakinn áa burt úr ranni,
ástartárum grét hinn ljúfi svanni,
þér horíðuð rótt á hennar tár og kvöl;
og er míns sonar sætur barnarómur
særði yður, guðir, hjálpa mér,
þér hlóguð sætt, en saklaust traust þó
svikulum guðum jafnan er. [dómur

Sviftur öllu', er elskar mannsins hjarta,
öllu', er veitir frið og sælu bjarta,

af fleyi' eg starði' á ströndu hinsta sinn;
þá mér hnigu högl um bleikar kinnar
— hinstu' og fyrstu æfi minnar —
er ég kvaddi ásinn forna minn;
feðra stöðvar földust sjónum döprum,
fölur starði' eg hafið myrka á;
hét ég æ mót heimi bæði', og nöprum
heyja guðum styrjöld þá.

Að ströndum Vínlands borinn sævi svölum,
sviftur skipi' og öllum hölum,
viltra nærri var ég orðinn bráð.
En enn þá kunni Björn þó Breiðvíkingur
beita skjóma', og fávís Vínlendingur
sá að á mér sigri fékk ei náð,
heldur minn því vinur gjörast vildi,
og valdi mig til konungs yfir sig;
máttinn vilta' og veika að ég skyldi
verja' á köldum æfistig.

Fjölmörg ár ég fjarri heimsins glaumi,
fjarri minnar æsku draumi
lifað hefi' á Vínlands góðu grund;
þótt reyni viltur vesalingur stríða,
mér veslrar æfi daga gjöra blíða,
sífelt blæðir sollin hjartans und.
Aldrei má ég góðri ástmey gleyma,
né gröfum feðra' í Íslands ljúfri mold,

sífelt hlýt ég sára minning geyma
um svik og tál og — ættarfold.

Þannig æfi- eru dagar horfnir,
í óvinsemd við styrkar nornir;
í hatri' og styrjöld helga guði við,
því vankunnandi hjörtum villimanna
vildi' ég ekki kenna trúna sanna
á Óðinn, Þór og Ása- helgast lið;
heldur, tældur heimsins drambi myrku,
sem helgan guð þá tigna lét mig vel,
en yður bið ég, guðir ógnar styrku,
annast þá, er ég bíð hel.

Framar öllu', er fölur nár að grundu
ég falla hlýt á banastundu,
sú hugsun engan hjarta veitir frið;
auðmjúk vilta öndin heitum tárum
til einskis hjá mér leitar fróun sárum;
ég er magnlaus, má ei veita lið;
því þegar lífið, hatrið heitt sem léði
heljarkrafta styrka, brottu fer,
hatrið eigi hnígur' með ná að beði,
en hverfur þá — ég magnlaus er.

En guðir, þér sem geimi stýrið manna,
gæfu' og heillum jarðarranna,
öllu veitið anda, mátt og styrk,

sjáið, að mér, sviftum feðragrundu,
sígrimm hafa búið langa stundu
vist á meðal viltra, forlög myrk;
en falla látinn frægðarlaus að moldu
fjarri öllum hetjum sönnum er,
en engin frægð á aumra, viltra foldu
utan nafnið ‚guð' mér ber.

En bára, þú sem brýst á köldum
ströndum,
bana'-orð flytur öllum löndum,
alla tíma vertu vinur minn;
í útlegð sárri hreldum huga mínum
huggun ertu', af ljúfum rómi þínum
særðu brjósti svölun mæra' eg finn.
Ó, kveddu látt með kyngirómi þínum
við kæra Snæfellsásinn, vininn minn;
banaorð frá brostnum vörum mínum
berðu honum þetta sinn.

(Eftir h.dr. H. M., nema 3. síðasta vísan með hendi séra Stefáns á Auðkúlu, en 2 hinar síðustu eftir h.dr. höf.)

———————

## Til Péturs Guðjohnsens

á fæðingardag hans 29. nóv. 1874.

---

Aldna, hrausta hetja, þér
heillaósk nú færum vér;
hlýð þú raddir ungar á,
einlæg vinmál hjarta frá:
ástarvakin æskuhljóð
elli þinni færa ljóð,
*þökk fyrir söng á fósturfold,*
*faðir söngs á Ísamold.*

Lítum þína liðnu tíð,
list og ættjörð helgað stríð,
eins og hetja stökst þú styrk
straumhörð gegn um árin myrk,
sýndir hug og sýndir dug,
sýndir mentun, andans flug.
Lítum yfir liðna þraut,
list vann sigur, rudd er braut.

Þeim sem helga verkið vann,
vit þú, sonur Íslands ann,
þótt þín æfibára blá
brotni dauðaströndum á,
nafn þitt heitt í hjarta rist
hefir hver, sem elskar list,

þenna bjarta bautastein
burtu hrífur tíð ei nein.

Lengi hjá oss lifðu, vin,
lífs þíns heiðríkt aftanskin
sönglist Íslands birtu ber,
bjart, sem dagskin fyr, það er;
aldur sigra' ei andann má'
ellimörk þín tignar há
eru að eins örin merk
eftir lífsins fagra verk.

(1874. Prentað sérstakt.)

---

## Á GAMLAÁRSKVELD 1874.

Guðs *hönd* oss leiddi liðið ár,
guðs *líkn* oss græddi hvert eitt sár,
guðs *ljós* var með svo blítt og bjart,
að brosir grafar myrkrið svart.
  þig, góða gæzkuhönd,
  þig, guðblíð föðurhönd,
  nú lofa börnin bljúg,
  svo bænheit, en svo veik.

Ó, þökk sé föður fyrir alt,
ó, fyrir heitt, en líka svalt,
því gegn um sérhvert sorgartár,
þú signdir vorar grátnu brár,
unz hjartað brosti' að harm
og hneig að föðurbarm
og gleymdi' í faðmi guðs,
að gráturinn er sár.

Vér felum þinni föðurhönd
vorn föður, móður, líf og önd;
vér felum alt, sem elskum vér,
vort eina hæli, faðir, þér.
Geym aldna Ísaslóð;
vor unga, veika þjóð
sé falin, forsjón, þér,
svo fái' hún trú og kraft.

(Prentað í: Kveldsöngur á gamlaárskveld.)

---

## Á ÞJÓÐHÁTÍÐ SKÓLAPILTA 1874.

Í hafi köldu hjartkær móðir situr
með hjálminn bjarta, svelli krýnda brá,
og telur árin þúsund, þung og bitur,
og þögul starir hulda framtíð á;

við hugsun kalda andvörp eldheit stíga
frá öldnu brjósti, þung sem tímans höf,
um brána fölva fjölmörg tárin hníga
og falla rótt í þúsund ára gröf.

Hún grætur sældartíma heiða, horfna,
er hetjuskapur stýrði bjartri fold,
hún grætur það, að týnt er frelsið forna,
og frægðin lögð í haug og orpin mold;
hún grætur af því boðar brotna þungir
við brjóstið þreytt, svo minning vaknar köld,
hún grætur það, hve seint að synir ungir
úr svefni rísa, byrja nýja öld.

En, sonur Íslands, sof þú ekki lengur
og sjáðu hvernig tíminn bendir þér,
og sýndu kraft og dugðu nú sem drengur,
því dáðrík móðir stödd í háska er;
sjá, nú er tími, rís úr dimmum draumi,
úr dugleysinu sýndu loksins rögg,
og stand nú, vinur, vel í tímans straumi
og vonarskildi bregð við sérhvert högg.

Ef menn ei skilið geta góðan vilja,
en ganga fram og berjast móti þér,
þá hræðstu ei né hopa — ber að skilja,
að hatrið veikt mót styrkum sannleik er;
og vinn þú fyrir móður æfi alla,

hvern áþjáns blett af heiðri strjúktu brá,
og haltu áfram, unz þig nornir kalla,
svo ást og frelsi gráti legstað hjá.

En veit oss aftur andann forna, móðir,
sem áður lýsti bjartan hetjudug,
var náttúrunnar sonur, saklaus bróðir
hins sæla frelsis, stýrði feðrahug;
hann bjó í Kjartans hetju brjósti háu,
og *Herði, Kára, Gretti* veitti þor,
svo frjáls og hreinn sem fjöllin himinbláu
og fagur eins og þúsund ára vor.

(Eftir prentuðu „Minni".)

---

## Elín Guðmundsdóttir.

Sjá, ungmær hjúpuð hinsta sinn
er helguð grafar nótt,
með svanhvítt brjóst og bleika kinn,
hún blundar himinrótt.

Og stutt hún bjó við stundarharm
og straum á æfisjó;
hún hvíldi' að móður blíðum barm
og brosti rótt og — dó.

En engilhrein leið æfin þín,
þú unga himinrós!
því yfir dimmum dauða skín
þér drottins friðarljós.

Og vorsins lifnar litblíð rós
þinn lága beðinn við,
og himinsólar signað ljós
þér sendir guðs þíns frið.

Ó, hvíldu, Elín, hinsta sinn
í húmþró grafar rótt;
en drottinn býr um beðinn þinn
og býður góða nótt.

(1875? Eftir h.dr. E. læknis Guðjohnsens.)

---

## Hallgrímur Melsteð

28. janúar 1883.

Margoft var það hér í húsi þínu,
„Hallur", fyr vér áttum gledifund;
treysti æskan ungu kappi sínu,
engan skugga bar á nokkra stund;
þá var bæði rætt og ritað líka,
reistar hallir uppi' í lofti blá;



## Minning.

---

Horfin ertu, æska blíða,
unaðs-sæla vonartíð;
þú ei kennir kvíða' og sorgir,
kólgu lífs né æfistríð,
sakleysis í sælum draumum
sérðu' ei nema frið og ró;
hyggur að í heimi þessum
himnesk sæla búi nóg.

Man ég er að móður barmi'
í mildum blundi hneig ég rótt,
sá í draumi sæla anda
svífa kring um beð minn hljótt;
það voru' tár, er mætust móðir
mildum drotni senda vann,
og þess bað: um æfivegu
ætíð mín að gætti hann.

Þá ég hugði' um æfi alla
ætíð dvelja sæll hjá þér,

þú svo jafnan, þýða móðir,
þerrað gætir tár af mér.
Augað þitt hið engilblíða
æfibraut mér lýsti þá,
og mig loks til ljóssins engla
leiddir, er í draumi' eg sá.

Bernska, þínar blíðu vonir
brugðist jafnan hafa mér;
aleinn stend ég uppi' í heimi,
engum manni kær ég er;
sú hin eina, sem mér unni,
sefur rótt á grafarbeð;
hjarta þreyttu heimur framar
huggun enga nú fær léð.

Þegar loksins lyktar æfi,
lúkast munu grátnar brár;
er ég hníg að grafargeimi,
gróa munu' í brjósti sár;
enginn látinn hal mun harma'
og hugga mig á dauðastund,
né vökva leiðið vinartárum
—væran hefi' eg grafarblund.

(1870. Eigin handrit.)

## Eftir vin minn.

—

Sæll ertu, vinur,
í sólarheimum
af hörmum laus
og heimsböli;
gott er ungum
æfi lúka,
meðan ei mæða
manninn beygir.

(1870. E. h.dr.)

---

## Hinn síðasti Rómverji á banastundinni.

—

,,Aleinn stend ég uppi' í víðum geimi,
engin framar nú í heimi
hu[illegible]n er, sem hjarta græði sár;
[illegible] allnir; frelsið horfið blíða,
[illegible] þínu lífi nam ég stríða,
[illegible]an þróttur entist, von og ár;
móðir, faðir, mínir frændur kærir
myrkrar grafar þreyja' í sætum blund,
dauðþreytt auga dúrar flýja værir,
dofið hjarta þjáir blóðug und.

Man ég er að móður- kærum barmi,
mjúkum hennar vafinn armi,
svaf ég rótt; en sæla' í hjarta bjó;
heims ég eigi þá nam kenna þrautir,
þyrnum stráðan veg og harmabrautir,
barnsleg von í brjósti ungu hló;
heimur brosti' í bernsku sælum draumum,
búa þar ég hugði frelsi' og ró;
svikul von! er sá í æfistraumum
seggja hjörtum búið yndi nóg.

Æskuvon og unaðsfagrir draumar
óðum liðu', — en nornastraumar
báru mig frá bernsku kærri strönd;
frægðarlöngun brann í æðum ungum
— enginn raskar dómum þungum —
fram á æfi óðfleyg starði önd.
Ættjörð vafin áþján — myrkum dróma —
einatt fyrir huga mínum stóð;
henni vinna hugði' eg mínum skjóma,
í hjarta meðan brútneskt rynni blóð.

Sesar, búinn svikagjörnum anda,
svásu frelsi vildi granda;
hetju slungna hefta' ei kunnu bönd;
móti frægum mátti engi standa
maður, eða nöpru ráði granda
megnaði' ekkert máttug Jovis hönd.

Metorðsgirni mikla vildi' hann lina
meður því, er svikráð fengu veitt;
hróp úr gröfum hraustra frelsisvina
hjarta níðings mátti' ei sefa neitt.

Foldu þá, er fyrst hann leit í heimi
— fyrsta allra' í jarðargeimi —
vildi' hann ræna frelsi' og fornri dáð.
Feðra vorra hreysti — erfðan — huga
hugði sér með kænsku' og vélum buga,
sinni ætlan svo hann fengi náð;
niðja þeirra', er fyrir frelsið blíða
fallið höfðu, kappa- gæddir önd;
hefðarvana hneppa' í ánauð stríða,
heimur meðan stæði', og sær um lönd.

Blóðug löngun brann mér þá að sýna
böðli', er ættjörð vildi týna,
rómverskt frelsi 'ið forna' að lifði enn;
hét ég því inn harða níðing fella,
hníga sjálfur nár að grundu ella;
fáeinir mér fylgja vildu menn.
Þegar rekkur, ráðum grimmum knúinn,
ræna vildi konungsnafni sér,
feldi' eg, mínum fleini styrkum búinn,
frelsis níðing — sem þó unni mér.

Hjartablóðið brann í ásjón minni,
brandareynir lyfti sinni

hendi' — en brostin augu mændu' á mig:
,,Sonur blíði, sízt þig hugði' eg finna
svarnra meðal fjenda minna;
elskað hefi' eg alla tíma þig.
Enda lífs síns enginn þekkir maður,
ekki hugði' eg þig mér búa hel;
ljóss til sala svíf ég harla glaður,
sonur kæri, farðu jafnan vel!"

Bundnir áþján — afarmyrkum dróma,
engir frelsis- sáu ljóma;
ættjörð fögur banablundinn svaf;
hana' að vekja halur enginn kunni,
hún ei lengur frelsi sínu unni,
loksins hlaut ég landi flýja af.
Sífelt hafa fjendur sigur fengið,
— framar engi von er, ættjörð, þér —
vinir allir hafa helveg gengið,
— hann eg sjálfur bráðum einnig fer.

Hvað er nú, sem hjarta gleðisnauðu,
hreldu brjósti, vonardauðu,
æfi þreyttri unað búa má?
hvernig næ ég fallnra vina fundi,
frjáls sem með í gleði' og neyð ég undi?
— mun það ei í manna heimi fá. —
Mig að græða megnar að eins dauði,
myrku hjarta' hann veitir ljós og frið;

hans í faðmi halur vonarsnauði
huggun finnur, þæga ró og lið.

Kveð ég þig á döprum degi bana,
dáðalausa, frelsisvana,
ættjörð, þó mér alla daga kær;
engi' er hér, sem augum loki mínum,
eða væti hrygðartárum sínum
leiði þess, er liggur móður fjær.
Þegar Jovis stend ég fyrir stóli,
— stundin hinsta þegar komin er —
mun ég biðja', í mildu sínu skjóli,
móðir bezta', hann jafnan haldi þér."
(1871. Eigin h.dr.)

---

VIÐ SJÓ.

---

Eg sat við sævarströndu
og sá í dimman mar,
en röðull blíður runninn
að ránar beði var.

Máni' á marinn dimma
mændi' — en frónið hljótt,
laugað legi svölum,
lá í draumi rótt.

Djúpt úr drafnar sölum
döpur hafmey steig;
lokkasafnið svarta
svanna' á axlir hneig.

Bifaðist böli sáru
barmur meyjar ótt,
hnigu ljós af hvörmum
hennar tárin rótt:

„Hafmey, vertu hughraust,
harm ei sigra lát;
brjósti bý ég einnig
blíða ró, með grát."

Á láði sem á legi
loga' í brjóstum sár;
alt það megna' að engu
almáttk gjöra tár.

(1871. Eigin h.dr.)

---

## EIÐROFINN.

„Lífið alt er blóðrás og logandi und,
sem læknast ekki fyr en á aldurtila stund."—K J.

Man ég þig, meyja,
er margoft ég

örmum vafði
í alsælu,
og er saklaus þú
seigst mér að brjósti;
fann ég í hjarta
himneskt yndi.

Hét ég þér, meyja
hjartakæra,
æfi tryggur
alla vera;
bera með þér
böl og yndi,
hvíla loks hjá þér
í húmi grafar.

Ei, í blundi
ástarsælum,
þektum við norna
nöpur ráð;
brosti' okkur móti
bölsollinn heimur;
hugðum hvort öðru
helga æfi.

Hefi' ég eið minn
haldið forna?
er ég saklaus

æ sem fyrr,
þegar eg sæll
að svanna barmi
hneig, og þáði
heita kossa?

Nei, ég hefi' eitrað
æfi þína,
mey, sem forðum
mér varst kær;
hjarta þínu
hefi' ég búið
dapurt vonleysi,
dauða og kvöl.

Meðan ég reyni
röddu dimma
sefa í helkaldri
samvizku;
meðan ég veig
að vörum ber
og bráðum æfi-
bý mér enda,

situr þú og harmar
heldöpur forlög,
bölvar eiðrofa
ærulausum,

er þig sakleysi
svásu rændi,
bjó þér helvíti
í heimi jarðar.

Hvert skal flýja
heitrofi?
hvar má hann finna
frið og sælu?
Megnar hann undan
meyjar óbænum
komast, og hjarta
hvíld um fá?

Nei, hvert sem flý ég,
fylgir mér æ
saklausrar meyjar
svipur, er ógnar:
aldrei skuli' ég gleyma
glæpi dimmum,
hvergi finna
frið á jörðu.

Meðan ég reyni
í mjúkum blundi
gleyma álögum
afarnöprum,
get ég þín líta

grátþrútin augu,
og varir bærast
til að bölva mér.

Hvervetna' á flótta
fer ég einn saman,
mér í heimi
ei hæli' er veitt;
augu mæna
eftir svölun,
sjá þau ei nema
svarta gröf.

1871. (Eftir h.dr. I. Einar

---

## Bernskan.

Sælt er að blunda að svásu móðurhjarta,
sælt er að una' á mjúkum föður-knjám;
engla, sem vernda æsku röðulbjarta,
alvaldur drottinn sendir börnum smám.

Saklaus í huga sæla býr og gleði,
er syndina' ei þekkir, véla-heims né ráð;
föðurhönd styrka faðir himna léði,
fullsælum börnum að heimur fái' ei náð.

Niður um kinnar brennheit tárin boga,
blíðasta huggun ungu hjarta ...
heimurinn glottir — hann þó eigi logar
himneskt sakleysið bernsku ráðast á.

Æsku- þó líður unaðsfagur draumur
alt er á jörðu myrkum brautum háð
veraldar dapur vonzku hulinn straumur
vélum æ saklausu barni loks fær náð.

Sakleysið hverfur sætu bernsku ...
svífa á brott í liðins tíma ...
aftur í brjósti ótal sloga sa...,
örvænting loksins sér vill búa gröf.

Barnið, sem forðum bernsku í liðnum
draumum
blíðasta alsælu hugði' í hæðum geim,
...þreytt til jarðar, s... harmastraumum,
...r margoft hvílu ... grafar heim.

(... h.dr. ... Melsteð.)

---

## ÖRVÆNTING.

I

Dimmum ómi ... klukkur hljóma,
dapran násöng ... líkfylgd fer;
...kumanninn, ungra sveina blóma,

innan fjala dökkra hulinn ber
flokkur dapur fram að grafardjúpi,
felast skal hann þar á myrkum beð;
að eins búinn hvítum dauðahjúpi;
—horfið er alt, er svikul jörð fær léð.

Frændur, vinir Friðriks gröf umkringja,
falla tár á látins hinsta beð,
meðan líksöng daprir söngmenn syngja
svartir l[illegible] menn hylja moldu með
þann, sem áður yndi vinum léði,
ást var frænda, móður ellivon;
moldin návígð nötra' á kistu réði,
á nepju grafar minti jarðarson.

Heitmey sveinsins, hjartkærs bróðurarmi
hnígin að, á myrkan starir beð;
unga hjartað ákaft bifast harmi,
ekkert særðu brjósti ró fær léð;
buna tár um bleikar kinnar niður,
brenna þau á látins vinar gröf;
þess hún óskar, að hún hlið hans viður
æfi- væri flutt um döpur höf.

Loksins döprum lokið hafa starfa
líkmenn, moldu þöglan hulið beð;
klukkur þagna, kveður látinn arfa
kærust móðir, tárum heitum með;

vinir, frændur, allir yfirgefa,
öllum hulinn, vinar kaldan ná —
nema mær, því sár það eitt má sefa,
að sjá og stara vinarleiðið á.

II.

Máni starir myrkra' úr dimmum geimi,
mænir yfir hauður, frosið, rótt;
alt er vafið værð og ró í heimi,
vinsæll fugl á greinum blundar hljótt;
ströndu kalda faðmar fannhvít alda,
feigðar-rómi kveður hátt við storð,
ofan bergið fleygist forna' og kalda
foss, og þylur lýðum hulin orð.

Ástmey fögur alein köldum beði
ástsveins látins döpur situr nær;
um fölar kinnar falla' ei lengur réði
fossinn tára — böli svölun mær —;
augu þrútin stara' á stjörnuljóma,
stefnir önd að himna kærri grund,
þar hún hyggur, harma- leyst af dróma,
hugglöð lifa' í sælu alla stund:

,,Nú eru liðnar æsku unaðsstundir,
indæl von og bernskudraumur mær;
af harmi brenna hjarta sárar undir;
ó, horfinn ertu, bezti vinur kær!
Þér að fylgja þrauta- burt úr heimum

þreytt ég skal, þó stutt sé æfileið,
betri von í blíðum himins geimum
bíður mín, er stytt er æfiskeið.

Þig ég kveð á köldum degi bana,
kærust fold, er alið hefir mig;
nú ég andast auðnu- og gleðivana;
ekkert lengur festir mig við þig;
móðir, faðir, minn hinn eini vinur,
mædd af lífi sofa grafar blund;
blóð mitt storknar, brjóstið unga stynur,
— en bráðum kemur lausnar-sælustund.

Þegar svífur sunna' úr austurstraumum
og sendir foldu geisla mæra á;
þegar virðar vakna' af sætum draumum,
vona' ég til að einhver muni sjá
andarvana mig á myrku leiði,
mæðu- jarðar flutta' um sollin höf;
þá ég vona' að veg minn einhver greiði
í værðarsæla, blíða, þögla gröf.

En stjarna, þú, sem starir blítt á foldu
og ströndu kalda lýsir skært um nótt,
þegar liðin lögð ég verð í moldu,
láttu geisla þína svífa rótt
yfir leiðið, þars að Þórunn sefur
og þreytt af böli hvíldar vonar sér;

og oss fanst sem ættjörð enga slíka
ætti garpa — heimur opinn lá.

Bernskan leið — vér öðru sintum allir
— ótal skugga bar um lífsins hvel —
brotnar lágu bernsku drauma hallir,
brotnar allar lífs við fyrsta él.
Kvæðin vor, þau blóm sín bernskan unga,
beztar vonir, faldi' í kyrþey hljótt,
fölnuð lágu lífs und klakaþunga,
lágu bliknuð — sum á einni nótt.

Og vér hittumst ekki allir lengur,
einn, nei tvo nú fela dauðans tjöld,
þeim sé heill, er hreinn og góður drengur
héðan saklaus ber sinn æsku skjöld.
Skarðið fylla nú oss nýir drengir,
nýjar bárur varpa' oss lífs um sjó;
hirðum ei þó togni' í stormi strengir
— stillilogn í gröfinni er nóg.

Því vér skulum vaka æ og vinna,
veikt er lífið, stutt er æfihríð;
nornir kaldar, þöglar, þráðinn spinna,
þegar va[illegible]ir minst er liðin tíð.
Margt þú [illegible] til gagns fyr' góðu' að stríða,
gáfur miklar, skylduverkin full,

frændur göfga; eitt, sem alt má prýða,
eitt hið bezta — hjarta þitt er gull.

Vér sem ungir lögðum lífs í strauma,
létum sumt, er missast eigi skal,
og við háreist vorra gleðiglauma
gleymdum títt að nautnin á sinn val.
Eitt ég veit þú heilt barst heims úr
glaumi,
hjartað bezta, sem þér móðir gaf;
sem það stýrði ungum æskudraumi,
eins þér fylgja mun á dauðans haf.

Þó þú aldrei afrek nokkurt vinnir;
ekkert, sem nú fræga gerir þjóð,
hjartans rödd ég hygg þú ávalt sinnir
— hjartans rödd var vöggu þinnar ljóð —
þetta hjarta vel og lengi lifi;
loks er kveður þú vorn hóp og rann,
þitt á leiði vil ég vinir skrifi:
*„Víst er það, ei getur betri mann.*

(Prentað sem sérstakt minni.)

## Til Nordenskjölds.

Reykjavík 15. sept. 1883.

Oft um voða og þraut liggur vísindabraut
og með vogun skal reynsluna fá,
þó er sárhættuleið jafnan sífögur, heið,
þeim er sannleika keppa að ná.

Þá var sóknarhörð tíð, þá var sævolk og stríð
er þú sigldir um Asíulönd;
ekki hafíssins fjöll, ekki heimskautsins tröll
fengu heft þig né beygt þína önd.

Þá var sigurinn hýr og þín sigurlaun dýr,
er þú sigldir um Asíulönd,
þú með heiðursins gnægð og með heimsvíðri
aftur heilsaðir feðranna strönd. [frægð

Sú er norðurför bezt, það um Norðurlönd mest
telja nútíma þrekvirkið skal,
þú að aflrauna hug og að afrekadug
skipar öndvegi' í farmanna sal.

En þú situr ei kyr, þú ert samur og fyr,
elskar sigur, ei metorð né laun;
þú átt vísindaglóð, þú átt víkingablóð,
aldrei veiztu af háska né raun.

Kominn hafíss úr flaum, kominn hafs yfir straum
berðu heiður til ættlands þíns senn,
á þitt heimsfræga nafn, á þitt hervirkja safn
varpar hamingjan ljómanum enn.

(Prentað sérstakt sem minni.)

---

## Vísur.*)

Þú stela vilt frá vorri þjóð,
með vélum, hauglagt mál,
svo löngum tíma, lífsins sjóð;
nú líttu' á þetta bál.

Þú skelfast mátt, þig skurðgoð, vér
nú skulum brenna fljótt;
þinn máttur loksins aumur er
og enda tekur skjótt.

Af blótstall alda' í ösku nú
hið aldna goðið skal,
og fylgja Marts og fornri trú
og falla loks í val.

*) Vísur þessar voru sungnar við bálför latneskra stýla kompna, sumarið 1874; skólapiltar brendu þá stýla kompur sínar allar, er til náðist, suður á melum. J. Þ.

Og hníg þú rótt að heljargeim,
vor heimska' um fjölmörg ár,
og vindur dreifi öskueim
og eyði kaldur sjár.

Ef ferðamaður fer um hér
og finnur þennan stað,
þars heimska skólans hnigin er,
þá hræki' hann leiði að.
(Eftir h.dr. Jóns Þorkelssonar yngra.)

---

## Á Löngulínu.*)

Hnígur sunna, særinn dynur
svalan óð við fjörustein;
næðir bitur norðanvindur,
nakin stynur skógargrein.
Einn ég sit við sævarströndu,
sviftum blöðum undir lund,
þrái ættjörð stúrinn, stúrinn,
stari fram á Eyrarsund.

Heyrðu, bára ljúf, er laugar
lítinn stein að fótum mér,

*) Skemtistígur fyrir utan Kaupmannahöfn fram með Eyrarsundi. Útg.

hvaðan komstu langar leiðir
lagar, til að deyja hér?
Ertu fædd við foldu ísa,
Fróni sumardýru hjá?
Berðu máske mjúka kveðju
mínu kæra heima frá?

Sé ég brosa bláu fjöllin
beint á mót, á Svíagrund;
þau eru há og hrein og fögur,
horfa tígin fram á sund.
Þó er eitthvað — eitthvað vantar,
augu mín því hjúpa tár;
það er ekki Esjan bláa,
ekki Snæfellstindur hár.

Nú er heima haust og kuldi;
heiðló flúin burtu er,
og þó finst mér Ísland aldrei
eiga haust í brjósti mér,
Þar sem býr minn bezti faðir,
bræður góðir, vina fjöld;
þar sem felur milda móður
moldin þögul, stirð og köld.

Sunna' er hnígin, særinn þagnar,
sofnar hann við unnarstein;

vindur blundar báru' að faðmi,
blaðlaus hnígur skógargrein.
Dimman hylur fjöllin fjarri,
felur bráðum sæ og grund.
Þrái' ég ættjörð stúrinn, stúrinn,
stari fram á Eyrarsand.

(Ísafold III. 29., 19. des. 1876.)

---

## Til Íslands.

Sit þú heil í svölu djúpi,
sægirt jökulsnót,
lyftu jökul heiðum hjúpi
himni drottins mót;
aldrei svívirðingin sára
sverti þína brá,
eftir þrautir þúsund ára
þú ert björt og há.

Dyn þú, ægir, þrumum þungum
þrátt við feðra láð,
syng þú hugþrek sonum ungum,
sem að vantar dáð;
vek þú heillavætti forna
víðri foldu á,

töfra í oss hreysti horfna
haugum gleymdum frá.

Tengjum, bræður, hjörtu' og hendur,
heitt skal íslenzkt blóð,
svo að rísi eins og endur
okkar litla þjóð.
Það hið nýja, það hið unga,
það skal sýna móð!
gegn um stríð og storma þunga
streymi æskuglóð.

Þér, vor móðir, einni, einni
unnum heitast vér;
þinni fegurð himinhreinni
helgast draumur hver;
við þín björg og hraun og hlíðir
háð er lífsins tíð,
vorir draumar bernsku blíðir,
bjartast manndóms stríð.

Áfram svo gegn stríðum straumi,
stórt er okkar mið;
rísum upp úr deyfð og draumi;
dáð býr engi' í frið;
lyftum neyð og oki alda
—andinn sýni þor—

framtíð áttu, fóstra kalda,
framtíð þín er vor.
(Andvari 4. ár 1877.)

---

## Ég er þreyttur af angist.

Ég er þreyttur af angist, hér eldist mín sál,
svo aflvana berst ég með straum;
hér sloknar og eyðist alt æskunnar bál
við unaðsemd trylta og glaum.

Ég er þreyttur og leiður við götur og grjót
og glymjandi stórborgar tál,
og þessa, svo stefnulaust streymandi, sjót,
sem starir og glápir á prjál.

Nei, burtu með hégóma, hræsni og tál
og hjarta svo svikult og kalt;
ég vil leita og finna' eina einustu sál,
sem ann mér og þekkir mitt alt.

Ég vil anda' að mér himinsins hreinustu lind
á hátind með fossanna straum
og líta svo hlæjandi' af hájökultind
á hégóma lífsins og glaum.

Ég vil svífa um hyldjúpan úthafsins ál
og una við stormanna flóð,
því trylling þá elskar mín undrandi sál
og ógnbjarta leiftranna glóð.

Ég vil bindast þér, alheimsins eilífa sál
og anda við náttúru barm,
og tala svo hjarta míns helgasta mál
og huggast — og þerra minn hvarm.

(Andvari 4. ár 1877; bls. 72.)

---

## Betlikerlingin.

Hún hokin sat á tröppu, en hörkufrost var á,
og hnipraði sig saman, unz í kuðung hún lá,
og kræklóttar hendurnar titra til og frá,
um tötrana að fálma, sér velgju til að ná.

Og augað var svo sljótt, sem þess sloknað hefði ljós
í stormbylnum trylta um lífsins voða ós;
það hvarflaði glápandi, stefnulaust og stirt
og staðnæmdist við ekkert — svo örvæntingarmyrkt.

Á enni sátu rákir og hrukka hrukku sleit,
þær heljarrúnir sorgar, sem enginn þýða veit;
hver skýra kann frá prísund og plágum
öllum þeim,
sem píslarvottar gæfunnar líða hér í heim?

Hún var kannske perla, sem týnd í tímans haf
var töpuð og glötuð svo enginn vissi af,
eða gimsteinn, sem forðum var greyptur láns
í baug,
en glerbrot var hún orðin á mannfélagsins haug.

(Þjóðólfur 34. ár, 6. nóv. 1882.)

---

## ÉG SKIL MIG EKKI — ALTAF HLÝT ÉG UNNA

Ég skil mig ekki — altaf hlýt ég unna,
en elskað sömu lengi' eg get ei meir,
mér finst ég þjóta meðal ótal brunna
og mega drekka' — en þyrsta altaf meir:

Því sjái' eg mey, og sé hún ung og fögur,
og sé hún ekki járnköld, eða stál,
þá er ég í báli, yrki ótal bögur
og öllu fórna, líkam bæði' og sál. —

En þegar víman aftur af mér líður,
ég ætíð finn að glópska mín var stór.
Var hún sú rétta? nei, og sárt mér svíður,
er sé ég aðra, hvernig þarna fór.

Með nýrri ást svo nýja byrja' eg vegi,
en nýtt í vorum heimi eldist fljótt;
svo gengur koll af kolli, dag frá degi,
frá dagsins morgni fram á svarta nótt.

En þó er ég orðinn þreyttur fram úr máta
á þessum leik, því hjarta mitt er kalt,
og margoft hlýt ég sárri gremju gráta
mitt glópsku líf og þetta ráðlag alt.

Ég hefi elskað að eins einu sinni,
og elskað þá svo heitt sem nokkur má,
með þeirri glóð, sem brendi inst mig inni
—nú askan þakin er með klaka' og snjá.

En alt, sem bærist inst í sálu minni,
og alt, sem neitar mér um stundar ró,
er þetta: Ég vil elska einu sinni,
bara' einu sinni til — og þá er nóg.

(Þjóðólfur, 34. ár. Rvík 18. nóv. 1882.)

---

## Móðir mín.

Man ég er í síðsta sinn
— þar sem móður minnar varði
mænir látt í kirkjugarði —
sat ég hljótt með hönd und kinn.
Þokuskýja skuggatjöld
féllu létt um fjalla hlíðar,
fyrir ströndu bylgjur þýðar
kváðu sætt um sumarkvöld.

Aleinn þar ég úti var,
horfði á er húmið dökkva
hjúp sinn breiddi' og fór að rökkva,
skugga bar um bygð og mar.
Svo ég laut að leiði þín—
grúfði mig í grasið skæra,
grét þar æsku mína kæra,
og þig — bezta móðir mín.

Glötuð eru gullin mín,
týndir leikar æsku allir,
orðnar rústir bernsku hallir,
alt týnt — nema ástin þín;
hún mér enn í hjarta skín,
ljósið bezt í lífi mínu,
líknin flest í auga þínu
brosti ætíð, móðir mín.

Þó ég fengi allan auð,
völd og dýrð og vinahylli,
veittist skáldfrægð heims og snilli,
samt væri' æfin auð og snauð
ef ég mætti' ei muna þig,
hlúa' að þér í hjarta mínu,
hlynna' að öllu minni þínu,
móðir, elska, elska þig.

(Suðri II. 11., Rvík 7. maí 1884.)

---

## Árin líða.

I.

Á lækjarbakka lítill undi sveinn,
og fagurt hérað ungum augum rendi.
Hið bláa fjall nú mænir himni mót,
með tindum hám og tignarfögrum klettum;
þá enginn nema örninn forni byggir,
sem vofir yfir veikum fugla skara.
Að sævi hnigu svalir lækir rótt,
en blíðum niði blandaðist dauðavein,
er fagra rjúpu fálkinn sigrað hafði,
því sakleysi' ávalt svikum hnígur fyrir.
Frá bæjum smáum bláir reykir líða

um loftið hreina himni bláum mót;
hinn ungi sveinn nú þvínæst leit á lækinn,
er blíðum ómi fram hjá fótum hans
til sævar hneig, er harla var þar nærri.
Sakleysi' á enni, sæla' í hjarta bjó,
í augum tárin — æsku verndarenglar —
Hræddist hann jarðar hulin svik og tál?
nei, engan kvíða æskan sæla þekkir.
Var hann í heimi vinalaus og einn?
nei; faðir, móðir bar hann örmum á,
en æskan tárast, finnur frið og ró,
er síðan týnist tárum ljúfum með,
og barnið grætur, en veit eigi hví!
Nú sveinsins mæra móðir kom þar að
og þýðri hendi þerði grátnar brár;
hinn kæra son hún sér að brjósti lagði,
og mælti orð, er móðurhjarta' eitt þekkir,
og andi saklaus aðeins skilið fær.

II.

Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
hjá kistu dökri' í kirkju fornri stendur.
Ár eru liðin — móðir hans hin mæra
nú kaldur nár í kistu þeirri liggur.
Um glugga þýtur napur næturvindur,
á dauðra gröfum blómin fölnuð blikna,
en sveinninn ungi sinnir eigi því;
hann grátnum augum kistu kalda lítur

og hjartað unga harmar móður látna.
Hann tekur lok af tárum vættri kistu,
svo hinsta sinni móður líta megi.
Sú, sem hann unni, sveipuð hjúpi, rótt
með lokuð augu liggur köld og stirð;
um bleikar kinnar líður litur dauða;
í brjósti köldu býr ei framar ást,
Hann titrar, hönd á helkalt leggur hjarta,
sem við hann blunda' á bernskuárum réði,
en ástarvottum að eins þögnin svarar,
og angist sveinsins aðeins dauðahrollur.
Hann aftur lokið hrífur sér í hendur,
en lýtur fyrst að ljúfrar móður ná,
við kaldar varir kossi mintist heitum
og því næst lokið lagði kistu yfir.
Hann augun grátnu, ungu, því næst fyrir
loks höndum brá og bað — en alt var hljótt,
svo eyrað heyrði hjartans lágu stunur.
Nú skýtjald hylur skuggalegan mána,
og voðamyrkur veslan sveipar heim.
En alt í einu heyrðist helgri' í kirkju.
með undrarómi einhvers kallað nafn.
Sveinninn hrökk við, sínum höndum brá
frá grátinni' ásýnd, er nú helbleik starði
á dauðakyrð hins dimma næturheims,
því hulda röddin hafði nafn hans kallað;
en auga sveinsins ekkert mátti sjá.
Var þetta kveðja köldu líki frá?

Nei, móðurorð ei myrkra- líkjast -hljómi.
Var þetta boði böls á huldum tímum?
Það örlög tíma eigi komins sýna.

III.

Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
frá æskustöðvum langt er farinn brott.
Ár eru liðin — enginn nú er nærri,
sem fyr í bernsku drengnum dvaldi hjá.
Í myrkri fold er móðir náköld falin,
og syni ungum fjarri faðir;
og bræður hans, þeir einnig eru fjarri,
og varla vita nú að til er hann,
því ungir voru þeir, er þá hann kvaddi.
Nú ungi sveinninn sáran finnur það,
með ókunnum að einn er þungt að dvelja,
því yfirsjónir eru glæpir taldir
og sælu tárin vottur vesaldóms.
Þú sælt ert, barn, er blunda' að móðurhjarta
um æskudaga alla þína getur,
þú eigi hlýtur undir eins og vitkast
að sjá að vonin sæla tál er aftur,
og æfinepju' um æskudaga finna.

IV.

Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
frá þessum stöðvum halda hlýtur brott.
Ár eru liðin — ungi sveinninn nú

til föðurbygða halda verður heim.
Mót honum blasir bærinn, þar sem hann
um nokkur ár í æsku dvalið hefir
— því enn þá er hann aðeins 15 ára —
við hlið hans tuttugu' ára ungmær stendur.
En hefir sveinninn sínum föður gleymt?
og langar hann ei að líta bræður unga?
Hví hníga honum fölum fjöldi tára?
hví titrar brjóst hans unga' og einnig meyjar?
Það að eins skilja þeir, sem elskað hafa
og ástarkvalir, ástarsælu þekt,
sem ástarsælu ætlað hafa trygga,
en fundið skjótt að skilnað bar að fljótt.
Nú fyrir mey og svein er sárt að skilja,
því alt of mikinn tilfinningum taum
þau gefið hafa,' en gættu ei að því
að meyjan unga öðrum þó var lofuð.
því ágirnd sinni margir meybörn helga
og fórna þeim, er fyrir býður mest;
en fórnarmeyja fæstir spyrja hjörtu.
Að blóðverðinu blíður faðir leikur,
þær meðan grátnar grafa leita sinna.

V.

Ar eru liðin — ungi sveinninn nú
í æskubygð hjá öldnum föður dvelur.
Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
mjög finst hið forna flest vera' orðið breytt.

En hvernig er það? Alt er þó hið sama.
Með ljúfum rómi lækur enn þá kveður,
sem ungum sveini áður hafði sungið;
hin bláu fjöll enn eru alveg söm
sem fyr, er bernsku brostu þau á móti,
og sólin enn þá hnígur bláu' að hafi
og jökla kalda kyrtli gullnum sveipar.
Hvað er þá, sem breytt er bernsku frá?
Það er sveinninn — sjálfur sveinninn ungi;
hann er breyttur bernsku mærri frá.
Vér breytumst — breytumst alla æfi vora,
en finnum sjaldnast sjálfir að vér breytumst,
oft vér glaðir myrkum árum móti
göngum, án þess grand af því að vita,
að vér þó erum æsku vora' að kveðja
og segja' oft skilið sælu lífsins við;
göngum án þess grand af því að vita,
að óviðbúnir erum vér mót æfi,
sem oft er köld og undurdimmu vafin.
En svona' er mannsins æfi—alt er breyting,
og öll er framtíð falin myrkri blæju,
og lífstíð mannsins líkist jafnan draumi.
En vér á aldri ungum eigi vitum
að þessu jafnan þannig varið er;
vér sjáum alt í sælum bernskumyndum
og aldur vaxinn oss með sjónum tælir
um mikilvirki, mannafrægð og sælu,

sem vér þó oftast ekki skiljum í,
en einmitt sökum þessa tælir oss.

VI.

Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
í auðgri borg með engum kunnum dvelur.
Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
er ekki lengur ungur, heldur maður.
Hann leitar vina,’ en finnur fáa samt,
og færri sanna — sárt er að vera einn. —
Með horfnum tímum kvelur minning hann,
en hjarta særðu svala ei framar tár.
Hann reynir brjósti ungu frið að finna
og sínum anda órólegum svala
með rangra hluta ofnautn, sem þó æsir
hið vilta afl í óðum hjartans girndum
og veikir heilsu og veltir nýjum kvölum
á sálu, pínda sárum tilfinningum.
Á kveldum oftast aleinn situr hann
og heitu sínu hjartablóði ritar
um tælda von og tilfinningar sárar.

VII.

Ar eru liðin — unga meyjan nú
er gift þeim, sem hún gefin hafði verið.
Ár eru liðin — ungrar meyjar nú
á rjóðum kinnum rósir eru fölvar,
þeim táralindir laugað hafa brott;

á horfna æfi hugur starir tregur,
og anda þreyttum eitt það fróun veitir,
með skýrri minning kvelja sjálfa sig.
Hún sveini ungum helgar hjartað góða,
sem veikt og vonarlaust er dáið henni,
en lifir þó á landi drauma sinna;
þó eiginmaður alla vegu reyni
ungri konu líknar leita' og gleði,
má ekkert hjálpa.—Hvað er vizka manna?
æ, óljós gáta, villublæju vafin,
sem sjaldan líknar. —Hvað er hugarveiki?
sannfæring um sínar eigin kvalir.
Hve má vizka hugarsjúkdóm græða?
Ó, minning, þú sem mest af öllu' í heimi
ert unaðsdrauma — eða kvala — lind,
sem stundum hjarta dapurt sífelt særir,
um dimmar nætur blundi' af augum bægir
og hárið lætur hvítna fyrir ár,
sem fegurð klæðir dimmum dauðahjúpi
og sviftir augu sælum táralindum;
en stundum hjarta helgan róleik veitir
og svæfir böl með blíðum andans myndum
um horfnrar æfi sakleysi og sælu.

VIII.

Ár eru liðin — ungi sveinninn nú
frá ættarlandi halda hlýtur brott,
og fyrir landi flýtur búin skeið,

sem fjölda marga flytja' í brottu á.
Á bryggjum niðri búnir standa þeir,
og vinir kveðjast, þungt er þeim að skiljast.
Nú gamall faðir faðmar ungan son
og dóttir hnuggin minnist móður við,
en sveinninn ungi engan getur kvatt.
Hvar eru vinir? vinir! þeir sjást hvergi;
hann sanna vini aldrei hefir átt.
Að hlið hans stundum hefir tíminn varpað
þeim mönnum, sem hann vini vera hélt;
en það var ekkert! alt var þetta draumur;
kunningjar þeir voru', en vinir eigi.
Ó, það er sárt að vera ávalt einn!
hann alla æfi vildi vini finna;
í hjarta sitt hann hölda margra nöfn
oft hafði ritað, en þeir allir aftur
það námu burt að litlum tíma liðnum,
og hjartað var eins autt og tómt og áður.
Nú auðu hjarta eigi svalar bæn.
Á æskudögum ástkær hafði móðir,
að biðja drottinn barni sínu kent.
Nú móður hylur gröf, og gleymd er bæn,
og sálin myrkvuð efa og illri von;
við sjálfan sig nú sveinninn ungi mælir:
„Hvar eru vinir, von og trúin mín?"
og auða hjartað endurtekur: „*HVAR?*"



# Svanurinn.

—



PPI á regin fjöllum bjuggu einu sinni svanir tveir, í hólma. Hólminn lá í vatni einu, sem var nokkuð stórt, og var hann allur vaxinn lyngi. Það var gott fyrir veslings svanina; þeir þurftu ekki að fara langt til þess að reita í hreiðrið sitt. Nú var komið vor; hver tó uppi í fjöllunum var orðin græn; bændurnir höfðu rekið fé sitt á fjall, og litlu lömbin voru hvervetna að jarma, á milli þess sem þau voru að bíta smágresið. Kvennsvanurinn sat á eggjum í hólmanum og karlsvanurinn var að sveima í kring, til þess að afla sér og sínum fæðu. Nú leið og beið; loksins fóru ungarnir smátt og smátt að koma út úr eggjunum. Þeir voru þrír. Einn var ólíkur öllum hinum, því hann hafði þrjár svartar fjaðrir á höfðinu. Hann var líka eitthvað undarlegur, því hann vildi ekki taka neinn þátt í gamanleikum hinna unganna. Hann vildi helzt sitja niðri við vatnið

einn saman. Einkum þótti honum yndislegt að sitja þar þegar sólin var að hníga til viðar á kveldin, þá langaði hann óvenjumikið til þess að geta sungið, eins og hún móðir hans gat. En svanirnir geta ekki sungið fyr en þeir stálpast nokkuð. Eitt kveld sat svanurinn litli niðri við vatnið. Sólin var að renna til viðar, og ljómandi geislar glitruðu á vatninu. Aldrei hafði svaninum litla fundist alt eins fagurt og núna: "Ó, að ég gæti sungið!" sagði svanurinn litli; og í sama bili reyndi hann til þess. Nú gat hann það. Hann var svo óvenjusæll af því; hann sat fram á nótt niðri við vatnið og var altaf að syngja. Hann söng um sólina; blíðu sólina, sem lýsir öllu og vermir alt. Hann söng um geislana, sem léku á vatninu spegilfögru. Vatnið var svo fagurt að ofan, að svanuriun litli gat með engu móti trúað því, sem hún móðir hans hafði sagt, að í því byggju alls konar ófreskjur. Það var auðséð að sólin elskaði það, og hann gat með engu móti trúað því, að sólin elskaði nokkuð, sem ekki væri fagurt og gott. Síðan söng hann um móður sína, sem hann elskaði mest af öllu, og um föður sinn, og um bræður sína, sem honum þótti mjög vænt um, þótt hann gæti ekki samrýmst þeim einhvern veginn. Hann þráði einhverja veru jafngamla sér, sem hann gæti trúað fyrir öllu, er litla hjartað hugs-

aði. Hann vildi fara út í heiminn til þess að leita að þessari veru: "Ég skal leita alla æfi mína!" sagði svanurinn litli, og svo söng hann undurfagurt um þessa veru, sem hann þó ekki var búinn að finna. Honum þótti sárt að yfirgefa móður sína til þess að leita að þessari veru, sem hann gæti sagt frá öllu, er sér byggi í brjósti. Loksins réð hann það þó af. En hann varð þó að kveðja móður sína. Hann fór nú upp í hólmann. Móðir hans, faðir og bræður voru öll sofnuð. Þau vissu ekkert um það að hann ætlaði að fara í burt. Hann lagði höfuðið litla ofan á bak móður sinnar og lá þar svolitla stund. Svona hafði hann oft legið áður; en nú ætlaði hann að fara í burt og gat þannig aldrei framar gjört það. Honum var einhvern veginn svo hughægt þegar hann lá svona. Þessi óljósa þrá, sem ætlaði nú að hrífa hann burt, varð að engu þegar hann hvíldi við brjóst móðurinnar. Loksins hóf hann upp höfuðið; þá kom þráin yfir hann. Hann flaug upp og söng um leið. Efnið var þetta: "Móðir mín! ég fer burt frá þér; ég skal syngja um þig þangað til ég dey; ég skal aldri gleyma þér!" Svanurinn litli lagði nú aftur augun; því hann hélt að hann gæti aldrei farið burt, ef hann sæi móður sína. Hann flaug út yfir vatnið. Hann flaug og flaug lengi. Loksins opnaði hann augun og leit aftur. Hólminn

var fjarskalangt í burtu og sýndist eins og dálítill díll á vatninu. Þá fór svanurinn litli að gráta, því hann var svo hræddur um að hann sæi hólmann í síðasta sinni. En þó herti hann sig upp og fór að syngja. Söngurinn veitti brjósti hans frið, og hann hélt áfram. Lengi framan af vildi hann ekki synda á vatninu; því hann var hræddur um að vatnið stygðist af því, en hann vildi vera í vináttu við alt. Loksins varð hann þó svo þreyttur, að hann neyddist til að hvíla sig með því að synda á vatninu öðru hvoru. Nú kom hann vatnið á enda. Þar sem hann kom að landi, voru háir hamrar. Í hömrunum voru grasi vaxnar hyllur. Svanurinn litli flaug upp á eina hylluna, settist þar niður og hvíldi sig. Hann leit út á vatnið, en nú var hólminn horfinn. Hann sá hvergi móta fyrir honum úti við sjóndeildarhringinn. Honum var ósköp þröngt um hjartaræturnar. Hann ætlaði að fara að syngja, en rétt í því sá hann hvar fugl kom fljúgandi. Hann var svartur að lit og fremur lítill: "Þetta er fallegur fugl; hann hlýtur að vera góður og syngja vel!" sagði svanurinn litli. "Ég spái því að það verði vinur minn!" Krummi settist nú niður í hylluna og fór að tala við svaninn unga: "Hvaðan kemur þú?" sagði hrafninn. "Ég kem frá hólma, sem er hér langt úti í vatninu," sagði svanurinn. "Ég er ekki í góðu

skapi núna," sagði krummi. "Ég hefi verið að leita í allan dag og ekki fundið neitt." Um leið og hann sagði þetta leit hann hornauga til hins nýja kunningja síns; en þó að svanurinn ungi væri hvergi nærri fullþroskaður, þorði krummi ekki að ráðast á hann. En svanurinn ungi misskildi krumma alveg. "Að hverju getur hann verið að leita?" hugsaði hann með sjálfum sér. "Hann hlýtur að vera að leita sér að vini, eins og ég. Þar hefi ég þó fundið það, sem ég leitaði að." Eftir nokkra stund sagði svanurinn ungi, þegar hann hafði fært sig nær krumma: "Ég veit að hverju þú ert að leita; ég er að leita að hinu sama. Þar höfum við loksins fundist!" "Hvað er þetta!" sagði krummi; "ert þú að leita að hreiðri líka?" "Að hreiðri!" sagði svanurinn litli; "til hvers?" "Til þess að ræna eggjum!" "Ræna eggjum!" sagði svanurinn litli, um leið og hann færði sig fjær krumma: "Segirðu það satt? nei, þú segir það ekki satt! það getur ekki verið!" "Víst segi ég það satt!" sagði krummi. "Vísaðu mér á hreiðrin; þá skal ég sýna þér hvernig ég fer að!" Svanurinn litli gat ekkert nema hrist höfuðið. Slíka vonzku hafði hann aldrei getað ímyndað sér. Að ræna eggjum frá móðurinni, og láta ekkert hrífa á sig bænir hennar; það var óttalegt! Þetta gjörði fuglinn, sem hann ætlaði að gjöra að vini sínum. Veslings

litla svaninn hrylti við því. Hann gat ekki hreyft legg né lið, og það sem verst var, ekki sungið langa stund á eftir, svo mikið fékk það á hann. Það var von; þetta var fyrsta blekking lífsins. Þegar krummi sá að svanurinn þagði, áleit hann það litla skemt· ·ð vera hjá honum; hann þurfti líka að fara ·tt til þess að afla sér fæðu. Um leið og hann flaug upp, hóf hann krummahersönginn, eða öllu heldur krummaránsönginn. Hann söng um blóð og bardaga, rán og þjófnað. Svanurinn litli heyrði og skildi alt það, sem hrafninn sagði. Það var eins og sár broddur styngi litla hjartað við hvert orð í söngnum. Það var von, því hann var nærri því farinn að elska hrafninn. "Er heimurinn svona?" sagði svanurinn ungi, og um leið lét hann litla höfuðið síga. Brennheit tár liðu niður eftir nefinu litla. Tárin léttu steininum frá hjarta hans. Hann gat sungið, og nú söng hann í fyrsta sinni um vonzku og svik heimsins; honum lét ekki að syngja um það; honum varð aftur þungt um hjartaræturnar; þá fór hann að syngja um ást mæðranna, og þá varð honum hugléttara. Hann bað sólina að vernda fuglana fyrir þjófum og svikurum: "Hér get ég ekki verið, hjá þessum vonda fugli; ég verð að halda áfram!" sagði svanurinn litli. Hann flaug nú áfram. Nú kom hann loksins ofan í bygð; þar

kom hann að vatni og á því voru margir svanir að synda. Einn þeirra var að syngja. Svona fagran söng hafði svanurinn ungi aldrei fyr heyrt. Svanurinn litli flaug til hans og fór að tala við hann. Hann var svo blíður og góður; hann var ekki drambsamur af því að syngja svona vel; nei, hann söng fyrir alla. Þeir voru nú saman, svanurinn ungi og hann, og urðu undir eins góðir kunningjar. Eitt þótti fjallasvaninum undarlegt, og það var það, að bygðarsvanurinn söng aldrei þegar hann var einn; eða þegar þeir, vinirnir, voru tveir einir. Svanurinn litli var oft að hugsa um hvað til þess kæmi; honum var nú farið að þykja mjög vænt um þennan nýja vin sinn. Væri hann hryggur, var hann ætíð hryggur með honum og reyndi að hugga hann. Einu sinni, þegar þeir voru tveir einir, spurði hann vin hvað til þess kæmi að hann vildi aldrei syngja þegar hann væri einn, eða þegar þeir væru tveir einir, og að hann helzt aldrei vildi vera einn: „Þykir þér það nokkuð undarlegt?" sagði vinur hans. "Ég hefi aldrei getað skilið í því, hvers vegna þú vilt aldrei syngja þegar margir eru við, en ert altaf að syngja þegar við erum tveir einir, eða þegar þú ert einn ; ég segi fyrir mig, að ég syng eiginlega ekkert fyrir mig, heldur fyrir aðra; og af því að öðrum þykir ég syngja fallega og virða mig fyrir það, hversu vel

ég syng. Þess vegna hefi ég ekkert yndi af að syngja þegar enginn heyrir til. Það er indælt að syngja þegar margir eru við og allir eru að dást að því, hversu vel ég syngi; allir eru að hvísla: ,,Þetta er indælt! ég vildi gefa svo og svo mikið til þess að geta sungið svona vel. Ég hefi aldrei heyrt annan eins söng?" Það er þetta, sem kemur mér til þess að syngja. En ég held að þú, vinur minn, sért öðruvísi en allir aðrir."

"Ekki skil ég í því, að ég sé öðruvísi en allir aðrir," sagði svanurinn litli, "þó ég sé öðruvísi en þú. Það er satt, að ég er öðruvísi en þú, því ég hefi mest yndi af að syngja fyrir mig sjálfan. Ég hefi reyndar gaman af því að syngja fyrir aðra, ef þeir eiga bátt, og ég get veitt þeim ánægju með söng mínum; en með því veiti ég þó sjálfum mér mesta ánægju". Þeir töluðu nú ekki frekar um þetta í það skifti; en svanurinn ungi var alt af að hugsa um það, að hann þyrfti að leita lengra að vini. Þessi fugl, sem hann hélt að væri vinur sinn, var það þó í raun og veru ekki; hann virti hann aðeins vegna þess að hann söng vel, en þó kunni hann ekki að meta sönginn; hann mat sönginn að eins sökum lofs þess, er fæst fyrir hann. Það fanst svaninum unga ekki rétt: "Ég get ekki lifað nema ég fái sannan vin, sem ég get elskað," sagði svanurinn litli, og einu sinni, þegar enginn sá til

hans, flaug hann burt. Hann kvaddi ekki vin sinn, því hann vissi að honum stóð á sama, hvort hann var, eða ekki. Hann var, ef til vildi, að syngja, og þá gleymdi hann alveg heiminum af því allir hæidu honum. Reyndar þótti svaninum litla hálfþurlegt að skilja svona við hann; en það var nú einu sinni orðið, og því varð ekki breytt. Hann flaug nú og flaug. Hann vissi ekki fyr en komin var nótt; þá var hann kominn út á stórt mýrlendi. Hann settist nú niður á dálitla þúfu og fór að litast um. Alt í kring um hann var svo leiðinlegt, að svanurinn litli fór nú að iðrast þess, að hann hafði yfirgefið vin sinn. Alt í einu kom dálítill fugl þar fljúgandi að: "Er langt þangað til ég kemst út úr mýrunum þeim arna?" spurði svanurinn litli. "Mýrunum þeim arna! langar þig kannske til þess að komast svo fljótt út úr þeim?" sagði spóinn. "Já," sagði svanurinn, "hér þykir mér óvenjuleiðinlegt!" "Ekkert get ég skilið í því," sagði spóinn, "ég er fæddur hérna og hefi altaf verið hérna síðan, og hér vil ég bera beinin." Um leið og hann sagði þetta steig hann svo borginfugllega í fæturna mjóu; það var auðséð að hann bjóst þó ekki við því að fara svo fljótt að deyja. "Þá þykir mér engin furða þótt þér þyki fallegt hérna, fyrst þú ert hér fæddur," sagði svanurinn. "Kannske hún móðir þín sé líka hérna

hjá þér?" "Hún móðir mín?" sagði spóinn og varð alt í einu eitthvað svo raunamæddur. "Nei, hún er dáin; hún dó hérna í mýrunum, og einmitt þess vegna ætla ég að deyja hérna líka." Þetta svar líkaði svaninum einhvern veginn svo vel; hann gat vel fyrirgefið spóanum þótt hann vildi helzt vera í leiðinlegu mýrinni sinni. Hann fór nú að hugsa um móður sína heima: "Hvernig ætli henni líði núna? hún hefir þó sjálfsagt tekið sér það nærri að ég fór í burt," sagði svanurinn ungi við sjálfan sig. "Það er alt saman mér að kenna," sagði hann. Hann fór nú að syngja til þess að létta brjósti sínu. Hann söng um hólmann, sem hann var fæddur í, og sem hann elskaði altaf og gat aldrei gleymt. Hann söng um burtför sína; um hrafninn, sem var svo vondur, þó hann væri fallegur, og um svaninn, sem var svo kaldur og tilfinningarlaus, þó hann gæti sungið vel. Spóinn varð alveg gagntekinn af söngnum. Þegar svanurinn var að útmála söng vinar síns, varð spóinn svo blíður á svipinn. Það var auðséð að það snerti hjarta hans. Þegar svanurinn var að syngja um hrafninn vonda, teygði spóinn úr sér og stappaði niður fótunum; litlu augun urðu þá svo harðleg, að ef hrafninn hefði komið að, þá hefði spóinn sjálfsagt ráðist á hann, þó hann væri ekki sérlega mikill bardagaugl og hefði ekki sérlega kraftalega fætur:

"Góði svanur minn, vertu kyr hjá mér hérna í mýrunum!" sagði spóinn loksins, þegar svanurinn hætti að syngja: "Ég skal gjöra fyrir þig hvað sem þú vilt." "Ég þakka þér fyrir, spói minn," sagði svanurinn; "ég ætla að vera hérna hjá þér, að minsta kosti nokkra daga, til þess að vita hvernig mér fellur." Svanurinn var nú hjá spóanum nokkurn tíma. Spóinn var ósköp góður við hann, og það var auðséð á öllu, að honum þótti hverjum deginum vænna um svaninn. Svaninum þótti líka vænt um spóann, því hann var svo góður og blíður, en þó var hann ekki alveg að hans skapi. "Ég þarf að fara lengra," sagði svanurinn oft við sjálfan sig. Spóinn var líka dularfullur á milli, og þá var hann ósköp leiðinlegur. Hann var til með að ein na altaf á sama stráið á einhverri þúfunni og vella frá morgni til kvelds. Það þótti svaninum óskemtilegur söngur, eins og von var. Eina nótt, þegar spóinn svaf og var að safna kröftum til þess að vella úr sér leiðindin daginn eftir, fór svanurinn leynilega á brott. Honum þótti hálf-sárt að skilja við spóa, því honum þótti vænt um hann; en hann vissi að spóinn mundi ekki taka sér sérlega nærri þó hann færi, því spóatilfinningar eru ekki djúpar; það huggaði hann nokkuð: "Hvert á ég nú að fara?" sagði veslings svanuriun, þegar hann var kominn nokkuð frá spóanum. "Það

sem ég leita að, finn ég,að líkindum, aldrei; það er, ef til vill, ekki til í heiminum." Hann hélt nú áfram. Loksins sá hann bæ álengdar. Hann var rétt niðri við sjóinn; túnið var slétt og náði alveg ofan að sjónum, sem var spegilfagur í logninu. Á dálítilli grund, spölkorn frá bænum, stóð kirkja og kirkjugarður í kring: "Ó, hve hér er fallegt!" sagði svanurinn, um leið og hann leit upp á heiðblá fjöllin, sem voru himinhá, rétt fyrir ofan bæinn. "Hér vildi ég vera alla mína æfi, ef ég ætti vin! Vin!" sagði svanurinn litli og varð hugsandi um leið. "Hann finn ég, að líkindum, aldrei. En að heimurinn skuli vera svona indæll og verurnar í honum þó svona kaldar og vondar og eigingjarnar." Þegar hann sagði þetta, heyrði hann alt í einu indælan söng; svo indælan, að söngur hins gamla vinar hans komst ekki í samjöfnuð við hann. Hann heyrði að það var svanur, sem söng. Reyndar sá hann hann ekki sjálfan, en eftir hljóðinu hlaut hann að vera undir kirkjugarðinum. Hann flaug undir eins þangað og settist undir kirkjugarðinn. Þeirri sjón, sem hann sá, gleymdi hann aldrei. Undurfögur ungmær hneig að brjósti ungmennis eins; pilturinn var hár vexti og svartur á hár. Hann var að útliti til um tvítugt, og úr bláu augunum hans lýsti æskufjör, sem þó eigi var laust við kvíða, þegar hann leit á heitmey sína.

—Hann hlaut að fara brott; leið hans lá um langan og hættulegan sjóveg, og mærin unga var svo hrædd um hann: ,,Þú mátt ekki skilja við mig!" sagði hún og þrýsti sér upp að elskhuga sínum: "Ég get ekki komist hjá því að fara burt," svaraði hann; "en ég kem bráðum aftur." Skamt frá ástvinunum sat ungur svanur. Það var hinn fegursti svanur, sem hægt er að hugsa sér. Hann söng um ástvinina, sem voru að kveðjast. Hann söng um augnamálið, sem engir nema ástvinir skilja; um tilfinningarnar, sem ekkert nema ástvinarhjarta getur rúmað. Hann söng og söng og horfði alt af svo blítt með bláu augunum sínum á ástvinina. Hann söng um vonina, sem altaf fylgir elskendunum: "Nú verð ég að fara!" sagði ungmennið, og um leið kysti hann unnustu sína og þerraði tárin af augum hennar. Ungmennið grét ekki, því hann vissi að það var ókarlmannlegt; en á svip hans var auðséð, að hann fann mikið til. En um vanga meyjunnar ungu liðu tárin svo þögult og ótt; það var von, því þetta var í fyrsta skifti, sem hún hlaut að skilja við unnusta sinn. Ungmennið sleit sig nú úr faðmi hennar og fór burt. Mærin unga tók höndum fyrir andlit sér og grét sáran. Svanurinn ungi söng nú svo fagurlega sem hann gat. Mærin leit upp og tók eftir svaninum; hún hafði ekki séð hann fyr; því ástin er

blind. Hún hlaut ósjálfrátt að taka eftir söngnum hans. Hún skildi reyndar ekkert af því, sem hann sagði, en það hafði góð áhrif á hana samt. "Vertu hughraust," söng svanurinn; "sá sem þú elskar, kemur bráðum aftur, og á meðan hann er í burtu, skal ég vera vinur þinn og syngja fyrir þig. Ástin er helg og ég er vinur hennar." Mærin unga hlustaði með athygli á söng hans, og hún gleymdi hörmum sínum um stundar sakir. Það var almætti söngsins, sem gat þó dálitla stund sigrað kvíðann, sem ástin hafði í för með sér. "Ég vildi að þú yrðir hérna kyrr, þá skyldi ég á hverju kveldi koma og hlusta á sönginn þinn," sagði mærin. Svanurinn skildi hvað hún sagði og hneigði höfuðið. En mærin unga vissi ekki að hann skildi það. Hún gekk til svansins og strauk hann. Hún lagði höfuð hans að brjósti sínu; en svaninum sortnaði fyrir augum; því hjartað bærðist svo ótt — ástin er óróleg. Mærin unga stóð nú upp og gekk í burt. En um leið og hún fór burt, þrýsti hún höfðinu litla að kinn sinni, sem nýlega hafði hvílt við brjóst ástvinarins: "Góði vinfuglinn minn!" sagði hún og fór burt. Fjallasvanurinn ungi hafði altaf setið á kirkjugarðinum og heyrt og séð alt, sem fram fór: "Gæfusama mannkyn!" sagði hann; "þú þekkir ástina, sem ég er altaf að leita að; — "en svanurinn, sem syngur svona yndislega um ást-

ina, hlýtur einnig að þekkja hana. Hann getur verið sannur vinur minn og elskað mig!" Hann flaug nú til hans og fór að tala við hann, "En hvað hóllinn þinn er yndislegur!" sagði fjallasvanurinn; "hann er rétt eins og leiðin í kirkjugarðinum." "Það er von," sagði bygðarsvanurinn, og um leið varð hann einhvern veginn svo hryggur á svipinn; ,,hann er líka leiði; en sá er munurinn, að undir því liggur sjálfsmorðingi. Aumingja morðinginn finnur ekki frið í gröfinni. Mig dreymdi hann einu sinni; hann var svo óvenju hryggur á svipinn, og nábleika andlitið leit þó svo blíðlega á mig og bað mig að koma hingað og búa öðru hvoru á leiðinu sínu, og syngja fyrir sig. Þá flutti ég mig hingað; ég bý samt stundum þar, sem ég var áður, í helli hérna austur í klettunum." Um leið og hann sagði þetta, leit hann austur og upp í kletta, sem risu hátt upp úr sjónum, rétt við landið. "En nú verð ég að fara að syngja fyrir vin minn hérna í gröfinni," sagði hann; "því nú er sólin gengin undir og orðið dimt." Svo fór hann að syngja; hann söng svo vel, sem hann gat, um alt, sem var fegurst og blíðast. Hann söng um fíflana og sóleyjarnar, sem gróa eins á leiðum þeirra, sem kvalir lífsins hafa stytt stundir fyrir ár og á leiðum þeirra, sem náttúrlegur dauði hefir lagt ofan í gröfina. Hann söng um næturblæinn, sem tal-

ar um frið og ró. Alt var svo hljótt og rótt. Kirkjan forna mændi þögul og einmana upp í náttmyrkrinu. Fjallasvanurinn hengdi niður höfuðið og hlustaði þegjandi á; slíkan söng hafði hann aldrei fyr heyrt. Stöku vofur liðu hægt um kirkjugarðinn; en þær létu allar bleiku höfuðin síga niður á brjóstin og hlustuðu þöglar á sönginn: "Ég elska þig!" sagði fjallasvanurinn loksins, þegar bygðarsvanurinn hætti að syngja, og um leið lagði hann höfuðið á bakið á bygðarsvaninum, eins og hann var vanur að gjöra við hana móður sína. Bygðarsvanurinn sagði ekkert, en lagði eins höfuðið ofan á bakið á fjallasvaninum, og svona lágu þeir þangað til þeir sofnuðu. Þeg r þeir vöknuðu, var sólin að koma upp. Fjallasvanurinn var svo óvenjusæll; ekkert vantaði á sælu hans, nema að vita hvort bygðarsvanurinn elskaði hann; hann hélt það, en vissi það ekki fyrir víst, og þess vegna var sæla hans ekki fullkomin. Hann fór nú að syngja um sólina, sem var að renna upp, eins og hann var vanur: "Æ, hvað þú syngur vel," vinur minn! sagði bygðarsvanurinn. "Vinur minn! hann kallaði mig vin sinn!" sagði fjallasvanurinn við sjálfan sig. "Þú ert farinn að hugsa," sagði bygðarsvanurinn: "Ég verð þá að syngja fyrir þig, fyrst þú ert hættur að syngja fyrir mig." Hann fór nú að syngja. Hann söng um ástina,

sem aldrei deyr. Hann söng um veru, sem hann elskaði miklu heitar en sjálfan sig. Hann lýsti þessari veru ekki nákvæmlega: "Þetta er ég!" sagði fjallasvanurinn við sjálfan sig; "hann elskar mig!" Veslings svanurinn vissi naumast af sér; nú var sæla hans fullkomin. Hann fór að syngja, því hann þurfti á einhvern hátt að lýsa tilfinningum sínum. Hann þakkaði sólinni fyrir að hún skyldi hafa leitt sig að þessari veru, sem hann hafði verið að leita að alla æfi sína. En hann var einhvern veginn hræddur um að sæla sín mundi ekki verða langvinn. Hann óskaði að hann mætti deyja á meðan hann væri svona sæll: "Nei, það er ómögulegt að ég tælist í þetta sinn; ég er búinn að tælast svo oft; ég hefi heldur aldrei elskað eins heitt og núna; ég gæti fórnað ástvini mínum hjartablóði mínu." "Viltu ekki koma og sjá híbýlin mín austur í klettunum?" sagði bygðarsvanurinn; "svo skulum við sitja þar í dag og í nótt." "Það skulum við gjöra," sagði fjallasvanurinn, og svo flugu þeir af stað. Klettarnir stóðu nærri því þráðbeint upp úr sjónum; en langt fyrir ofan sjóinn var inn í þá hellir eða hola. Það voru híbýli bygðarsvansins. Þarna sátu nú svanirnir allan daginn og töluðu saman; stundum voru þeir að syngja. Fjallasvanurinn söng ávalt um bygðarsvaninn, því hann leyndi því alls ekki, að hann

elskaði hann; bygðarsvanurinn söng um veru þá, sem hann elskaði. Hann sagði aldrei hver hún var; en fjallasvanurinn þóttist skilja það. Svona leið nú dagurinn; undir kveldið fór að hvessa. Bylgjurnar skullu upp að klettunum, og að lyktum laust á ttalegu ofviðri. — Skýin þutu dimm og dauðaleg með fleygiferð um loftið. Nú hneig sólin til viðar. Nóttin féll á og henni fylgdi voðalegt myrkur; tunglið sást ekki og engin stjarna. Þrumur heyrðust og stöku eldingar liðu gegn um loftið, eins og til þess að sýna mönnum voða þann, sem þeim var búinn. Vesalings svanirnir sátu nú þegjandi í hellinum sínum. Þeir sungu ekkert; þeir horfðu báðir út í náttmyrkrið, og hvor þeirra um si hafði nóg að hugsa: "Aumingja ástvinur meyjunnar ungu á bátt," sagði fjallasvanurinn; "hann er að líkindum á sjó í þessu veðri; hvað verður um meyna ungu, ef hún missir hann? ég vona að alt fari vel." Um leið og hann sagði þetta, færði hann sig framar í hellinn og leit út á sjóinn. Hann var ógurlegur. Svanurinn ungi óskaði sér að allir fuglar ættu annað eins hæli og hann. Alt í einu sýndist honum eins og einhver svartur flóki bærast fyrir utan, á bylgjunum; og rétt á eftir skall hann upp í klettana. Báðir svanirnir hrukku saman, því þeir heyrðu óttalegan hvell: "Hvað er þetta?" sagði fjallasvanurinn. "Það

er, að líkindum, skip, sem hefir farist," sagði bygðarsvanurinn og varð alt í einu svo raunalegur á svipinn, að vinur hans fór að reyna að hugga hann: "Þú mátt aldrei vera hryggur, vinur minn!" sagði hann; "ég kvelst af því; ég get ekki lifað, ef einn vinur minn í heiminum er sorgbitinn." Hann söng svo vel sem hann gat, og þó var vinur hans altaf sorgbitinn: "Ég skal aldrei framar koma á þenna voðalega stað!" sagði bygðarsvanurinn um morguninn, þegar þeir flugu burt. Þegar þeir höfðu flogið klettana á enda, flugu þeir fram með ströndinni. Á ströndinni lágu alls konar hlutir, sem rekið hafði af skipinu brotna; en aðeins einn mann hafði rekið. Svanirnir þektu hann undir eins. Það var ástvinur ungu meyjunnar; augun voru opin og störðu brostin heim að bænum, þar sem hún bjó. Hárið dreifðist sjóvott niður um föla ennið. Alt var kalt; unga hjartað sló ekki lengur. Svanirnir ungu beygðu báðir niður höfuðin litlu. Sveinninn var ungur eins og þeir; nú gat hann ekki framar leikið sér að lokkum hennar, eða svalað huga sínum í brosi hennar: "Unga mærin!" sagði bygðarsvanurinn, og svo féllu honum óðum tár. Það var eins og fjallasvanurinn vaknaði af draumi; hann stundi þungan, og leit augum fullum af tárum á vin sinn, sem hann elskaði heitar en sjálfan sig; "Hvers vegna

grætur hann yfir meyjunni ungu?" sagði hann við sjálfan sig. "Það er hún, en ekki þú, sem hann elskar!" hvíslaði óttaleg hugsun að honum. — Alt í einu sér hann að mærin unga kemur. Hún var nábleik á svipinn og vindurinn lék um hárið dökka. Hún tók ekki eftir svönunum ungu, en þeir tóku báðir eftir henni; og fjallasvanurinn sá að bygðarsvanurinn titraði þegar hann sá hana. Þegar hún sá ungmennið, hrópaði hún: "Ó, ástvinur minn!" Það var auðheyrt að andvarpið kom frá hjartanu. Hún hneig í faðm honum og var örend. Svanirnir störðu lengi steinþegjandi á þessa hryggilegu sjón; loksins hóf bygðarsvanurinn upp höfuðið og fór að syngja, með tárin í augunum. Honum var svo þungt um hjartað. Það var auðheyrt að hann átti bátt með að syngja núna. Hann söng um vonina, sem er svo blíð og friðar hjartað með einhverri sælu; en sem er þó oft tál. Hann söng um veruna, sem hann elskaði svo heitt, en sem hann nú aldrei framar gat séð; hann hafði gjört sér von um að geta lengi verið nálægt henni og sungið fyrir hana; en nú var mærin unga dáin ; nú var vonin horfin. Hann söng um það, að mennirnir lifðu öðru sælu lífi eftir dauðann, þar sem ástvinirnir mættu unnast, en veslings fuglarnir ættu ekkert slíkt líf fyrir höndum. Við hvert orð, sem hann sagði, var eins og sár broddur styngi hjartað í

fjallasvaninum litla, en bygðarsvanurinn tók ekki eftir því. Veslings fjallasvaninum var svo þungt um hjartarræturnar, hann langaði til að gráta, en hann gat það ekki; hann langaði svo til að syngja, en hann gat það ekki: "Eru þetta allir sæludraumar mínir?" sagði hann við sjálfan sig; "nú þekki ég heiminn; hann er svo fagur, og þó er hann svo kaldur og tælinn. Ó, að ég skyldi yfirgefa móður mína; hefði ég ekki gjört það, þá hefði hjartað mitt unga komist hjá þessu öllu!" "Við skulum koma til hólsins hans vinar míns!" sagði bygðarsvanurinn loksins; og svo flugu þeir af stað frá ástvinalíkunum. Þegar þeir komu á hólinn fór bygðarsvanurinn að syngja. Hann söng um einn vin, sem hann ætti nú eftir; hann bjó undir leiðinu, sem þeir sátu nú á: "Hann hefir ávalt kallað mig vin sinn!" sagði fjallasvanurinn við sjálfan sig; "en ég sé að það hefir aldrei verið alvara hans, að hann væri vinur minn." Nú leið dagurinn og loksins kom nóttin. Hvorugur svanurinn gat sofnað fyrst framan af; en þó gat bygðarsvanurinn það loksins. Fjallasvanurinn horfði lengi með tárin í augunum á bygðarsvaninn sofandi; loksins lagði hann höfuðið ofan á bakið á honum, eins og hann var vanur: "Ég get ekki neitað mér um þessa saklausu sælu í seinasta skiftið," sagði hann. Þegar hann hafði legið svona dálitla stund, flaug hann

upp, lagði aftur augun, eins og hann gjörði í fyrsta skiftið þegar hann skildi við móður sína, og flaug burt. —Hann flaug og flaug. Loksins lauk hann upp augunum og leit í kring um sig. Hann var kominn upp undir fjallsbrún, og hann flaug þangað upp. Hann leit nú til baka; hann sá ekki kirkjuna fornu og ekkert af því, sem var nálægt þeim, sem hann elskaði. "Ég verð að leita að móður minni; hún ein getur huggað særða hjartað mitt unga; en hérna verð ég að kveðja þann, sem ég elska. Nú fór hann að syngja. Hann bað vin sinn að fyrirgefa sér að hann hefði yfirgefið hann svona fljótt, en hann sagðist ekki hafa getað annað. Hann vissi það, að þessi eina vera, sem hann hafði elskað, gæti ekki unnað sér; jafnvel ekki verið vinur sinn, þó stundum hefði litið svo út. Hann gat ekki verið að kvelja þann með ást sinni, sem hann elskaði enn þá: "Ég elska þig, því ég get ekki annað," sagði svanurinn litli með tárin í augunum; "ég hlýt að elska þig meðan ég lifi. Hann herti sig nú upp og flaug áfram. Hann flaug í marga daga, marga mánuði; sjálfur vissi hann ekki hvert hann flaug. Loksins kom hann að stóru vatni; hann flaug út á það, því hann eygði hólma langt úti í vatninu. Loksins kom hann út í hólmann, og sá að þar sat svanur uppi: "Nei, ert það þú, ástkæri bróðir minn?" sagði hann.

Blóðið rann honum til skyldunnar, því hann hafði ekki séð bróður sinn síðan hann var ungi: "Er hún móðir mín lifandi?" spurði veslings svanurinn, með tárin í augunum. "Hún er löngu dáin," sagði hólmasvanurinn, og brá sér ekkert. "Faðir minn er dáinn og bróðir okkar líka; ég á einn hólmann og honum sleppi ég ekki; faðir okkar gaf mér hann áður en hann dó, því við héldum öll að þú værir dáinn." Um leið og hann sagði þetta, leit hann hornauga til hins aðkomna bróður síns. Hann var hræddur um að hann mundi vilja gjöra erfðakröfur sínar gildandi, og hann vildi strax láta hann vita, hve mikils hlutar hann mætti vænta. En aðkomni svanurinn hugsaði ekki um arf. "Er hún móðir mín dáin?" sagði hann, og enginn söngur gat svalað hjartanu særða: "Þarna er beinagrindin hennar!" sagði bróðir hans, blíðari en áður, þegar hann sá að bróðir sinn mundi ekki hugsa mikið um arfinn. Um leið og hann sagði þetta, benti hann á hvíta svansbeinagrind niðri við vatnið. "Hún vildi láta leggja beinin sín þarna, því hún sagði að þar hefðir þú oftast setið — henni þótti vænt um þig!" bætti hann við. Vesalings svanurinn gat ekki komið upp einu orði. Hann fór þangað og lagði þreytta höfuðið ofan á bein móður sinnar; en þau voru svo köld. Móðurhjartað var fyrir löngu orðið að bráð ein-

hvers ránfuglsins. Hann fór nú að hugsa og hugsa, og honum fanst eins og minningin færði líf í kæru beinin: "Enginn hefir elskað mig nema hún!" sagði svanurinn litli, og svo fór hann að syngja. H  n söng um vininn, sem hann elskaði, en sem hafði þó að eins dregið unga hjartað saklausa á tálar: "Ég skal láta mig dreyma um þig, alla löngu nóttina, sem nú er að færast yfir hjarta mitt; dreyma um þig og hana móður mína; ykkur tvö hefi ég elskað mest."—Sólin var að hníga til viðar; svanurinn ungi horfði á hana, og skínandi tár ljómaði á nefinu litla í kveldljósinu. Reynslu lífsins brá sem snöggvast fyrir hjartað veika; hún var svo köld. Hjartað unga hætti að titra; ylgeislar sólarinnar vermdu það í síðasta sinni. Hann rendi augunum í hinsta sinn á sólina, ástvin alls þess, sem lifir, og ungi svanurinn vinlausi var ekki lengur til.

(Eigin þ.dr.)





# Kærleiksheimilið.

---

## I.



MESTA rausnarkona var hún Þuríður á Borg, mesti skörungurinn í héraðinu. Hún hafði verið þrígift, lifað menn sína alla og verið jafnt húsbóndi sem húsfreyja fyrir þá alla. Nú var hún komin yfir fimtugt, og var þó ern og fjörug enn; hún var lág vexti, föl í andliti, en þó þykkleit, og hafði verið lagleg kona á yngri árum, en var nú orðin töluvert feitlagin með aldrinum. Þuríður var kona vel fjáð, bæði að fasteign og gangandi fé. Auk jarðarinnar, Borgar, sem var stærsta og bezta jörð þar um sveitir, átti hún aðrar minni jarðir. Mest fé sitt hafði hún grætt eftir dauða manna sinna, og sýnir það röskleik hennar og búshyggju. Það skein líka rausnin og stórmenskan út úr henni; þegar hún gekk um hlaðið á Borg og skipaði fyrir um

vinnu og heimilishagi og hóf röddina svo, að glögt heyrðist út fyrir túngarð, þá var svipur á henni. Ráðsmann hafði hún, er Kristján hét, og gárungarnir kölluðu Kristján fjórða; ekki er gott að vita hvernig á því stóð; að þeim hafi sýnst hann líkjast konunginum með því nafni, er ólíklegt, og næst er mér að halda, að þeir kunni að hafa sett hann í eitthvert samband við þrjá menn Þuríðar. Kristján var húsmóður sinni þarfur maður, því hann var eljumaður hinn mesti, fáorður og hlýðinn henni og dugnaðarmaður til allra verka, þótt hann, er saga þessi gjörist, sé kominn yfir fertugt. Var því altalað um héraðið, að Kristján lifði í góðu yfirlæti hjá ríku Þuríði á Borg, og að hann ætti meira en vinnumanns-atlæti að fagna.

Með seinasta manni sínum hafði Þuríður átt son, er Jón hét; það var einkabarn hennar, og unni hún Jóni mjög. Hún hafði sýnt það, að hún elskaði hann, með því að aga hann í uppvextinum. Hún hafði ætlað að gjöra hann að fyrirmynd ungra manna að uppeldi, og til þess beitti hún jafnt prédikunum, löngum kristindómsútskýringum og vendinum. Hún vann það líka á, að Jón varð mesta stillingarbarn, sem gjörði sig aldrei sekan í ærslum eða nokkurs konar óknyttum, því hann var svo hræddur við móður sína, að hann hélt að hún væri allsstaðar nálægt

sér. Þannig liðu vaxtarár Jóns. Nú var hann orðinn 19 vetra piltur, laglegur en fremur lítill vexti, hinn stiltasti, og kom sér vel við alla.

Sóknarpresturinn þar í sveitinni hét séra Eggert og bjó á prestsetrinu Bakka, næsta bæ við Borg. Hann var maður hniginn að aldri, kominn um sextugt, en þó heilsugóður enn. Hann var kallaður góður ræðumaður og virtur mjög og elskaður af flestum sóknarbörnum sínum. En ráðríkur þótti hann nokkuð um flest héraðsmál, og hin síðustu ár hafði hann orðið að standa í mesta stímabraki í hreppsnefndinni; hann var nokkuð uppstökkur og bráður, ef einhver hafði á móti skoðunum hans, enda hafði hann áður verið óvanur því. En fyrir fáum árum var nýr maður kominn í sveitina, er Björn hét og bjó á Krossi; hann var ungur maður, dugnaðar- og iðjumaður hinn mesti og greindur vel. Það var því eðlilegt, að hann væri brátt kosinn í hreppsnefndina, og þar var hann "Þrándur í Götu" séra Eggerts, sem áður hafði öllu ráðið. Það hafði verið vaninn áður, að séra Eggert sagði í hreppsnefndinni: "Okkur Þuríði minni á Borg hefir komið saman um það og það," þá álitu aðrir hreppsnefndarmenn, að ekki þyrfti meira að ræða um það mál, en uppástungan var bókuð og sögð samþykt í í einu hljóði. Björn fór nú óðar að fetta fingur

út í þetta tal um "Þuríði mína á Borg", því hann sagðist ekki þekkja neinn hreppsnefndarmann með því nafni, og öllum uppástungum séra Eggerts lagði hann eitthvað á móti. Fyrst vann Björn ekkert á, en smátt og smátt fóru menn að gefa orðum hans gaum og þar kom um síðir, að stundum bar við, að tillögum séra Eggerts og "Þuríðar minnar" var hrundið með atkvæðafjölda. Alt þetta gjörði presti gramt í geði, en varð að eins til þess að hann batt enn fastari vináttu við Þuríði til þess að "reka úlfinn úr hjörðinni," eins og hann komst að orði, þegar hann var að tala við Þuríði um það, hvernig bezt mætti koma aftur á "einingu og bræðralagi" í sveitinni. Hann hafði þá skoðun, að alt í söfnuðinum, eins sveitamál og annað, ætti að ganga í kristilegu bróðerni, án þess að nokkuð stríð eða kepni yrði úr, en það var auðvitað, að það var sóknarpresturinn, sem eiginlega átti einn öllu að ráða með ráði hinna beztu og vitrustu manna. En eini maðurinn, sem hann áleit "beztan og vitrastan" í sinni sveit, var Þuríður á Borg.

Séra Eggert hafði mist konu sína fyrir nokkurum árum og tekið sér það nærri, því að hann hafði unnað henni hugástum. Þau höfðu átt eina dóttur barna, er Guðrún hét og nú var fyrir búi með föður sínum, enda var hún löngu komin af æskuskeiði, á að geta nokkuð yfir þrí-

tugt; ekki var hún fríð kona sýnum; hún var grannleit og skarpleit, nefið hátt og hvast og munnurinn stór. Alt um það bauð Guðrún prestsdóttir ekki slæman þokka af sér, og kom það af því, að hún hafði blíðasta og mjúkasta málróm og var hin þýðasta í allri umgengni. Hún stóð líka vel fyrir búi föður síns, sem aldrei hafði auðugur verið, því hann var enginn búsýslumaður. Það var undarlegt, að hún skyldi hafa setið svo lengi heima ógift, því að ekki kom það af því, að hún hefði hafnað biðlunum flokkum saman, vegna mannvendni, heldur af hinu, að engan biðil hafði borið þar að garði, svo menn vissu til, en bónorðsfarir og slíkt er vant að kvisast um sveitirnar.

Engri konu unni Þuríður á Borg jafnt sem Guðrúnu á Bakka; það var ekki gott að vita, af hverju það kom; hún var reyndar ljósa Guðrúnar, en það gjörði víst lítið til; hitt var það, að Guðrún var kannske hin eina kona, sem sýndi Þuríði nokkura blíðu í orðum og atlotum og nið gamla, stranga hjarta viknaði og komst undarlega við, kannske reyndar mest af því, að þessi vináttumerki komu frá göfugustu stúlkunni í sveitinni. Og Guðrún var heldur enginn hræsnari, hún hafði unnað Þuríði frá æsku; það byrjaði náttúrlega með því, að Þuríður var að færa henni og senda henni alls konar sælgæti og leik-

föng, sem urðu að peninga- og fatagjöfum, þegar Guðrún eltist. Þess háttar ástir eða vináttur eru varanlegar og innilegar, einkum ef gjafirnar fara heldur vaxandi en minkandi. Og Þuríður var gagnkunn mannlegu eðli í þá stefnu, svo að hún lét ekki vináttu prestsdótturinnar dofna eða slokna út af ræktarleysi frá sinni hlið.

---

II.

Öllum ungum mönnum kom ásamt um það, að hún Anna Sigurðardóttir væri fallegasta stúlkan í sveitinni. Hún var 18 vetra gömul og meðallagi há vexti; hún var grannvaxin og mjúkvaxin og limuð vel, kringluleit í andliti og fremur föl, augun dökk og augnahárin löng og þétt, hún hafði gult hár mikið og frítt; og tók það henni niður fyrir mitti. Móðir hennar, sem hét Björg, dó af barnsförum að henni, og faðir hennar var druknaður fyrir rúmum mánuði áður, svo að nýfædda barnið átti engan að, svo að menn vissu af, nema Gróu gömlu á Hrauni, sem var alsystir Bjargar. En Gróa var bláfátæk, tæplega sjálfbjarga og gat með engu móti tekið barnið að sér, svo að það var alið upp á sveitinni. Þegar

eftir fermingu sína fór Anna í vist til Þuríðar á Borg, og hafði verið þar vinnukona síðan og unað sér vel, enda var tæplega hægt að hugsa sér þann samastað, að Anna yndi sér þar ekki, því að hún var bæði léttlynd og góðlynd og eftir því kát. Það var sannast að segja, að það var ekki á henni að sjá, að hún væri munaðarleysingi, alin upp á sveitinni; hún var alt af síhlæjandi og gamansöm og hló svo saklaust og innilega, að það datt engum manni í hug að reiðast við hana. Það var því ekki furða, þó að hún kæmi sér vel við vinnufólkið á Borg, enda var hún líka augasteinn allra, og allir vildu vera í verki með henni. Það var orðið að orðtaki, ef dutlungar eða ólund kom í einhvern: "Það er auðséð, að Önnu vantar." Þar sem Anna var, var ætíð nóg um gleði og gamanyrði. Gömlu Þuríði þótti nú miðlungi vænt um þessa kátínu, því að hún hélt að það tefði fyrir fólkinu. En hún fyrirgaf Önnu mikið, því jafnvel hún gat ekki að sér gjört að brosa, þegar Anna var að gjöra eitthvað að gamni sínu. Henni þótti eiginlega bara eitt að henni, og það var, hvað hún væri gjöful við flakkara og aumingja, Hún sagði, að það fylgdi því engin blessun að gefa þess háttar hyski, það væri bara að fleygja reitum sínum í sjóinn, og meistari Jón segði, að þeir sem ekki nentu að vinna, ættu ekki heldur mat að fá. Alt þetta hyski

flakkaði, til þess að komast hjá að vinna, og sníkti svo út úr þeim, sem nentu að taka til einhvers hendinni. Hún mintist oft á og gat aldrei gleymt því, að Anna hafði einu sinni gefið sparipilsið sitt kerlingu, sem kom að Borg eitt haustið, og sagt henni að hafa það á krakkann sinn; en krakki kerlingar var dálítil telpa, sem alt af var hálfnakin og grátandi og oftast nær skjálfandi af kulda.

Anna undi sér vel á Borg; og það var auðvitað af því, að henni hafði tvisvar sinnum boðist vist og betra kaup, en hún hafnaði öllum slíkum boðum. Vinnufólkið var nú að hvísla því sín á milli, að það væri eugin von, að Anna litla færi frá Borg, því að þangað mundi hún hafa átt erindið, og vinnukonurnar voru brosandi að tala utan að því við hana, að hún byði þeim í veizluna sína, þegar að því kæmi, en Anna sagði brosandi, að þær yrðu víst að bíða lengi eftir þeirri veizlunni, en gat þó ekki að því gjört, að hún roðnaði dálítið við.

Þeim kom ofboð vel saman, Jóni syni Þuríðar og Önnu; það fór oftast nær svo, hvernig sem það atvikaðist, að þegar tvö áttu að gjöra eitthvert verk, þá urðu það Jón og Anna, sem þegjandi tókust það á hendur. Ef að rifja átti flekk, þá hlupu þau tvö á undan öllum öðrum, og þegar hitt fólkið kom, þá sögðu þau bæði, að flekk-

urinu væri svo lítill, að það þyrfti ekki nema þau tvö. Svo rifjuðu þau tvö ein og hálf-flugust á um hvern rifgarð, því Jón vildi ekki fá kerlinguna og Anna vildi ekki fá karlinn. Fengi svo Jón samt sem áður kerlinguna, þá settist Anna niður í miðjan flekkinn og skellihló að honum, þangað til Jón kom til hennar, og sagði að hún væri kerlingin, þá blóðroðnaði hún út undir eyru, stökk upp og hljóp í næsta flekk, svo að Jón gat naumast fylgt henni.

Þannig gripu þau hvert tækifæri, sem þau fengu, til þess að vera tvö ein saman, og voru alt af að gjöra að gamni sínu; það kom varla fyrir, að þau töluðu eitt orð í alvöru. Jón var annars hægur og fámálugur, en þegar þau Anna voru saman, þá var öll stilling hans horfin; hann lék við hvern sinn fingur og var svo fyndinn, að Anna hló að hverju orði, sem hann sagði. Aftur á móti var Anna einhvern veginn stiltari eða alvarlegri, en hún átti að sér, þegar hún var ein með Jóni; hún lét hann hafa fyrir að skemta þeim báðum, og skaut svo endrum og eins stöku gamanyrðum inn í.

Það má geta því nærri, að gamla Þuríður vissi ekkert um það, sem vinnufólkið kallaði "samdráttinn í unglingunum á heimilinu." Öllum var vel bæði við Jón og Önnu og allir vissu það, að Þuríður mundi ætla syni sínum annað

kvonfang en sveitarstelpuna. Þess vegna þögðu allir um það við Þuríði og Kristján ráðsmann, sem í öllu var hennar hægri hönd, og einkum var vandur að því við sjálfan sig, að dylja ekki neinar nýjungar um vinnufólkið fyrir húsmóður sinni. En um sveitina fór þetta að kvisast. Fólkið á Borg þóttist gjöra nógu vel þegar það þagði heima, og fanst það vera saklaust, þó að kunningjarnir í kring fengju að vita tíðindin líka.

Það var einn dag seint um sumarið, að fólkið frá Borg var að heyvinnu á engjum, fram með Laxá langt frá bænum. Þegar hætt var um kveldið og menn gengu heim, fór það eins og vant var, að Jón og Anna voru síðast búin til heimferðar, svo að þau urðu samferða, og af því að þau gengu hægt, urðu þau langt á eftir hinu fólkinu.

Þau gengu bæði þegjandi.

"Ég held við séum orðin langt á eftir," sagði Anna.

"Fari það í friði, blessað fólkið," sagði Jón, "en þér leiðist kannske að ganga með mér einum, og þá getum við flýtt okkur og náð því."

"Nei, nei, ég átti ekki við það, að mér leiddist að ganga með þér einum, en því finst það kannske undarlegt, að við erum alt af tvö ein á eftir."

"Ég uni mér bezt, þegar við erum tvö

ein; ég vil heldur ganga með þér einni, en öllum hinum."

Anna þagði og leit niður fyrir sig. Þau stóðu nú bæði kyr.

"Þú veizt það ósköp vel, að ég vil helzt ganga með þér einni."

Anna þagði.

"Viltu lofa mér því, að fylgjast alt af með mér og verða konan mín? Anna, Anna, svaraðu mér!" bætti hann við og röddin skalf dálítið.

Anna leit upp og augu þeirra mættust.

Svo settust þau niður. Fyrst gjörðu þau ekkert nema haldast í hendur og horfa hvort á annað. Svo fóru þau bæði að skellihlæja að því, hvað þau höfðu verið alvarleg fyrir skemstu.

"Nú ertu kærastan mín," sagði Jón og þrýsti Önnu að sér og kysti hana.

"Já," sagði Anna í hálfum hljóðum og lagði annan handlegginn um hálsinn á Jóni, en faldi kafrjóða andlitið sitt við brjóst hans, svo gulu lokkarnir komu við kinnina á honum.

Þegar þau komu heim að Borg, var alt fólkið komið heim og háttað, nema Þuríður gamla var á fótum og kallaði á Jón son sinn og sagðist þurfa að tala við hann.

Anna flýtti sér að hátta. Hún vildi sem fyrst geta sofnað, svo hana gæti dreymt eitthvað um Jón; hún flýtti sér að lesa bænirnar sínar,

bað innilega fyrir Jóni og sér, og svo lokaði hún augunum. Hún fór að telja, til þess að sofna þess fyr, en hún komst ekki lengra en að 17.

Jóni var ætíð fremur lítið gefið um að ganga á eintal með móður sinni, en þetta kveld hafði hann allra sízt biðlund til að taka á móti langri prédikun.

Þuríður svaf ein í læstu tveggja stafgólfa herbergi, sem var þiljað af, næst baðstofuþilinu. Þangað fór hún með son sinn, læsti vandlega á eftir sér og sagði svo við hann:

"Hvað eiga þessir útúrdúrar í ykkur Önnu að þýða? Getið þið ekki fylgst með fólkinu?"

Það fór að fara um Jón, þegar hann heyrði hver sökin var, honum þótti ráðlegast að svara fáu.

"Geturðu ekki svarað móðurmyndinni þinni?" bætti Þuríður við og tók í öxlina á Jóni.

"Það — var ekkert. Við urðum bara seinni til en hitt fólkið.'

"Seinni til! Það er altalað um alla sveitina, að þið Anna séuð að draga ykkur saman. Skilurðu það, ættarskarnið þitt, það er verið að eigna þér sveitarstelpu, sem enginn veit hvort nokkurn tíma hefir átt föður eða móður og á ekki skóbótarvirði? Skilurðu það?" Og um leið hristi hún öxlina á Jóni.

Jón var nú aldrei upplitsdjarfur eða marg-

orður, þegar móðir hans þurfti að vanda um við hann, en svona reiða hafði hann aldrei séð hana fyr. Hann vildi feginn vera kominn langt burt; en móðir hans hélt í öxlina á honum.

,,Svaraðu mér, ætlarðu að eiga þessa skepnu? Þú þarft ekki að búast við, að eignast nokkurn hlut eftir mig, ef þú ætlar að eiga þá óráðsíustelpu, það sveitarskarn. Svaraðu mér!"

Jón sá þegar, að það var einungis að gjöra ilt verra, að segja móður sinni upp alla söguna, þá þegar, en datt í hug, að alt gæti mildast og mýkst með tímanum.

"Nei — nei — mér hefir aldrei — litist á hana — dottið í hug að eiga hana."

"Það var þó mikið," sagði hún loksins.

"Þú veizt, að það er kristileg skylda mín, að sjá um, að þú gjörir ekki honum föður þínum í gröfinni eilífa skömm. Þú ættir að kunna svo kristindóminn þinn, að þú vissir, að þú átt að heiðra föður þinn og móður. Hvað skyldi hann séra Eggert minn segja, ef hann fréttir þetta? Þetta hyski og pakk hérna á heimilinu er líka ekkert nema munnurinn. Alt sem það veit gengur mann frá manni um alla sveitina!"

Jón þagði á meðan móðir hans lét dæluna ganga. Hann leit niður fyrir sig og laut svo mikið með höfuðið, að móðir hans gat ekki séð framan í hann.

"Þú veizt það, Nonni minn, að ég er ekki svo gjörð, að ég fáist um, þó að ungt og fjörugt fólk gjöri að gamni sínu. En ég vil ekki af neinu hneyksli vita. Kristilegu framferði og siðferði hefi ég til þessa getað haldið á mínu heimili og ætla að reyna að halda því fram, þangað til drottinn kallar mig héðan. Þess verður nú kannske ekki svo langt að bíða."

Þegar Þuríður sagði þessi síðustu orð, viknaði hún við og þagnaði.

Í sama bili var komið hægt við snerilinn á hurðinni, og þegar aðkomandi fann að læst var, barði hann ofur hægt á dyr.

Jón lauk upp.

Kristján ráðsmaður stóð þar fyrir utan. Honum varð hálfhverft við að mæta Jóni.

"Komdu inn, Kristján minn," sagði húsfreyja, "þú ætlar líklega að tala við mig um heyvinnu á morgun."

"Já — það var einmitt það — ég ætlaði að spyrja yður, húsmóðir góð, hvað yður sýndist um vinnu á morgun."

Farðu nú að hátta, Nonni minn, og hugsaðu vel um það, sem ég hefi sagt þér," sagði Þuríður.

Jón fór út og hurðinni var læst á eftir honum.

Húsfreyja og ráðsmaðurinn þurftu að hafa

gott næði til að tala um búst jórnina og heyvinnuna.

---

III.

Jón gat ekkert um við Önnu, að móðir hans væri búin að frétta alt um samdrátt þeirra, né mintist einu orði á samtal þeirra mæðginanna. Það var ekki trútt um, að honum gremdist svona hálft um hálft við sjálfan sig af því, hvað hann hafði verið fljótur að afneita Önnu við móður sína, og nokkura stund á eftir var hann dálítið undirleitur og orðfár, þegar þau Anna voru tvö ein saman. Anna tók eftir því og fór að verða hálfhrædd um, að Jón væri strax farinn að iðrast eftir alt saman. Það atvikaðist líka einhvernveginn svo, að þau fengu sjaldnar og sjaldnar færi á að vera tvö í verki, og heim af engjunum fylgdust þau alt af með fólkinu síðan "kveldið góða." Svona gekk það nokkurar vikur; Anna fór að verða fálát og hætta gamanyrðum, og Jón varð hljóður og dutlungafullur. En lengi þoldi "unga fólkið" ekki mátið. Þegar fór að hausta og kvelddimt var orðið, fóru þau að hittast hér og þar, á ýmsum stöðum og ýmsum tímum, en

vöruðust að láta nokkurn vita af, eða renna grun í fundi þeirra. Það var þeim öldungis ósjálfrátt að reyna til að hittast og þegar það einu sinni hepnaðist, án þess nokkur vissi af, var það auðséð, að hægt var að fara þannig að oftar. Jón sagði, að það væri nauðsynlegt, að halda öllu leyndu, þangað til hann væri búinn að tala við móður sína. Þeim kom báðum saman um, að gamla Þuríður mundi verða þeim hörð í horn að taka, en Jón sagðist ekki trúa því, að hún léti ekki að bænum sínum, þó að hún kannske kynni að taka þvert fyrir í fyrstu. Anna var alt af um þessar mundir eins og á glóðum. Hún vildi að Jón talaði sem fyrst við móður sína, til þess að skúrin gengi sem fyrst um garð; en hún átti svo bátt með, að tala um það við hann, því að hún var hrædd um, að honum fyndist sem í því lægi einhver efi um einlægni hans og heitorð. Einu sinni kom hún sér þó að því, en var ofboð rjóð og feimin, og bað Jón um leið og hún lagði hendur um háls honum að reiðast sér ekki.

"Mér finst ég ekki geta á heilli mér tekið, fyr en ég veit, við hverju við megum búast hjá móður þinni," sagði hún.

Jóni var eins farið. En hann þekti álit móður sinnar á þessum ráðahag, og honum fanst eins og sér rynni kalt vatn milli skinns og hörunds, þegar hann hugsaði til þess, að fara að

fyrra bragði að vekja máls á þessu. En að hinu leytinu þorði hann ekki að segja Önnu frá samtalinu við móður sína forðum. Hann var eins og á milli steins og sleggju. Hann reyndi til að telja sjálfum sér og Önnu trú um, að sá tími árs væri illa valinn til þess að tala við móður sína um óþægileg efni. Hún væri, eins og flest þunglynt fólk, uppstökk og erfið í skapi um haustdag og skammdegi, en yrði léttari í lund þegar daginn lengdi og fram á vorið drægi.

Anna gat eða vildi ekki hafa á móti því, sem Jón sagði, og svo leið og beið, að ekkert var talað við Þuríði um sinn.

Enginn á Borg vissi um það, að þau Jón og Anna fundust í leynum. Allir héldu, að það væri "slitnað upp úr" milli þeirra, einkum af því að Anna breyttist töluvert í skapi þetta haust; hún var hætt allri kátínu og fór oft einförum. Jón var líka nokkuð öðruvísi, en hann átti að sér.

Fólkið á Borg tók fljótt eftir þessu og það fór nú að berast um sveitina, að enginn fótur væri fyrir því, að þau Jón og Anna væru að draga sig saman. "Það var bara stelpan, sem var að draga sig eftir honum," bættu sumar ungu stúlkurnar ógiftu við. Og þar við sat. Menn sögðu nú, að Anna hefði um sumarið verið að reyna til að ná í Jón, en þegar hún hefði séð,

að það mundi ekki hepnast, hefði hún orðið þunglynd af öllu saman.

Þannig leið veturinn á Borg, að fátt bar til tíðinda, venju fremur. Jón og Anna hittust oft, en engan grunaði neitt.

Það var einn dag seint um veturinn, að Jón var úti í skemmu við trésmíðar. Anna var heldur ekki í baðstofunni og vinnukonurnar voru að tala um það sín á milli, hvar hún mundi vera.

Í sama bili komu þau inn bæði saman, Jón og Anna.

Jón var einhvern veginn undarlegur og órólegur útlits, og á Önnu var auðséð, að hún hafði grátið.

Hún gekk að rúminu sínu, settist niður og greip báðum höndum fyrir andlit sitt.

Jón gekk rakleiðis inn í herbergi móður sinnar, og læsti því á eftir sér. Hvað þeim mæðginunum hefir farið á milli, er enginn kominn til að segja frá. Vinnukonurnar einar voru uppi, og þær sátu svo langt frá herbergi húsfreyju, að þær gátu ekki heyrt nein orðaskil. Fyrst heyrðu þær samt fjarska hávaða í Þuríði; það voru engin samstæð orð, en var líkast ópi í óðum manni. Svo sló öllu í þögn; en eftir litla stund heyrðust þungar grátstunur til Þuríðar; en svo var farið að tala saman látt og með nokkurs konar stillingu, en endrum og eins hóf þó Þuríður röddina,

og var eins og hún titraði af gremju og reiði, en orð var ekki [illegible]t að greina.

Svo leið langur tími.

Loksins var herberginu lokið upp ; Jón kom út og var svo útlits, að auðséð var á honum, að hann réð sér ekki fyrir reiði. Hann stökk fram eftir baðstofuloftinu, tók stigann í tveim fetum og hljóp út úr bænum.

Skömmu síðar kom Þuríður fram úr herbergi sínu.

Hún gekk rakleiðis þar að, sem Anna sat á rúminu sínu. Þegar hún sá Þuríði koma, stóð hún upp náföl, studdi sig við rokkinn sinn og leit beint framan í hana.

Þuríður steðnæmdist fyrir framan hana ; [illegible]n var sótrauð í framan og kom ekki upp nokkuru orði fyrir reiði. Sú óskammfeilni þótti henni þó taka yfir alt, að Anna skyldi þora að standa upp og horfa framan í sig. Henni fanst það svo mikil storkun, að hún varð nærri því ráðalaus.

"Burt, burt með þig af mínu kristilega heimili, ólánsgreyið þitt," sagði hún loksins og þreif um handlegginn á Önnu, "Ég vil ekki sjá þig eitt augnablik framar fyrir mínum augum, og aldrei skaltu stíga fæti þínum á þetta heimili framar. En syndakróann þinn ætla ég samt að taka og annast, svo að þú alir hann ekki upp til

leikfangs fyrir þann neðsta. Burt, burt með þig héðan."

"Hvað hefi ég gjört?" sagði Anna [illegible]ddin titraði og augun fyltust tárum.

"Hvað hefi ég gjört? — Ég elska Jón, elska hann eins og ég veit að hann elskar mig. Ég hefi gefið honum alt, sem ég átti. Ég gat ekki annað."

Svo hneig Anna niður. Það var liðið yfir hana.

Vinnukonurnar fóru að stumra yfir henni. En Þuríður skifti sér ekkert af henni. Hún kallaði á Kristján ráðsmann, skipaði honum að tína saman allar reitur Önnu og flytja hana þegar með öllu hennar yfir að Hrauni til Gróu gömlu móðursystur hennar; hún fékk honum tvo tvítugkrónupeninga, og sagði honum að fá Gróu, og bætti því við, að Anna skyldi ekki geta sagt það með sanni, að hún hefði ekki fengið kaup sitt fullvel úti látið.

Þegar Anna raknaði við og leit í kring um sig, sá hún, að Kristján ráðsmaður var að tína saman alt það litla, sem hún átti, og spurði hvað það ætti að þýða.

"Ég á að flytja þig og alt þitt yfir að Hrauni."

Anna skildi strax hvernig á öllu stóð. Hún hugsaði sig um dálitla stund. Hún sá, að það

var ekkert vit í því, að þrjózkast við að fara, og reyna til að sitja kyr, að Þuríði nauðugri. Hún huggaði sig við, að þegar fyrsta hríðin væri um garð gengin, þá mundi alt lagast. Hún var viss um ást Jóns, og að hann stæði fast á því að eiga sig, hvað svo sem Þuríður gamla segði eða gjörði. Henni gat heldur ekki betur sýnst, en að Þuríður yrði þó loksins að láta undan, þegar hún betur og betur sannfærðist um, að syni sínum væri full alvara. Henni þótti einungis eitt sárt, og það var hve mikið Jón yrði að þola af móður sinni fyrir sínar sakir, fyrst um sinn, þangað til alt lagaðist. Hún einsetti sér með sjálfri sér að verða honum góð kona, svo að hann þyrfti aldrei að iðrast eftir það, að hann hefði tekið að sér sveitastelpuna fátæku og átt hana.

Svo kvaddi Anna alt fólkið. Þuríði sá hún ekki, því hún hafði strax látið söðla hest sinn, og var riðin af stað yfir að Bakka til prestsins.

Önnu sárnaði það, að hún fengi ekki svo mikið sem að kveðja Jón, en hún huggaði sig við, að skilnaður þeirra yrði ekki til lengdar.

Nú var Kristján búinn til ferðar og þau héldu af stað. Kristján bar á bakinu koffort eitt, ekki stórt. Í því var aleiga Önnu.

---

## IV.

Gróa varð miður glöð við komu Önnu, þegar hún heyrði hvernig stóð á málavöxtum. Sjálf þagði Anna að mestu leyti, en lét Kristján hafa fyrir því að halda svörum uppi og skýra frá ferð sinni. En þegar Kristján dró upp tvo ljómandi fallega gullpeninga, og fékk Gróu frá Þuríði á Borg, þá fór heldur að hýrna yfir kerlingu. Hún sagði að í öllu væri sjáanleg rausn og höfðingskapur Þuríðar, jafnvel í viðurgjörning hennar við óverðuga.

Kristján ráðsmaður fór svo að búast til að fara, og um leið og hann kvaddi Gróu gömlu sagði hún, að hún skyldi reyna að lofa telpuríunni að vera, úr því svona væri komið fyrir henni, það væri hvort sem er kristileg skylda sín vegna Bjargar systur sinnar, og um leið og hún nefndi nafn systur sinnar tók hún svuntuhornið og bar það upp að augunum á víxl.

Svo fór Kristján af stað og Anna sat eftir í nýju vistinni.

Það var ekki margment þar á heimilinu. Maður Gróu var dáinn fyrir mörgum árum, og höfðu þau átt eitt barn, er lifði. Það var piltur, er Þorgeir hét, og var um þetta leyti maður hálfþrítugur. Hann var alment kallaður Þorgeir óviti, því hann var fábjáni. Hann gat reyndar

unnið flesta vinnu, sem fyrir kom, jafnt störf kvenna sem karla, enda var hann manna stærstur vexti og sterkastur, en ef sorg eða gleði kom flatt upp á hann, eða ef hann reiddist, varð hann óður og hamslaus, svo að bönd varð að hafa á honum. Hafði það stundum komið fyrir, að móðir hans varð að flýja til næstu bæja til að leita hjálpar. Meðan æðið var á Þorgeiri talaði hann ekkert orð af viti; hversdagslega var hann rólegur og stiltur, talaði fátt, en hætti við að svara út í hött, ef hann var spurður, einkum ef það voru ókunnugir, sem spurðu hann.

Þau mæðginin tvö voru alt heimilisfólkið. Það má geta nærri, að það var ekki skemtilegt fyrir Önnu, að koma af fólksmörgu og skemtilegu heimili til Gróu á Hrauni. En henni leiddist ekkert fyrst framan af, því hún hafði nóg að hugsa. Fyrsta daginn var hún alt af að vonast eftir, að Jón kæmi yfir að Hranni að finna sig og tala við sig, eða að minsta kosti skrifaði sér til. En hvorugt varð. Hún skildi ekkert í því, og tók sér það nærri, en þegar hún hugsaði sig betur um, þótti henni sjálfsagt, að móðir hans liti svo vel eftir honum, að honum væri ómögulegt að bregða sér bæjarleið eða jafnvel skrifa bréf.

Nokkurum dögum eftir flutning Önnu, kom vinnukona frá Borg að Hrauni og sagði þar tíðindin frá Borg. Jón hafði ekki komið heim fyrr

en seint að kveldi, daginn sem Anna var send burt. Svo höfðu þau mæðgin læst sig inni í herbergi Þuríðar og talast þar við mikinn hluta næturinnar. Skömmu áður en Jón kom heim, hafði Þuríður komið úr för sinni til prestsins, og verið töluvert rólegri og með meira gleðibragði, en þegar hún fór. Daginn eftir höfðu karlmennirnir haft nóg að gjöra að skaflajárna hesta og búa alt út í langferð. Snemma næsta morgun höfðu þeir svo lagt af stað, Jón og Kristján ráðsmaðar. Hvert ferðinni væri heitið, vissu menn ekki fyrir víst, en eftir því sem heyrst hefði til Þuríðar og Kristjáns, mundu þeir ætla til Reykjavíkur, og ætti Jón að líkindum að vera þar um tíma til þess að mentast.

Það má geta nærri, að Önnu þóttu þessar fréttir alt annað en góðar. En hún lét ekki á neinu bera. Hún vissi líka, að nú gæti Jón þó skrifað sér til, fyrst hann væri kominn frá Borg.

Það var fáförult um á Hrauni, en kæmi þar maður, vonaðist Anna alt af eftir, að hann væri með bréf til sín. En enginn hafði neitt bréf til hennar. Kristján ráðsmaður kom aftur að sunnan, pósturinn fór um sveitina oftar en einu sinni, en ekkert bréf kom frá Jóni. Menn sögðu, að hann væri í Reykjavík að læra ensku, og að honum liði vel.

Þegar fór að líða fram á vorið, fór Anna að verða lasin, og því meir sem á leið.

Einn dag, nokkuru eftir sumarmálin, sendi Gróa gamla Þorgeir óvita eftir Þuríði á Borg; hún var helzta yfirsetukonan þar í sveitinni.

Önnu gekk vel og fæddi hún meybarn, sem Gróa sagði að væri það fallegasta og efnilegasta barn, sem hún hefði séð á æfi sinni, enda líktist það mjög ömmu sinni í föðurættina.

Skömmu eftir að Anna fæddi, sofnaði hún og hélt hendinni yfir um litla barnið sitt.

Þegar hún vaknaði var barnið horfið.

Þuríður á Borg var farin af stað og hafði tekið barnið með sér.

Anna rak upp óttalegt hljóð, og þegar Gróa sagði henni, að Þuríður sín hefði gjört það miskunnarverk að taka barnið, þá kom það æði yfir hana, að Þorgeir óviti átti nóg með að halda henni.

Æðið fór reyndar af henni eftir skamma stund, en hún varð óttalega veik, talaði ekki annað en óráð og hrópaði í sífellu á barnið sitt. Gróa gamla var farin að tala um, að "guð mundi ætla að sýna henni þá náð, að taka hana til sín," en það varð þó ekki.

Önnu fór að smábatna, en þó lá hún rúmföst langt fram á vorið.

Skömmu fyrir túnasláttinn gat hún klæðst í

fötin, en hún var þó svo óstyrk, að hún gat ekki gengið, og bar Þorgeir óviti hana á hverjum degi út í sumarblíðuna, og frá því fór hún að hressast á degi hverjum. En það var auðséð af öllu, að hún mundi aldrei ná sér að fullu, og aldrei verða aftur söm og hún hafði verið.

Það var eitt kveld um túnasláttinn, að þær Gróa og Anna sátu úti í hlaðvarpanum. Þorgeir var þar skamt frá þeim við slátt, og var Gróa að segja honum fyrir verkum, en hélt á prjónunum sínum og var að prjóna um leið.

Anna sat og hélt að sér höndum, horfði út í bláinn og andaði að sér hreinu kveldloftinu.

"Nú ertu þó farin að hressast, blessuð mín," sagði Gróa ofur hlýlega.

"Ójá, mér finst mér batna með degi hverjum núna," sagði Anna, en útlit hennar var þó alt annað en hraustlegt, andlitið náfölt og kinnfiskasogið, og augun ókyr og tindrandi.

"Ég brá mér yfir að Borg í morgun; hún Þuríður mín hafði gjört orð eftir mér til að tala við mig um ýmislegt. Ég sá líka hana litlu dóttur þína; hún er allra bezta barn, dafnar með degi hverjum og er eftirmyndin hennar Þuríðar minnar."

Anna hrökk við, þegar hún heyrði barnið sitt nefnt, og eins og drakk af vörum Gróu hvert orð, sem hún sagði.

"Heldurðu að ég mætti ekki koma yfir um og sjá hana, þegar ég er orðin nógu frísk?"

"Vertu nú ekki að hugsa um það. Þú mátt, blessuð mín, þakka guði og góðum mönnum fyrir, að þeirri byrði var létt af þér, aumingjanum. Heldurðu kannske, að þú hafir efni eða mátt á, að ala telpuna þína upp eins og Borgarfólkið? Yrðirðu svo heppin að giftast vel, þá gætirðu náttúrlega tekið telpuna til þín."

"Nær kemur hann Jón heim?" spurði Anna ofboð látt og um leið sló eldroða á föla andlitið hennar.

"Hann Jón, þú ert þó ekki að hugsa um hann Jón enn þá, vona ég til?" sagði Gróa og var fremur byrst. "Það er ekki til neins fyrir þig, sveitatelpu ríuna, vinnukonu greyið, að vera að hugsa um ríkasta mannsefnið í sýslunni. Þú ert ekki það barn, að þú sjáir það ekki."

Anna þagði og leit niður fyrir sig.

"Það er líka svo guði fyrir að þakka, að það eru fleiri efnilegir menn til en hann Jón," sagði Gróa. "Þú ættir, bezta mín, að eignast reyndan og ráðsettan mann; það væri þér fyrir beztu."

Svo varð þögn nokkura stund.

"Ég trúi líka, að einum manni hafi alt af litist svo vel á þig, blessuð mín," sagði Gróa um leið og hún strauk Önnu um kinnina. "Ekki

get ég kallað þig forvitna. Hver heldurðu að hann sé?"

"Það veit ég ekki."

"Ekki nema hann Kristján ráðsmaður; það er nú mannsefnið, sem fáar mundu neita."

"Hann Kristján 4.?" sagði Anna. Þetta kom svo flatt upp á hana, að hún sat alveg agndofa.

"Hann Kristján ráðsmaður, já blessuð mín, víst er það hann. Hún Þuríður mín getur vel komist af með annan yngri mann sér við hönd, til þess að sjá um búið með henni. Hún er líka svo hugul og sínum vinum sinnandi um alt, blessuð, að henni finst nú líklega, að Kristján ætti að fara að eiga með sig sjálfur. Ég held hún gjörði hann kannske einhvern veginn úr garði. Já, þá stúlku mætti kalla hepna, sem fengi hann."

"Það getur vel verið. Ég vona samt til, að hann komi ekki til mín," sagði Anna.

"Og því ekki það, barn?"

"Mér getur aldrei þótt vænt um neinn mann, nema Jón, og fái ég hann ekki, þá giftist ég aldrei."

"Hvað ertu að fara með, telpa, heldurðu að manni þurfi að þykja svo fjarska vænt hvoru um annað, þó að maður giftist. Ég held, að það

ríði meira á því, að maður fari ekki strax á sveitina."

"Mig langar ekkert til að giftast. Ef guð gefur mér heilsuna aftur, þá tek ég hana Jónu mína litlu, og svo vona ég til, að ég geti verið ánægð, þegar ég hefi hana hjá mér."

"Taka hana Jónu litlu ; þú heldur kannske að hún Þuríður mín sleppi við þig barninu, sem hún er búin að taka ástfóstur við, og láti það flækjast með þér úr einni vist í aðra. Nei, þú þarft ekki að vonast eftir því ; annað mál væri ef þú giftist ráðsettum manni, þá væri líklegt, að hún slepti barninu við þig, og meira að segja gæfi þér heiðarlega með því. Ekki er að tala um rausnina hennar, blessunarinnar."

"Það á þó ekki að taka frá mér barnið mitt, og lofa mér aldrei að sjá það," sagði Anna, um leið og tárin hrundu niður á hendur henni.

"Taka frá þér! — hvaða dæmalaust vanþakklæti við guð og góða menn. Kallarðu það "að taka frá þér," að létta af þér ómaganum, og ala hann upp eins og fyrirmanns barn? Það er ekki von að vel fari fyrir þér, Anna mín, með þessum hugsunarhætti; vanþakklæti og sjálfbirgingsskapur eru engum manni til farsældar."

Gróa stóð nú upp og gekk til bæjar, en á leiðinni sneri hún sér við, og kallaði til Önnu:

"Þú ert nú komin á þann aldur, að þú ættir

að sjá, hvað þér er fyrir beztu, einkum ef þeir, sem eldri og reyndari eru, sýna þér fram á það. Mundu eftir því."

---

V.

Hrauni, 15. júlí 1880.

Elsku Jón minn!

Ég sezt nú niður og fer að skrifa þér, af því að mér leiðist svo ógnarlega, að fá aldrei að sjá frá þér línu. En þú hefir náttúrlega svo mikið að gjöra og margt að hugsa, að þú hefir ekki tíma til þess. Mér leiddist líka mest eftir því, meðan ég var veik, en nú er ég orðin svo frísk, að mér leiðist ekkert. Blessað litla barnið okkar kvað dafna svo vel. Ég er viss um, að hún er lík þér. Eg get ekki sagt þér, hvað mig langar til að sjá hana, en ég má ekki koma yfir um. Mig langar til að biðja þig að skrifa móður þinni um það, að ég mætti koma yfir um, þó að ekki væri nema einstöku sinnum, til að skemta mér við hana Jónu litlu okkar. Heldurðu að það verði mjög langt þangað til að þú kemur heim? Stundum finst mér að tíminn vera svo lengi að líða, og sumir eru líka að segja mér, að

það sé ekkert nema barnaskapur af mér, að vera að hugsa upp á þig. Ég finn líka, að það er hverju orði sannara, að þú tekur langt niður fyrir þig, að ætla þér að eiga mig. En mér þykir bara enn þá vænna um þig fyrir það. Bara að alt fari nú bráðum að lagast, þú kæmir heim og við gætum fundist. En ég skal samt ekki vera neitt bráðlát, og ég vil að þú farir einungis eftir því, sem þú álítur bezt. Ég veit að þú skrifar fyrir mig móður þinni um Jónu. Helzt vildi ég fá að taka hana til mín. Ég er nú bráðum orðin fullfrísk og get unnið fyrir henni. Þá fyndist mér líka eins og ég ynni fyrir okkur bæði fyrir blessuninni litlu. Það væri gaman. Þú skrifar nú móður þinni um þetta alt; að minsta kosti skil ég ekki í, að hún lofi mér ekki fyrir þín orð, að koma stöku sinnum til þess að sjá barnið mitt og okkar.

Fyrirgefðu nú hvað bréfið er illa skrifað. Ég bið alt af guð að fylgja þér og vera hjá þér.

Þín elskandi

*Anna.*

---

Stödd á Bakka, 12. ágúst 1880.

Sonur minn!

Þú skrifar mér núna með póstinum, að þú hefðir fengið bréf frá þessari siðsemdarstelpu,

henni Önnu þinni. Svo ert þú að fara fram á það, að ég fari að éta ofan í mig aftur alt, sem ég talaði við þessa skepnu, þegar ég komst að breytni hennar og rak hana af mínu heimili, og stingur upp á því, að ég leyfi henni að koma hingað, til þesss að finna telpuna ykkar. Það er auðséð á öllu, að þú hefir nógu snemma orðið faðir; ertu svo blindur að þú ætlir að láta þá skepnu taka þátt í uppeldi barnsins? Nei, hún Anna þín skal ekki koma inn fyrir mínar dyr, meðan ég er ofan jarðar, en barnið þitt skal ég eftir veikum kröftum ala upp eins og kristinni konu sæmir. Svo er úttalað um það mál.

Þú segir líka í bréfi þínu, að þú vegna forboðs míns hafir ekki svarað bréfi Önnu. Þá ætla ég nú að tala við þig hreint og beint um alt þetta, sem okkur fer á milli, sonur sæll. Eins og ég sagði þér, þegar við töluðum saman hér heima, þá er ég ekki skyldug til að láta þér eftir eitt skildingsvirði af reitum mínum. Þetta litla, sem þú erfðir eftir föður þinn, ertu löngu búinn að úttaka, og get ég gefið þér reikning fyrir því. Í lifandi lífi mínu get ég gefið alt mitt burt, eins og það er, og því hótaði ég þér að gjöra, ef þú létir ekki að orðum mínum, og hættir með öllu að hugsa um þessa Önnu. Á síðasta bréfi þínu sé ég, að þú ert fjarri því að vera hættur að hugsa um hana. Þú tekur á móti bréfum frá

henni, og ert svo í bréfum til mín að halda fram hennar máli, á móti mér, móðurmyndinni þinni. Nú skal ég segja þér það, sonur sæll, að ég er farin að eldast, og get burtkallast á hverri stundu; þetta stímabrak, sem ég hefi staðið í fyrir þínar sakir, hefir líka alt annað en lengt daga mína. Falli ég frá nú sem stendur, erfir þú allar þessar reitur, sem ég læt eftir mig. En ég segi þér það með sanni, sonur, að ekki skal þér lánast að bíða rólega eftir dauða mínum, svo að þú getir þá só-að út arfinum eftir mig í sambúð við ráðlausa og blygðunarlausa sveitastelpu. Ég hefi marga nótt vakað til þess að hugsa um þitt ráð, og nú er ég loksins komin að niðurstöðu. Annaðhvort skalt þú giftast, og það bráðlega, þeirri stúlku, sem ég af einlægum móðurhug vel þér, eða ég gef burt allar eigur mínar, svo að þú skalt ekki skildingsvirði af njóta, og ég skal jafnlítið kannast við þig, sem minn son, sem þú, með því að neita vilja [illegible], kannast við mig sem kristilegt foreldri

Sú stúlka, sem ég hefi valið þér, er vænsta og helzta stúlkan í þessu héraði, hún Guðrún á Bakka, svo að þú getur víst tæplega kvartað undan vali mínu. Þann ráðahag hefi ég hugsað mér þér til handa, frá því að þú fæddist, og hefir það verið með vilja og samþykki séra Eggerts míns,

og nú hefi ég, undir fjögur augu, fyrir nokkurum dögum farið þess á leit við Guðrúnu mína, að hún ætti þig, og hún hefir þá trúað mér fyrir því, blessunin, að henni hafi alt af þótt vænt um þig, síðan þú komst á legg, og að hún hafi mörgum sinnum grátið yfir þessu standi með þig og sveitastelpuna. Svo fór ég til séra Eggerts míns og sagði honum frá öllu, og með hans vitund og aðstoð skrifa ég þér nú þetta bréf.

Ég skal ekki leyna þig því, að neitir þú þessu boði mínu, gef ég Guðrúnu minni á Bakka alt, sem ég á, bæði jarðir og lausafé, þó með því skilyrði, að hún megi aldrei láta þig eitt skildingsvirði af því fá. Hún mun varla amast við mér í horninu hjá sér.

Rúmri viku fyrir réttirnar sendi ég mann með hesta eftir þér suður, og verður þú þá að vera búinn að hugsa þig um. Gangirðu að þessu síðasta tilboði mínu til þín, þá skaltu kaupa leyfisbréf hjá amtmanninum og koma svo til okkar, mín og unnustu þinnar. Ég skal taka þér, eins og móður ber að taka töpuðum syni, sem hún hefir aftur fundið, og Guðrún mín mun taka þér eins og hennar hjarta segir henni.

Viljirðu ekki hlýðnast orðum móður þinnar, á sendimaður minn að reka hestana lausa heim aftur. Þá erum við skilin.

Þú munt þekkja mig svo, sonur minn, að þú veizt, að ég tala ekki út í bláinn.

Þín mædda móðir,

*Þuríður Guðbrandsdóttir.*

---

Þetta bréf fékk Jóni margt að hugsa. Eiginlega hafði Jón ætlað sér að sitja rólegur í Reykjavík og bíða betri tíma; hann hugsaði, að móðir sín mundi verða rólegri og vægari, þegar frá liði, og að hún mundi komast að þeirri sannfæring, að þegar vel væri að gætt, þá hefði hún þó verið ströng við einkabarnið sitt og þá stúlku, sem honum þætti vænt um eina. Með bréfum sínum ætlaði Jón sér svo að smámýkja skap móður sinnar, en hlýðnast henni í öllu og skrifa Önnu ekki til; hann vissi það, að yrði móðir sín ekki unnin með hlýðninni, þá tækist það ekki á annan hátt. Eiginlega þótti honum gott að vera svona langt burtu, fjarri öllu stímabrakinu heima; að sitja fjarri í friði og óáreittur, og bíða þess að alt lagaðist af sjálfu sér, var það, sem var næst skapferli hans. Hann var enginn styrjaldarmaður.

Svo kom bréf móður hans eins og helliskúr úr heiðríkju.

Hann sofnaði ekki mikið nóttina eftir að hann fékk bréfið. Hann hafði frá æsku skoðað sig sem erfingja að öllum Borgarauðnum, og hafði oft skemt sér við að hugsa um, hvað hann skyldi gera, þegar hann væri orðinn stórbóndi á Borg. Hann mundi vel eftir Guðrúnu prestsdóttur; hún var ófríð stúlka, en alt af hafði hún látið vel að honum, frá því hann var dálítill hnokki. Hann hugsaði sér Önnu við hliðina á henni, og þá varð lítið úr prestsdótturinni. Nei, við Önnu gat hann ekki skilið, þá var betra að verða af öllum auðnum og halda henni. Því meir sem hann hugsaði um það, því fastari varð sá ásetningur hans, og með hann í huganum sofnaði hann.

Hann vaknaði ekki fyr en um miðjan dag. Hann mundi strax eftir ásetningi sínum um kveldið. Honum var einhvern veginn undarlega þungt fyrir brjósti, þegar hann fór betur að hugsa um það alt. Það var heldur ekkert sældarlíf, sem fyrir honum lá. Hann átti ekkert til og Anna var bláfátæk. Hann mátti til að verða vinnumaður hjá einhverjum vandalausum manni. Hver vissi, hvenær þau gætu reitt svo mikið saman með barn í eftirdragi, að þau gætu gifst? Yrði það ráðlag ekki báðum þeim til ógæfu? Gæti hann ekki unnið þeim báðum meira gagn með því að kasta ekki frá sér Borgarauðnum?

Ófríðleiki Guðrúnar prestsdóttur fór líka að smáminka, þegar hann fór betur að hugsa um hana; hún var blíð í máli og þýð í umgengni; svo var hún líka af góðum og göfugum ættum, og hlaut í öllu að verða manni sínum til sóma. Með því að taka kosti móður sinnar gat hann líka gert barni þeirra ómetanlegt gagn. Var það ekki synd að láta blessað barnið hrekjast með bláfátækum foreldrum frá einni plágu til annarar? Fyrir Önnu gat hann líka séð á margan hátt, ef hann yrði fjáður maður. Hann gat t. a. m. látið hana vera í húsmensku hjá Gróu móðursystur hennar með barnið, og séð um, að hún þyrfti lítið fyrir lífi að hafa og ætti góða daga, og svo gæti hann litið þar til hennar og barnsins.

Þuríðar á Borg hefði ekki þurft að bíða fram undir réttirnar með það að senda mann eftir syni sínum. Hann var löngu búinn að hugsa sitt ráð, og hafði gengið með leyfisbréfið í vasanum marga daga.

———

VI.

Það var stórrigning daginn, sem að átti að gefa þau Jón og Guðrúnu saman, hvast veður

og hryssingskalt. Laxá, sem rann eftir dalnum fyrir neðan Borg og Bakka, óx á hverri stundu, valt fram kolmórauð og flóði yfir alla bakka fram að sjó. Þegar veizlufólkið var komið saman á Borg um morguninn, töluðu menn um, að Laxá væri lítt fær og yrði sjálfsagt ófær að kveldi; en kirkjustaðurinn, sem Borg átti kirkjusókn að, lá hinumegin við ána og voru nú flestir á því, að ekkert yrði úr brúðkaupinu þann daginn. Menn töluðu náttúrlega ekki hátt um það, en skeggræddu svona um það sín á milli. Sumum þótti ilt, að verða af veizlunni, en ekki var trútt um, að sumum þætti gaman að, að ekkert yrði úr neinu, og sögðu að séra Eggert og Þuríður hefðu efni á því að efla til veizlu á ný. En séra Eggert og Þuríði kom strax saman um, að það væri bezt, að gefa brúðhjónin saman í stofunni á Borg, úr því eigi væri fært til kirkjunnar fyrir óveðrinu. Og Kristján ráðsmaður var sendur "út af örkinni" til stofu, þar sem veizlufólkið var saman komið, og tók hann að búa þar alt undir hjónavíxluna. Og eftir litla stund kom séra Eggert í embættisskrúða, og þar á eftir Þuríður og brúðhjónin og hin helga athöfn byrjaði þegar.

Séra Eggert sagðist prýðilega. Það var auðvitað, að hann hafði yndi af öllum sínum embættisverkum og hann gjörði þau með stakri

samvizkusemi, en sjálfur sagði hann í hjónavígsluræðunni, að þetta embættisverk hefði hann gjört með mestri ánægju á æfi sinni. Og það var satt. Hann talaði með innilegri sannfæring og mikilli mælsku um æskuástina, sem byrjaði hjá börnunum, yxi svo með ári hverju og yrði að brennandi elsku, sem fyrst fengi frið í kristilegu hjónabandi. Þannig sagði hann, að þessi "sín elskulegu börn" í dag helguðu æskuást þá, er þau frá blautu barnsbeini hefðu borið hvort til annars, með innsigli kristinnar kirkju og guðsorðs. Að endingu minti hann þau á allar skyldur þeirra og lagði þeim ýms kristileg heilræði.

Brúðurin sat, eins og brúði sæmdi, grafkyr og horfði í gaupnir sér, á meðan á ræðunni stóð; en þegar faðir henn r fór að tala um æskuást brúðhjónanna, þá setti að henni óstöðvandi grát; hún hélt klútnum fyrir augun, og var nærri eins og hún ætlaði að missa öndina af ekka.

Brúðguminn var rjóður í andliti, eins og sveitapiltar gjörast, en þann dag var hann venju fremur fölur. Hann þurfti oft undir ræðunni að þurka framan úr sér svitann, og þó var ekki á honum að sjá, að það væri hitanum að kenna.

Þegar hjónavígslunni var lokið, þyrptust allir utan um brúðhjónin, til þess að óska þeim gæfu og blessunar. Gamla Þuríður kysti fyrst

Guðrúnu og svo Jón son sinn, og því næst mælti hún svo hátt, að allir heyrðu:

"Á þessari hátíðlegu stundu gef eg ykkur jörðina Borg með öllu búinu, bæði utan húss og innan; ég vona til, að þið lofið mér að hýrast í horninu hjá ykkur."

Þetta kom flatt upp á alla, því engum datt í hug, að Þuríður mundi fara að bregða búi svo bráðlega, þar sem hún var enn að sjá með öllu fjöri og umsvifamikil um alla búsýslu.

Það kom séra Eggert eins óvart og öðrum, og hýrnaði svo yfir honum, að boðsmenn þóttust ekki hafa séð hann í annan tíma með jafn-innilegum ánægjusvip. Hefði hann vitað tíðindin fyrir hjónavígsluna, mundi honum hafa tekist enn betur upp á þessu sínu "ánægjumesta embættisverki."

Veizlan fór fram í sömu stofunni, sem hjónavígslan var haldin í; sú stofa var í þrem stafgólfum og skipuð borðum og bekkjum horna á milli. Séra Eggert byrjaði borðsálminn með snjallri og skærri rödd, og var hann sunginn til enda með aðstoð ýmsra boðsgesta.

Svo var farið að borða.

Fyrst var almenn þögn á, en þegar steikin var búin og komið var að kökunum, voru þeir, sem næst dyrunum sátu, orðnir töluvert hýrir og háværir; nógu mörg brennivínsstaup höfðu eigi

verið til, og í stað þeirra voru svo púnsglösin fengin þeim, er fremstir sátu. Ekki heyrðu menn þá fást um það. Þeir fyltu drjúgu glösin sín tíðum, og tæmdu þau jafnoft og voru jafnvel farnir að orða það við Gunnlaug gamla á Botni, að syngja "Annars erindi rekur," áður en staðið væri upp frá borðum; en Gunnlaugur sagðist þurfa að fá sér svo sem í einu hálfu enn, svo að söngurinn fórst fyrir um sinn.

Þagar staðið var upp frá borðum, voru borð og bekkir bornir burt úr stofunni og því næst farið að dansa. Brúðhjónin dönsuðu saman fyrst, og allir tóku eftir því, að svipur brúðguma var allur annar nú, en undir hjónavígslunni. Hann var svo rösklegur og karlmannlegur, að það var eins og hann hefði lifað ár síðan að hjónavígslan var haldin yfir honum, og að honum hefði farið fram á hverri viku á þeim tíma.

"Það hefir glaðnað yfir mörgum fyrir minna, en alla Borg og alt Borgar-búið," hvíslaði Gunnlaugur í Botni að kunningja sínum, en svo hátt, að allir heyrðu í stofunni, því að hann hafði fengið sér rúmlega í einu hálfu til.

"Fyrir það skyldi ég giftast öllum skrýmslum á landinu, lagsi," bætti hann við jafnhátt.

Til þess að firra hneyksli, var nú það ráð tekið, að láta Gunnlaug og nokkura hina óæðri menn, fara yfir í herbergi þiljað, er gagnvart var

stofunni. Þar fóru þeir að drekka púns allfast. Og svo var farið að syngja. Það var byrjað með tvísöng, og fór Gunnlaugur upp; en eftir því sem leið á kvöldið fjölgaði röddunum, og loks urðu þær jafnmargar og nefin voru, því að hver söng með sínu.

Í stofunni fór dansinn að smáminka; menn fóru að fá sér í staupinu, og tala um ýms héraðs- og sveitarmál. Það var talað um, að þar sem svo margir væru saman komnir, ættu menn að stofna eitthvert fyrirtæki eða styrkja einhvern bágstaddan. Það var Jón brúðguminn sem fyrstur vakti máls á því.

"Ég sting upp á því, að við bændamyndirnar, sem hér erum saman komnar, sendum honum Birni á Krossi sína ána hver í fyrramálið," sagði nefndarbóndi einn. "Hann misti meir en helming af ánum sínum úr bráðasótt í fyrra vetur, og þó að hann sé mestur dugnaðarmaður af okkur öllum, þá réttir hann aldrei við, ef hann fær enga hjálp; og það er nauðsynlegt að gjöra það strax, því að annars kemur hjálpin kannske of seint.."

Það var góður rómur gjörður að þessum orðum; allir könnuðust við, að Björn væri hjálparþurfi, og að hann ætti fyllilega hjálpina skilið fyrir dugnað sinn og framtakssen

Séra Eggert fanst það líka og hann sagði,

og kirkjumál, að báðum vöknaði um augu; séra Eggert hafði reyndar drukkið töluvert af púnsi áður, og Þuríður hafði líka hrest sig dálítið, hún þurfti, eins og eðlilegt var, að drekka prestinum sínum til. Kristján sat á bekk alllangt frá, hann teygði frá sér fæturna. og hallaði sér með hendur í vösum upp að veggnum, og einblíndi stórum augum í hornið, þar sem hann endrum og eins heyrði til foreldra brúðhjónanna, en ekkert sá hann, því sjónin var orðin svo döpur, þegar á kveldið leið.

Brúðurin var að tala við konurnar; hún hló dátt, þegar þær gjörðu eitthvað að gamni sínu við hana, og gleðin skein út úr henni. Þær voru svona að fleygja því, að nú mundi bráðum mál að hátta. Stundum gekk hún út í hornið til föður síns og Þuríðar, og þá kystu þau hana á víxl. Guðrún hafði aldrei verið eins lagleg og þann dag; brúðarskartið fór henni svo vel, og gleðin gjörði hana svo unga, að hún leit ekki út fyrir að vera meira en um tvítugt.

Þegar komið var yfir miðnætti, bauð Þuríður "í nafni brúðhjónanna" öllum gestunum að vera um nóttina; "nú væri varla fært um sveitina fyrir illviðri, enda væri nú komið kolniðamyrkur," og sagðist hún ekki vilja, að "nein slys, hversu lítil sem væru, hlytust af þeim gleðiviðburði, sem hér hefði orðið í dag."

Allir gestirnir tóku boðið með þökkum, og þótti það rausnarlegt og Þuríði líkt.

Hinir óæðri menn fóru nú að koma inn í stofuna aftur, því þeim fanst, að hinir meiri mennirnir væru nú orðnir svo, að hvorugir sæju á öðrum, og var sú hugsun víst á rökum bygð, því að alt fór fram í mesta bróðerni.

Gunnlaugur fór að tala við brúðgumann:

"Hvað skyldi hana dreyma núna hana Önnu, aumingja ríuna hana Önnu? Hún er aumingi núna? Ha? Ha?

---

## VII.

Anna vissi alt um brúðkaupið á Borg. Gróa hafði reyndar ekkert sagt henni um það. En Þorgeir óviti sagði henni alt, sem hann hafði heyrt, einu sinni þegar þau voru tvö ein úti á túni. Henni brá ekki svo mikið við það; hún gat ekki orðið fölari en hún var, og áður hafði smámsaman verið að færast yfir hana einhver doðadrungi; hún tók eiginlega ekki eftir neinu, og talaði svo sem ekki neitt. Alt, sem henni var sagt að gjöra, gjörði hún eftir því sem skipað var, en þó svo, að það var eins og hugur hennar

væri langt burtu og kæmi ekki nálægt neinu, sem í kring um hana var. Þegar Þorgeir óviti sagði henni þessar fréttir, horfði hún á hann lengi og fast, eins og hann væri að segja henni eitthvað, sem hún ekkert skildi í. Hún spurði ekki um neitt og sagði ekki neitt, og aldrei mintist hún á brúðkaupið einu orði.

Brúðkaupskveldið á Borg sátu þær Gróa og Anna inni á baðstofulofti, og bjuggust til að fara að hátta. Það hafði verið einhver ókyrð yfir Önnu um daginn, svo að Gróu var farið að gruna, að einhver kynni að hafa sagt henni frá brúðkaupinu, þó hún reyndar gæti ekki skilið, hver það ætti að vera, því ekki datt henni í hug, að Þorgeir sonur sinn hefði haft vit á að taka eftir því, sem hann hafði heyrt talað um það.

En eftir því sem á daginn leið, varð Anna rólegri, og um kveldið var Gróa orðin fullviss um, að enginn hefði sagt henni neitt.

Anna sat á stóli við borðið undir glugganum á baðstofuþilinu, og studdi hönd undir kinn, og einblíndi út í regnið. Það dundi á glugganum, og regndroparnir runnu í lækjum niður eftir rúðunum. Það var líka alt af að hvessa og stormurinn næddi inn, en Anna fann ekkert til kuldans; hún sat grafkyr og einblíndi út.

"Það er skemtilegt veður að tarna," sagði Þorgeir óviti um leið og hann kom upp á loftið.

"Hún Laxá er ófær hverri skepnu. Kannske alt veizlufólkið drukni þar í nótt," og um leið og hann bætti því við, hló hann bjánalega, en þó einhvern veginn svo grimdarlega, eins og hálfvitar stundum gjöra.

"Hvað ertu að þvaðra, aulinn þinn?" sagði Gróa, "farðu strax að hátta!"

Anna hrökk við, þegar hún heyrði það, sem Þorgeir sagði. Hún stóð upp og gekk til rúms síns. "Drukna í Laxá, drukna í Laxá," sagði hún í hálfum hljóðum; og svo fór hún að hátta.

Þegar Laxá var mikil, heyrðist niðurinn og straumfallið um allan dalinn.

Anna gat ekki sofnað, hún lá vakandi og sneri sér á ýmsar hliðar; árniðurinn hljómaði í eyrum hennar, töfrandi, seiðandi.

"Drukna í Laxá, drukna í Laxá."

Hún reis upp í rúminu, og hlustaði til Gróu og Þorgeirs. Þau voru bæði löngu sofnuð og Þorgeir hraut.

Hún sté fram úr rúminu, fór í nátttreyjuna sína og utanyfirpilsið sitt og lét svo á sig skóna, alt ofur hægt. Síðan læddist hún ofan stigann, gekk fram göngin og opnaði bæinn.

Það var hellirigning, haustrigning, bitur og köld, stormurinn var alt af að vaxa og kolniðamyrkur var á. Hún stóð dálitla stund við í

bæjardyrunum og starði út í myrkrið; það var eins og hrollur færi um hana alla.

Það var ekki nema eitt augnablik; hún fór út, lokaði bænum á eftir sér, og hljóp út í myrkrið, eftir niðnum í ánni.

Loksins datt hún; hún þoldi ekki að hlaupa og nú var hún orðin örmagna. Hún lagðist niður á þúfu, sneri sér upp í loft og lét regnið lemja sig í framan.

Hún hrestist við það, svo að hún gat staðið upp og svo hélt hún áfram; en hún gat ekki hlaupið, hún gekk hægt og hægt; hún var orðin gagndrepa, og pilsið hennar lamdist og vafðist um fætur henni í óveðrinu. Stormurinn lék sér að gula hárinu hennar, fleygði því til og frá, barði því framan í hana og kastaði því svo aftur á bakið. En hún tók ekki eftir neinu og fann ekki til neins.

"Drukna í Laxá," drukna í Laxá," hljómaði í sífellu fyrir eyrum hennar.

Hún nam staðar. Hún var komin að ánni.

Hún sá í myrkrinu, hvernig áin svall og streymdi fyrir framan fætur hennar. Skamt frá henni var hringiða og gaus upp snjóhvítum öldunum, sem urðu einhvern veginn enn voðalegri og draugslegri í náttmyrkrinu. Áin flóði yfir bakkana og kastaði endrum og eins stórskvettum

upp á grundirnar, eins og til að vita, hvað hún gæti náð langt.

Anna stóð á bakkanum og horfði út í ána. Hún nötraði af kulda; hún hafði farið berhöfðuð að heiman, og hárið var nú orðið alvott, og regnið rann í straumum niður eftir andlitinu.

Hún settist niður og einblíndi út á ána.

"Drukna í Laxá, drukna í Laxá."

Hún mjakaði sér eftir bakkanum nær ánni, svo horfði hún niður fyrir fæturna. Það var ekki nema eitt fet að ánni.

Hún stökk upp, horfði út í strauminn og stóð kyr svo sem eitt augnablik. Svo lokaði hún augunum og fleygði sér áfram.

Eftir litla stund kom nábleikt höfuð upp úr hringiðunni. "Hjálp, hjálp!" var hrópað með örvænting út í myrkrið; svo hvarf höfuðið föla og alt var kyrt, nema stormurinn og regnið.

———

## VIII.

Morguninn eftir var komið bezta veður, logn og heiðríkja, og regndroparnir glitruðu í sólskininu um túnin og engjarnar, enda eru sveitirnar

aldrei eins fallegar eins og þegar sólin skín skært eftir regnnótt.

Boðsmennirnir á Borg tóku sér árbita, og fóru svo að búast til ferðar. Brúðguminn reið á leið með þeim, eins og venjulegt er. Laxá var hlaupin fram og fær hverri skepnu, og boðsmennirnir frá Borg riðu nú eftir eyrunum, og höfðu gaman af að reyna klárana.

Þegar þeir riðu fram hjá eyrarodda einum, sem náði langt út í ána, tók einn eftir því, að einhver svört hrúga lá þar úti á oddanum. Menn stóðu nú við, stigu af baki og fóru að gæta að þessu.

Það var Anna frá Hrauni.

Hún lá á hliðinni uppi á oddanum, með fæturna úti í ánni. Nátttreyjuna hafði straumurinn rifið frá og skein í ber brjóstin. Munnurinn stóð opinn og var fullur af grænu slími úr ánni, og á aðra augabrúnina hafði höggvist gat. En augun stóðu opin og störðu nú, þegar búið var að snúa henni við, með voðalegri ró á brúðgumann og boðsmennina frá Borg.

Allir þögðu. Brúðguminn var stiginn af baki. Hann var náfölur. Það fór hryllingur um hann allan, svo að hann skalf og þurfti að styðja sig við hestinn sinn.

Svo heyrðust köll uppi á eyrunum.

Menn litu við. Maður stór vexti og þreklegur kom hlaupandi. Það var Þorgeir óviti.

Hann stökk þar að, er menn stóðu kring um Önnu, ýtti þeim frá, er næstir stóðu, og svo stóð hann kyr og horfði ofan á líkið.

Hann beygði sig niður að því og tók það upp í fang sitt. En þegar hann leit upp, varð honum litið framan í brúðgumann, sem hann hafði ekki fyr komið auga á.

"Þú heldur kannske að ég sleppi henni Önnu til þess, að þú getir drepið hana aftur?"

Svo hljóp hann spölkorn burt með byrðina sína í fanginu, sneri sér við, leit á brúðgumann og mannþyrpinguna, og skellihló þann heljarkuldahlátur, að það var eins og öllum rynni kalt vatn milli skinns og hörunds.

Hann fleygði svo hattinum sínum á eyrina, og gekk berhöfðaður með líkið á leið heim að Hrauni. Hann gekk hægt og stilt, en bar þó byrði sína svo léttilega, eins og hún væri fis.

Brúðguminn stökk á bak hesti sínum, tók ofan hattinn og kvaddi þannig boðsmennina alla í einu, sló í klárinn og reið í einum spretti heim að Borg.

En boðsmennirnir héldu áfram leiðar sinnar, og varð tíðrætt um viðburðinn.

Þegar Jón kom heim að Borg, spurði hann strax eftir móður sinni og séra Eggert, því að

hann var ekki farinn af stað. Svo lokuðu þau sig þrjú ein inni í stofu og sátu þar langa hríð. Þegar Jón kom út þaðan, var hann töluvert rólegri en fyr.

Þuríður gamla sendi Kristján ráðsmann eftir Gróu á Hrauni. Þegar Gróa kom, hélt hún klútnum sínum upp að augunum á víxl og sagði ekki neitt. Þegar Þuríður kom til hennar, setti að henni grát mikinn. Hún kysti Þuríði þrjá kossa, og þakkaði henni grátandi fyrir sig og sína fyr og síðar.

Þuríður talaði fátt, en sagði Gróu, að þau mæðginin, hún og hann Jón sinn, ætluðu að sjá um útför Önnu heitinnar og sagði, að hún skyldi ekkert hugsa um það.

Gróa blessaði hana margfaldlega og sagði, að ætíð væri hún eins með rausnina og manngæzkuna. Hún þurkaði sér um augun, og það var eins og bráði af henni við þenna kostnaðarlétti.

Þegar Gróa fór af stað, hitti hún í bæjardyrunum vinnukonu, sem hélt á Jónu litlu, barni Önnu heitinnar.

"Og blessaður unginn, mikið mátt þú þakka, þegar þú færð vitið til," sagði hún, "að fá að vaxa upp á þessu blessaða kærleiksheimili og það í foreldrahúsum. Og mesta lukkan þín er þó kannske, að hún móðir þín er dáin. Hún

var ólánstötur og aumingi, sem aldrei hefði orðið þjer til gæfu.“

“Kystu hana ömmusystur þína, Jóna litla,” sagði vinnukonan, og svo kysti óvitinn Gróu gömlu, eins og til að þakka henni ummælin.

Bezti trésmiðurinn í sveitinni var fenginn til að smíða utan um Önnu, og var vandað til alls.

Ungi bóndinn á Borg var um þessa dagana fátalaður, og eins og hugsi, en þó var hann stiltur vel.

Prestinum og móður hans hafði tekist að telja honum hughvarf, þegar hann morguninn eftir brúðkaup sitt kom inn í stofuna til þeirra og sagði hátt:

“Hún Anna á Hrauni er drukknuð; ég veit vel, hvernig á því stendur, og þið vitið það líka.”

“Þeim hafði þó tekist að telja hann ofan af slíkri vitleysu, sem þau kölluðu það, að hann ætti nokkurn þátt í dauða stúlkunnar.

En hann var ekki full-sannfærður. Hann gat ekki hugsað um annað en þetta eitt, og það var alt af það sama, sem ósjálfrátt datt honum í hug: „Hefði ég átt hana, hefði þá alt farið öðruvísi?“ En hefði hann átt hana, þá hefði það dregið þann dilk á eftir sér, að hann hefði orðið að sleppa Borg og öllu tilkalli til arfs eftir móður sína. Var það rétt eða kristilegt, að fleygja því

frá sér, sem forsjónin með guðs og manna lögum hafði svo að segja fengið honum í hendur? Hann hugsaði um alt þetta aftur og aftur, og alt af var hann í sama efa, óttalegum efa um það, hvort hann hefði breytt rétt. Hann átti oft tal við séra Eggert um þessar mundir. Séra Eggert sagði honum skýlaust, að hann hefði hvorki eftir guðs né manna lögum átt rétt á, að fleygja frá sér og eftirkomendum sínum Borg og Borgarauðnum; hann sagði að honum færist sem dánumanni, þegar hann nú léti grafa Önnu sæmilega og halda ræðu yfir henni, og gæfi barni þeirra kristilegt uppeldi. Jón gat reyndar ekkert haft á móti þessum orðum prests. En það var eitt að; séra Eggert hafði sagt tengdasyni sínum þetta undir fjögur augu. Jón hafði eins og margir aðrir í sveitinni þá trú, að það væri alt heilagur sannleikur, sem presturinn segði í prédikunarstólnum eða í kirkjunni; um það væri ekki hægt að efast neitt. En utan kirkju skoðaði bæði hann og aðrir sóknarprestinn sinn eins og hvern annan veikan og ófullkominn mann, sem bæði gæti yfirsést, og líka sagt svona smáósannindi, ef á þyrfti að halda.

Jón var ekki það sem menn kalla léttúðugur maður. Hann vildi, að það stæði ljóst og skýrt fyrir sér, að hann þyrfti ekki að gjöra sér neina samvizku-sök út af Önnu. Hann var nú

orðinn stórbóndi í sveitinni, og einsetti sér að verða stólpi þessa héraðs, eins og móðir hans hefði verið, styrkja allar sannar framfarir og hjálpa öllum þeim, er bágstaddir væru og í sannleika væru verðir hjálparinnar. Í því atriði var hann á máli tengdaföður síns, að þeim einum bæri að hjálpa, er í sannleika væru þess verðir.

Svo kom fráfall Önnu rétt í því bili, að nýtt líf rann upp fyrir honum.

---

## IX.

Það var kalt veður daginn sem Anna var grafin, norðanfjúk og dálítið frost. Líkmenn-girnir voru fjórir, og fóru þeir snemma um morg-uninn af stað með líkið til kirkjustaðarins. En Jón bóndi og presturinn komu þangað nokkuru síðar.

Jón hafði látið gefa líkmönnunum góðan morgunverð, áður en þeir fóru af stað, og svo fékk hann þeim tvær þriggja pela flöskur af brennivíni, til þess að hafa í nesti um daginn.

Undir eins og þeir voru búnir að bera líkið

inn í kirkjuna, fóru þeir að taka gröfina, en fóru sér hægt og voru mjög fátalaðir fyrst framan af.

Svo fóru þeir að súpa á flöskunum, og verða smátt og smátt skrafhreyfari. Þeir voru að tala um rausn og trygð gömlu Þuríðar, og hvað henni hefði farist vel við Önnu heitna, að taka barnið hennar, eins og bezta móðir, og gjöra nú að síðustu útför hennar heiðarlega og höfðinglega.

"Og ég segi ykkur satt, hann Jón er sonur hennar móður sinnar," sagði Gunnlaugur á Botni, um leið og hann saup á flösku, og rétti þeim, sem næstur honum stóð.

Þeim kom öllum saman um það, að Jón væri mesta og bezta mannsefnið í sveitinni.

Eftir því, sem minkaði á flöskunum, fóru þeir að verða viðkvæmari og guðræknari. Þeir töluðu um, hvað lífið væri fallvalt, og þeim vöknaði um augu, þegar þeir voru að raða hauskúpunum, er upp úr gröfinni komu, á grafarbarminum. Svo leituðu þeir líka með báðum höndum í moldinni að dauðra manna beinum, og sögðu, að mest riði þó á því, að alt kæmist kristilega í vígða mold.

Gunnlaugur gamli var niðri í gröfinni að moka upp úr, og fór að raula fyrir munni sér: "Mín lífstíð er á fleygiferð."

Þegar búið var að taka gröfina, kom séra

Eggert og tengdasonur hans til kirkju, og hélt séra Eggert þar snjalla og hjartnæma ræðu,

Hann minti á það, að Anna heitin hefði verið upp á manngæzku og kristilegan kærleika komin frá æsku, [illegible]da hefði hvorugt nokkuru sinni brugðist henni. "Hún var alin upp á sveit, og svo var hún svo lánsöm, að komast á hið siðprúða og kristilega rausnarheimili Þuríðar á Borg, sem er sannkallað kærleiksheimili þessa héraðs. Með móðurlegri elsku umbar þessi heiðurskvinna allan veikleik og breyskleik hinnar látnu systur vorrar. Hún sýndi hið stakasta umburðarlyndi, og sonur hennar hina stökustu rækt í því máli Önnu heitinnar, sem margir aðrir mundu hafa snúist öðru vísi við. Það var auðvitað, að hún bar ekki lengur gæfu til, að vera hjá velgjörðamóður [illegible] að kristilegur kærleikur og ræktarsemi þeirra mæðgina hafi fylgt henni alla leið, um það ber þessi vandaði síðasti bústaður vott, sem nú bráðum á að síga ofan í gröfina. Um það ber öll þessi umönnun vott, sem hér er sýnd hinum jarðnesku leyfum hennar. Öll manngæzka er takmörkuð af lífinu; enginn mannkærleiki nær til jarðnesku leifanna, sem orðnar eru herfang dauðans, því þær eru ekki lengur menn, heldur að eins lík. Þá tekur hinn kristilegi, hinn ekta kristilegi kærleiki við; hann er það, sem býr um hinn síðasta hvílubeð,

lætur sannleikans orð hljóma þar í síðasta sinn, og breiðir svo moldina, hina vígðu moldina ofan á hina látnu. Já, mínir elskulegu bræður, það er hinn sanni kristilegi kærleiki, sem hér vinnur eitt elskuverkið, því hann er það og hann einn, sem tekur út yfir dauðann, út yfir gröf og dauða. Amen."

Jón bóndi hlýddi með mestu athygli á ræðu prests, allur efi hans og veikleiki hvarf eins og mjöll fyrir sólu, undir ræðunni. Það var eins og prestur hefði valið hvert orð til þess, að kippa sálarástandi hans í rétt horf, sýna honum villu þá, sem hann hefði vafið sig inn í, og sanna honum í embættisnafni, að þegar skoðað væri frá hinu eina sanna sjónarmiði, þá væri allur viðurgjörningur þeirra mæðgina hinn eini rétti, og fullur af kristilegum kærleik.

Hvernig gat Jón efast lengur? Og hann gjörði það heldur ekki. Það var eins og stóru bjargi væri létt frá brjósti hans. Alt sálarstríð hans var nú ekki orðið nema hugarburður. Hann rendi eitt augnablik augunum yfir framtíð sína: hann var sveitarstólpi, athvarf allra sannþurfandi manna, styrkur allra góðra fyrirtækja.

Jón var enginn söngmaður, en Gunnlaugur gamli í Botni var talinn bezti söngmaður. Þeir skiftu svo með sér verkum; Gunnlaugur söng

með prestinum, en Jón gjörði líkmannsverk Gunnlaugs.

Þegar hann bar líkkistuna út eftir kirkjugólfinu, fanst honum nýtt líf streyma um allar æðar sínar, eins og nýtt þrek og nýr styrkur væri runninn upp í brjósti hans.

Hann mokaði rösklega ofan í gröfina ; honum var svo létt um hjartarætur, að hann vildi vinna öll sín verk með dugnaði og samvizkusemi.

Svo var öllu lokið.

Anna frá Hrauni hvíldi í gröf sinni, fyrir líkn "hins ekta kristilega kærleika, sem hafði fylgt henni út yfir gröf og dauða."





# Hans vöggur.

---



ANS VÖGGUR hafði verið vatnskarl í Reykjavík nær því svo lengi, sem menn mundu eftir. Og jafnlengi hafði hann raulað sömu vísuna með sama vísnalaginu fyrir munni sér, þegar hann var búinn að pósta vatnið upp í föturnar sínar úr póstinum í Aðalstræti og var kominn af stað. Hann gekk raulandi upp alt strætið. Og hvar sem menn hittu Hans vögg á ferð með föturnar sínar, raulaði hann alt af með sama lagi þessa vísu:

"Vöggur karlinn vatnar borg,
Vögg þó flestir gleyma;
enga gleði, enga sorg
á hans líf að geyma."

Það er eigi gott að vita, hvort vísan var gjörð um Hans vögg eða hún var gamall húsgangur. Hitt var víst, að hún átti ósköp vel við Hans; hann var kallaður vöggur af því hann

vaggaði dálítið út á hliðarnar, kannske reyndar til að hvíla hendurnar á víxl undir vatnsfötunum, því hann var orðinn gamall og farinn.

Hans hafði aldrei verið fríður sýnum, jafnvel ekki í æsku sinni, og ekki fríkkaði hann með aldrinum, eins og að líkindum lætur. Nú var hann kominn yfir fimtugt, var langleitur, óliðlegur í vexti og orðinn lotinn í herðum, eins og flestir vatnskarlar verða af því að lúta alt af niður fyrir sig, til þess að gá að, hvort ekki hellist úr fötunum. Og með aldrinum var göngulag hans orðið hið sama, hvort hann hélt á vatnsfötum eða ekki; þegar hann gekk í kirkjuna á sunnudögum — en það gjörði hann altaf — þá gekk hann lotinn í herðum, álútur og hélt frá sér handleggjunum, eins og hann bæri vatnsfötur í báðum höndum.

Hans hafði verið rauðhærður í æsku, en nú var hárið orðið grátt og af því Hans var ekki vanur að greiða sér á hverjum degi, þá hékk hárið í hroknum rauðgráum druslum niður á ennið og niður fyrir augun. Miklum skeggvexti hafði Hans aldrei átt að fagna, enda rækti hann ekki skegg sitt mjög; vangaskegg hafði hann aldrei fengið, en á hökunni og efri vörinni héngu skeggtoppar, sem nú voru orðnir hvítir. Hans var vanur að klippa dálítið af þeim, þegar honum þóttu þeir vera orðnir of langir.

Hans gamli var annars einkennilegur að

mörgu leyti; hann átti aldrei ilt við nokkurn mann og lifði sáttur við allan heiminn, en þar með var líka alt sagt, sem hægt var að segja um sambúð hans við mennina. Hann hafði aldrei átt nokkurn vin eða trúnaðarmann, svo menn vissu og aldrei verið við ástir kendur.

Eiginlega tók enginn lifandi maður eftir Hans.

Vinnukonurnar í húsum þeim, sem Hans bar vatn til, skoðuðu Hans eins og nokkurs konar lægri veru, sem ekki væri orðum eyðandi við; þær köstuðu til hans matarbita eftir skipun húsmóðurinnar. Hans tók við, þakkaði fyrir og borðaði þegjandi. Húsbændurnir borguðu honum vatnsburðinn á vissum tímum. Svo var öllum hans viðskiftum við heiminn lokið — að undanteknum hestum og götustrákum.

Engum datt í hug, að vert væri að reyna til að kynnast honum, þekkja hann eða þýða burt klakann, sem frosinn var utan um þessa vatnskarlssál, eins og föturnar hans á vetrardegi. Nei, það datt engum í hug, sízt af öllum Hans sjálfum; vaninn var orðinn eðli hans. En hefði nokkur mátt líta inn í sál hans, mundi hann að líkindum hafa komist að raun um, að hún fyrir innan klakann var orðin eins krept af vatnsburðinum og hendurnar hans.

En hestarnir i Reykjavík vissu það betur en

allir menn, að þrátt fyrir allan vanans klaka var sálin hans Hans vöggs ekki orðin eins köld og hendurnar. Það er sorgleg sjón að sjá útigangshestana í Reykjavík á veturna; þeir hrekjast um fjöruna eða göturnar, skinhoraðir, þyrstir og athvarfslausir; enginn skiftir sér ið minsta af þeim, og enginn veit jafnvel hver á þá; í stormunum og byljunum hýma þeir nötrandi undir húsveggjunum eða láta fyrirberast á bersvæði, hálfdauðir úr sulti og kulda.

Þessa hesta tók Hans vöggur að sér; hann vatnaði þeim öllum, sem hann náði í, klappaði þeim og klóraði undir eyrunum og setti upp við þá langar hrókaræður, sem enginn skildi neitt í nema hann og þeir. Af þessu varð hann svo ástsæll í þeirra hóp, að þeir stundum fylgdu honum eftir flokkum saman um göturnar. Aldrei var Hans kátari eða ánægðari, en þegar svo bar undir. Hann raulaði þá vísuna sína nokkuð hærra, en venjulegt var, vaggaði dálítið meira út á hliðarnar og var brosleitur út undir eyru.

Líkt var farið sambúð hans við götustrákana. Það gekk sú saga um Hans, að þegar hann var nýorðinn vatnskarl, hefðu götustrákarnir farið að hrekkja hann og erta eins og hina vatnskarlana og vatnskerlingarnar. Þeir köstuðu í hann snjókúlum, heltu úr fötunum fyrir honum og kölluðu eftir honum ýms háðsyrði,

En Hans tók öllu þessu með mestu stillingu, og einu sinni, þegar ertingarnar og fúkyrðin keyrðu fram úr hófi, sagði hann við þá ofur rólega: "Þetta gjörir ekkert til, blessuð börnin þurfa að leika sér." Þó undarlegt kunni að virðast, sljákkaði í strákunum og smátt og smátt hættu þeir alveg að erta Hans gamla. Og eftir ekki all-langan tíma kom þar að, að það var skoðað sem hinn mesti ódrengskapur, að gjöra nokkuð á hluta hans.

Hitt kom oft fyrir, að hann væri tekinn til þess að koma sáttum eða stundarfriði á milli götustrákanna og hinna vatnskarlanna og vatnskerlinganna, og þó hann hefði enga amtmannsskipun til þess starfa, varð honum þó meira ágengt en flestum sáttanefndarmönnum mundi hafa orðið. — — —

Svo bar það til einn góðan veðurdag eftir nýárið, að Hans kom ekki með vatnið. Vinnukonurnar urðu að sækja vatnið þann daginn, þó þær væru ekki viljugar á það. Engum kom til hugar að fara heim til Hans. Hann var vanur að skila sér aftur, karlinn, undir eins og hann varð rólfær, þegar svo bar undir að hann dag og dag varð lasinn og gat ekki gegnt störfum sínum. Það datt kannske engum í hug, að Hans vöggur væri meðal þeirra, sem fyrirheitið er gefið: „Sjúkur var ég og þér vitjuðuð mín." Hans var

undantekning. Það þurfti ekki að vitja um Hans, hann var vanur að skila sér.

En þegar hann kom ekki í 3 daga, var næturvörðurinn sendur upp í kofann hjá Seli, sem Hans svaf í einn saman. Næturvörðurinn kom aftur og sagði að Hans væri — dauður. — —

Þessi fregn flaug um allan bæinn og það var ekki talað um annað en Hans og dauða hans. Allir fundu honum eitthvað til kosts. Hann var einstök fyrirmynd allra vatnskarla, dyggur, þögull og iðjusamur, og eftir því þakklátur fyrir alt, sem honum var gott gjört. Og allar ræður manna enduðu með því, að það mundi verða langt þangað til annar eins vatnskarl fengist. Konurnar, sem Hans bar vatn til — og meðal þeirra voru bæði frúr og maddömur — létu olíulampa brenna í kofanum hjá Hans meðan hann stóð uppi, og ein frúin gaf sálmabók til þess að leggja á brjóstið á honum.

Þar lá Hans á börunum í kofanum sínum, og um allan kofann ljómaði slík birta frá olíulampanum, að Hans mundi hafa vaknað frá dauðum af undrun, ef hann hefði mátt. Í lífinu hafði hann aldrei átt slíku að fagna. Og á brjósti hans lá sálmabókin logagylt; lifandi hefði enginn látið hann snerta svo fallega bók. Nú var Hans orðina hreinn og fínn — hann var dauður.

Hans lét ekki mikið eftir sig af þessa heims gæðum, og það urðu mestu vandræði með útförina. Menn fóru að tala um samskot, en úr því varð þó ekkert; enginn vildi byrja. Maddama Sigríður sagði, að það væri svo leiðinlegt að byrja við slík tækifæri, það væri eins og menn vildu troða sér fram með góðverkin sín; hún fyrir sitt leyti sagðist helzt vilja gjöra góðverk sín svo, að "hin vinstri sæi ekki það, sem hin hægri gjörði." Og vinkonur hennar, sem hún talaði um þetta við, sögðust hugsa alveg eins og hún í þessu efni.

Svo átti þá að grafa Hans á kostnað sveitarsjóðsins. Menn sögðu, að það væri líka í raun og veru eðlilegast, og þar við sat.

En svo fundust alt í einu peningar í kistli Hans karlsins, og þó þeir væru ekkert stórfé, þá voru þeir þó nægir til þess að gjöra útför hans heiðarlega og sómasamlega.

Seinna trúði maddama Anna vinkonum sínum fyrir því, að hún hefði haft peningana til útfararinnar til taks, en hefði að eins viljað láta "þá komast í dálítil vandræði, til þess svo alt í einu að reka á þá stampinn með peningunum." Hún bætti því við, að til þess hefði aldrei komið, fyrst peningarnir hefðu fundist hjá Hans. En vinkonur hennar sögðu hver eftir aðra, um leið og þær tæmdu þriðja kaffibollann hjá henni, að

það væri náttúrlega alveg hið sama sem hún hefði gjört það, og henni gat ekki betur fundist sjálfri en það væri nokkuð til í því. Maddama Sigríður, sem var ein af vinkonum hennar, sagði reyndar seinna, að það væri engin tilhæfa í því, að hún hefði ætlað fé til greftrunar Hans, og af því maddama Anna frétti það daginn eftir, að maddama Sigríður hafði sagt það, þá urðu þau ummæli orsök til þess, að þær drukku ekki kaffi hvor hjá annari í hálft annað ár.

Svo var Hans þá grafinn á sinn eigin kostnað. Jarðarförin var fjölmenn; honum fylgdu nær því allar frúr og maddömur í húsunum, sem hann hafði borið vatn til. Mörg kona viknaði, er hún mintist álúta karlsins með bognu handleggina, Og það var eigi trútt um, að tár rynnu yfir moldum Hans. Og þó sú tilfinning hjartans, er vekur tárin, sé eigi ætíð svo sterk, að hún nái að hreyfa hendurnar til fjárframlaga, þá eru þó tárin ávalt talin vottur viðkvæmni og blíðu, vottur þess, að mennirnir séu í raun og veru góðir, þrátt fyrir alt, sem skrifað er og talað móti því.

Þegar kom fram á vorið, trúði frú Guðlaug einni vinkonu sinni fyrir því, að hún ætlaði sér að leggja kranz á leiði Hans vöggs, vatnskarlsins síns sáluga. Daginn eftir var það altalað um allan bæinn, að frú Guðlaug hefði lagt tvo kranza á leiði Hans vöggs. Mönnum þótti það

mjög sennilegt; það var alkunnugt hvað hún frú Guðlaug var hjartagóð og raungóð, og menn mundu nú eftir mörgum sögum um örlæti hennar og góðmensku við fátæklinga.

En enginn fór upp í kirkjugarð til þess að gá að, hvort nokkur kranz væri kominn á leiði Hans vöggs.





# Uppreistin á Brekku.

---



BREKKU var óbundið einveldi, eins og á Rússlandi, og eins og stundum hefir verið á Rússlandi, var einveldið á Brekku nú í kvennlegg. Jón bóndi var tvíkvæntur; fyrri kona hans, sem hann hafði fengið Brekkuna með og margt af þessa heims gæðum, hét Anna og var sextug ekkja þegar hún hóf vinnumann sinn, Jón, upp í veldisstól sinn til að stýra með sér Brekkubúinu. Jón varð aldrei bóndi nema að nafninu til meðan Anna lifði, hún var eftir sem áður óbundinn einvaldur, og Jón var aldrei kallaður annað en "Jón, maðurinn hennar Önnu á Brekku."

Svo var það einn góðan veðurdag að Anna datt dauð niður, og Jón sat eftir með alt búið og einvöldin.

Nú skyldu menn ætla að Jón væri ánægður,

en það var langt frá því. Hann langaði til að giftast aftur, og hann hafði verið búinn að heita sér löngu áður en Anna dó, að ef svo færi að guð leysti hana héðan, þá skyldi hann strax giftast aftur, og þá skyldi hann fá sér konu, sem bæði væri ung og lagleg.

Þegar Anna var grafin, var fjöldi fólks við, og meðan staðið var yfir gröfinni, var Jón að renna augunum yfir hópinn og litast um eftir konuefni, en honum þótti satt að segja engin nógu lagleg af þeim, sem þar voru, því Jón var nú orðinn stórríkur maður og hafði þess vegna fylstu ástæðu til að vera nokkuð vandlátur.

Svo um vorið sá hann Sigríði, þegar hún var staðfest; hún var bláfátæk stúlka, ekki há vexti, en mjúkvaxin og limuð vel, augun dökkblá og hendur og fætur ósköp smá og falleg. Undir eins og Jón sá hana, hugsaði hann með sér, að annaðhvort skyldi hún eiga ríkan mann eða giftast ekki. Hún hefði séð nóg af fátæktinni og volæðinu í uppvexti sínum, auminginn.

Svo bað Jón hennar og það var ofboð auðsótt mál, og einum mánuði eftir að Jón hafði séð Sigríði í fyrsta sinn, giftust þau með mikilli dýrð, stórri veizlu og alemnnu fyllirfi.

Jóni þótti ósköp vænt um ungu og fallegu konuna sína, og hún gjörði honum alt til ánægju, en það fann hann fljótt, að hún vildi ráða nokk-

uð miklu, og leið ekki á löngu fyr en Sigríður var orðin einvöld á heimilinu, og Jón þorði ekkert að gjöra eða skipa, nema spyrja hana að því fyrst. Þetta vissu líka allir, og Sigríður var alment kölluð "Sigríður stórráða," og Jón var nú kallaður "Jón, maðurinn hennar Sigríðar stórráðu," og því nafni hélt hann til dauðadags.

Samt var Jón með sjálfum sér hvergi nærri ánægður með það svona. Honum þótti ósköp gott í staupinu og það var altaf viðkvæði hans þegar hann var fullur: "Ég er húsbóndi á mínu heimili," og þó bæði guð og menn vissu, að hann var það ekki, þá lét hann samt alt af þessa þulu ganga og bætti stundum ýmsum blótsyrðum við, til enn meiri áherzlu og staðfestingar.

Svo var það einu sinni, að Jón var staddur í kaupstað. Inni hjá kaupmanninum varð mönnum rætt um konuríki. Þar sat Jón líka og var að drekka púns með hinum. Hann sagði strax, að sá maður væri bæði raggeit og armingi, sem léti konuna sína ráða nokkuru á heimilinu. "Ég er húsbóndi á mínu heimli. Fari það í helvíti," bætti hann við um leið og hann drakk úr púnskollunni sinni í einu. Menn hlógu mikið að orðum Jóns, og það var ekki laust við, að sumir létu á sér skilja, að þeir efuðu orð hans. Jón skildi það ofboð vel, þó hann væri orðinn kendur og rauk strax upp, kallaði á Svein vinnumann

sinn, sem með honum var, og rauk af stað heim. Sveinn vinnumaður var laglegur unglingspiltur á heimili Jóns, og það var alment álit, að Sveinn mundi verða eftirmaður Jóns, hvað konu og bú snerti, á hverju sem menn hafa bygt það.

Jón reið í loftinu heim, svo Sveinn gat naumast fylgt honum; hann barði hælunum í síður Skjóna og lét svipuna altaf ríða á hann, ýmist að aftan eða framan, svo aumingja Skjóni fór á stökki; harðara gat hann ekki farið.

Þegar Jón kom heim, stökk hann strax inn í baðstofu, allur leirugur og forugur eftir ofsareiðina. Hann barði svipunni í borðið, kallaði á Sigríði stórráðu, konu sína, og skipaði henni að gefa sér hangikjöt að borða.

Sigríður tók öllu með mestu stillingu, horfði á hann og spurði hann bara, hvort hann væri vitlaus.

Þar með var það búið og Jón fékk ekkert að borða.

En Jón var ekki rólegur, hann æddi um allan bæinn, blótaði og ragnaði svo það var mesta mildi, að Brekka sökk ekki með öllu saman, og sagðist vera "húsbóndi á sínu heimili." Hann rak vinnumennina út til að slá, og vinnukonurnar barði hann og skipaði þeim að fara út að mjalta peninginn, en þá var komin hánótt.

Loksins tók Sveinn vinnumaður hann og

lagði hann upp í rúmið hans. Meðan Sveinn var að leggja hann til, sagði hann nokkuð óglögt: "Ég er húsbóndi á mínu" —Lengra komst hann ekki, svo hraut hann.

Þegar hann vaknaði morguninn eftir, stóð honum fjarska mikill stuggur af öllum ósköpunum um kvöldið, og satt að segja leið á löngu þangað til hann þorði að opna augun.

Hann heyrði einhvern umgang og þrusk í herberginu, sem hann svaf í, svo hann opnaði augun og leit upp. Sigríður stórráða stóð þar við fatakistu sína, og var að fara í sparifötin sín.

Þegar Jón var ókendur, var hann í raun og veru alt af hræddur við konu sína, en aldrei meir en þegar hún var í sparifötunum sínum. Þegar hún var í þeim, var hann satt að segja alt af á glóðum.

Jóni datt ekkert í hug hvers vegna konan sín var að búa sig, en það greip hann fjarskaleg hræðsla, óskiljanlegt ofboð, þegar hann sá hana steypa yfir sig nýja klæðispilsinu sínu.

Jón þorði ekkert að segja, því hann var hræddur um að hann mundi spilla fyrir sér með öllu þáss háttar.

Loksins sagði hann þó: "Ég keypti handa þér eitt pund af rúsínum, hjartað mitt, í gær í kaupstaðnum. Það er í treyjuvasanum mínum." Í raun réttri hafði hann keypt það til að gefa

vinnufólkinu það í minningu þess, að hann tæki við stjórninni á heimilinu.

Honum rann kalt vatn milli skinns og hörunds, þegar hann hugsaði um uppreistar fásinnuna kveldið áður.

"Það er gott, Jón," sagði Sigríður ofboð stutt.

Það var alveg eins og Jóni væri gefið utan undir, svo þótti honum svarið kuldalegt.

Hann var lengi að hugsa sig um eitthvað til að mýkja skap konu sinnar, loksins datt honum ráð í hug: "Ég pantaði í gær vöggu hjá honum Jóni snikkara, elskan mín."

"Vöggu?" sagði Sigríður.

"Ég finn það ósköp vel, hjartað mitt, að ég get fallið frá á hverri stundinni og ég var að hugsa, elskan mín, að guð mundi gefa það, að þú yrðir ekki lengi í ekkjustandinu, þess vegna pantaði ég vögguna, hjartað mitt.

"Það er gott, Jón." sagði Sigríður og þá var hún búin að búa sig og svo fór hún út.

Ekkert er eins ægilegt og það, sem maður veit ekki hvað er. Enginn maður hefir nokkuru sinni biðið með öllu meiri beyg en Jón bóndi í þetta sinn. Hann hafði enga hugmynd um, hvað konan sín ætlaði að gjöra, en honum var það ljóst, að það hlyti að vera eitthvað hræðilegt.

Hann velti sér á eina hliðina af annarri í

rúminu, og var að rifja upp fyrir sér ýmsar fallegar bænir, sem hann kunni.

Þegar fullar tvær klukkustundir voru liðnar, kom Sigríður aftur og séra Hannes, presturinn, með henni. Jón vissi þá strax hvað klukkan sló, og hann sá sinn kost vænstan þann, að gefast strax upp að fullu og öllu.

Presturinn setti honum fyrir sjónir, hvílíku ofboðslegu lífi hann lifði, að koma fullur heim, blóta og ragna og berja heimilisfólkið, og slást upp á konuna sína, og það slíka konu.

Jón sagði ekkert orð, nema lofaði bót og betrun, og sagðist allan morguninn hafa verið að biðja guð um kjark til að standast djöfulsins vélabrögð.

Svo kom vinnufólkið inn, og fór ókvatt og óbeðið að vitna móti Jóni. Það er gamla sagan, sem alt af endurtekst hjá stórveldum, smáþjóðum og vinnufólki, að enginn vill vera vinur hins fallna, en allir vilja vera vinir þess, sem sigurinn ber úr býtum.

Jón þagði eins og lamb, sem til slátrunar er leitt, við öllu þessu, en þegar Sigurður sonur hans, strákhnokki á 7. árinu, hljóp til prestsins og sagði: "Pabbi var svínfullur í gær," þá vöknaði honum um augun, aumingjanum í rúminu.

Svo fór presturinn og Sveinn vinnumaður kom inn að tala við húsfreyju. Jón sá að hún

lagði hendina ofurhlýtt og mjúkt ofan á handlegg hans, og augnaráð hennar sýndist honum hræðilega hlýlegt og ástúðlegt.

Hann gat ekki horft á þetta, og svo lét hann aftur augun og sneri sér upp í rúminu.

Svo heyrðist honum koma smel[illegible] eins og af kossi, eða einhverju þess háttar, en Jón hélt niðri í sér andanum, hélt augunum lokuðum og lézt sofa eða vera dauður. Svo fóru þau út, konan og Sveinn.

Þegar hann sagði frá þessari sögu seinna — en það gjörði hann aldrei nema kendur, og þó í hálfum hljóðum — þá sagði hann ætíð: "Þá sýndi ég mest sálarþrek á æfi minni, því ég er húsbóndi á mínu heimili, fari það í helvíti."

Jóni kom aldrei til hugar að brjótast til valda á Brekku eftir þetta. Þegar hann var fullur, sagði hann: "Ég er húsbóndi á mínu heimili," og þar við sat það, hann reyndi aldrei framar að verða það.

En þegar séra Hannes mintist á fyrirmyndar heimili og fyrirmyndar sambúð hjóna, þá nefndi hann ætíð Brekku og Brekkuhjónin; þar sagði hann að maður gæti séð sannarlega "eining andans í bandi friðarins."

(Eftir hdr. G. E.)





# Sveitasæla.

—



FRAM úr fjallgarðinum fyrir ofan héraðið teygði Hnúkurinn kolsvartan klettagarðinn og gnæfði yfir alla bygðina, kaldur og forneskjulegur.

Á undan stormum og hríðarbyljum söng og durdi í honum, öldungis eins og stormur og h[illegible] félagi við hann og þyrfti að hafa tal af honum á undan hverri árás, sem gjörð var á þessar fiugur þarna niðri í bygðinni.

Og á veturna fór ískaldur hrollur um alt, sem lífsanda dró í bygðinni, bæði menn og skepnur, þegar fór að dynja í Hnúknum; skepnurnar hlupu heim að húsunum og mennirnir flýttu sér að komast inn í bæina og lokuðu vandlega á eftir sér.

Því það leið aldrei á löngu þangað til ein-

hver óskö́pin dundu yfir. Ein hríðarstrokan eftir aðra þaut fram af Hnúknum, ofan yfir bygðina, og stormurinn þeytti náköldum hríðarflókunum á undan sér eins og leikfangi, hoppaði og sló hvað sem fyrir varð, slengdi kafaldsgusum framan í fjármennina, sem fyrir honum urðu, svo þeir sáu ekki sjón, þaut í eldhússtrompana á bæjunum, leitaði vandlega að öllum rifum og öllum smugum, til þess að senda dálitla stroku inn, laumaðist til að hlaða skafli fyrir allar bæjardyr, sem hann náði í, lengdi og afmyndaði hvert holt, hverja hæð og hverja þúfu, og slétti yfir allar lautir, og ef hann náði einhversstaðar í vatn, á eða bara vök, þá lék hann sér að því að espa og glettast, ýfa bárurnar og skvetta þeim í háa loft, og þegar leikurinn stóð sem hæst, strauk hann hvað eftir annað, með mesta gælubrag, ískaldur yfir vatnið, svo alt stirðnaði og varð að klaka.

En ef hríðarbylurinn hitti fyrir sér ferðamenn uppi á heiðunum, þá fór fyrst af gamanið; hann reif í þá og þjappaði að þeim, þangað til þeir voru orðnir örmagna; hann hlóð klaka að vitum þeirra, hratt og þeytti þeim á allar lundir, þangað til þeir hröktust langt frá veginum, og svo tókst honum oft að einangra þá á undan sér hæð af hæð, yfir lautir og vötn og ár, þangað til hann gat flæmt þá fram á hengiflug, svo þeir hröpuðu þar fram af ofan í einhver gljúfrin, og

stormurinn þaut yfir þá niður dalinn, lamdi fjöllin til beggja hliða og drundi við, eins og hann væri að hlæja tröllahlátur að forlögum þessara mannflugna þarna frammi í gljúfrunum.

Rétt fyrir neðan Hnúkinn stóð bærinn Hnúkur, annexía frá Stað, ein af stærstu og beztu jörðunum þar í héraðinu.

Sigurður Einarsson var húsmaður á Hnúki, og hafði verið svo nokkur ár.

Hann var maður um þrítugt og hafði margt tekið fyrir um dagana. Hann hafði verið í skóla tvö ár, en orðið svo að hætta vegna efnaskorts, þegar hann misti föður sinn; svo var hann við verzlun eitt ár og loksins sigldi hann til Kaupmannahafnar, var þar þrjú ár og ætlaði að læra gullsmíði, en varð líka að hætta þar áður en hann hafði lokið námi sínu, vegna brjóstveiki, og fara heim til Íslands.

Svo settist hann að á Hnúki, en lítið varð um gullsmíðar og lagði hann þær bráðum alveg frá sér, hann fór í kaupavinnu á sumrin, reri út á vetrum og sat þess á milli heima.

Sigurður var heljarmenni til burða, hár vexti og þrekinn eftir því, fríður sýnum og þó karlmannlegur. Það var altalað, að stúlkunum litist vel á hann, enda var hann hinn efnilegasti maður, en það sem ekki gjörði minst til í því efni, var, að hann var bæði sigldur maður og

gekk á frakka, þegar mikið skyldi við hafa. Þar í héraðinu gekk heldur enginn á frakka fyrir utan hann, nema sýslumaðurinn, presturinn og lækn-irinn.

Sigurður var boðinn í hverja veizlu í héraðinu,og var sjálfkjörinn frammistöðumaður í þeim öllum. Hann var líka bezti söngmaður og þótti ætíð skemtilegasti maður, hvar sem hann var kominn. Þegar búið var að borða í veizlunum, fékk Sigurður ætíð kvennfólkið með sér til að syngja, og með lægni og lipurð tókst honum að fá það til að drekka dálítið af púnsi með sér, því hann sagði, að það bætti svo mikið röddina. Og þegar svo fór að líða á kveldið og menn fóru að verða ölvaðir, þá fór Sigurður að hverfa burt úr veizlusalnum stund og stund, og af því að Sigurður hvarf aldrei einn saman, þá varð mönnum harla tíðrætt um veizluferðir hans í héraðinu.

Svo var það einu sinni í einni veizlunni, að Sigurð vantaði þegar átti að fara að syngja og skemta sér, eftir að staðið var upp frá borðum, og þegar svo átti að fá Sigrúnu, einberni hans Sveins ríka í Hvammi, til að standa fyrir söngnum, því hún var mesta söngpípan í sveitinni, þá fanst hún hvergi heldur.

Og það gekk ekki orðalaust af í sveitinni.

Gömlu konurnar sögðu, að svo væri guði fyrir að þakka, að hún Gunna sín eða hún Sigga

sín hefði aldrei orðið sér til opinberrar háðungar; þær stæðu heldur ekki til að erfa allan Hvammsauðinn. En ungu stúlkurnar ógiftu sögðu, að Sigurður væri nú eins og hann væri; hann væri líka karlmaður. En um Sigrúnu sögðu þær, að þær gætu ekki skilið í, að nokkur kvennmaður með óspiltu mannorði gæti framar setið á bekk með henni í veizlu.

En sá sem var reiðastur og sárastur af öllum við söguna, var Sveinn gamli ríki á Hrauni. Hann barði hnefanum í stofuborðið, svo að gamla brennivínsstaupið, sem staðið hafði óáreitt á sama stað á borðinu í mörg ár, dansaði í háa loft, féll um koll, rann ofan á gólf og brotnaði í mél.

"Óráðsíu-flækings-kindar-skömmin," sagði hann; en svo varð ekki ræðan lengri, því Sigrún dóttir hans lagði báða handleggina um háls honum, horfði alvarlega framan í hann og sagði:

"Ég er trúlofuð Sigurði, og kjóstu nú um tvent, faðir minn, annaðhvort gefur þú samþykki þitt til þess í dag, eða ég flyt til hans á morgun og kem hingað aldrei aftur. Ég segi þér satt, að Sigurður leggur það af, sem að honum kann að hafa verið. Hann hefir lofað mér því, og hann efnir það sem hann lofar mér."

Sveinn einblíndi á dóttur sína og kom ekki upp nokkuru orði. Hann þekti hana of vel til

þess að sjá ekki fljótt, að henni var full alvara. Svo stundi Sveinn gamli þungan, gekk til rekkju og lá rúmfastur í tvo daga, og þegar hann kom á flakk aftur, sendi hann boð eftir Sigurði og þau Sigrún trúlofuðust hátíðlega heima í Hvammi, en heldur var Sveinn gamli þur á manninn við tengdason sinn tilvonandi.

Um næstu sveit gekk um þessar mundir megn taugaveiki. Sigurður átti systur, sem var gift bláfátækum bónda þar í sveitinni. Þau hjón dóu nú bæði úr þessari sótt, og var skamt á milli þeirra. Alt, sem þau létu eftir sig, var lítið og fátæklegt bú, sem tæplega var fyrir skuldum, og svo tvö börn, stúlku á 5. ári og pilt á 3. ári, vanheilan og með öllu máttlausan í fótunum. Fyrir þessum börnum lá nú ekkert annað en sveitin.

Sigurður var bæði ættrækinn og stórlyndur og gat ekki af því vitað, að börn systur sinnar færu á hreppinn. Svo tók hann bæði börnin með sér, þegar hann fór frá greftrun hennar, og sagði hreppstjóranum þar í sveitinni, að hann þyrfti ekki að hugsa þeim börnum fyrir samastað framar. Hann fór með börnin heim til sín og hafði þau hjá sér á Hnúki.

Hann hafði hvorki haft tíma né tækifæri til að ráðfæra sig við Sigrúnu né tengdaföður sinn tilvonandi, enda var hann maður einbeittur og

hélt því fast fram, sem hann einu sinni hafði tekið sér fyrir hendur.

En þegar Sveinn gamli heyrði þessa sögu, ætlaði hann alveg að ganga af göflunum. Hann gekk að dóttur sinni og spurði hana að, hvort þau Sigurður ætluðu að smala saman öllum sveitarlimum af öllu landinu, til þess að koma fyrir þessum litlu reitum, sem hann léti eftir sig. Hann beið ekki eftir neinu svari, stökk burt, æddi fram og aftur, ýmist úti eða inni, talaði ekki orð við nokkurn mann og bragðaði ekki mat. Og um kveldið fékk hann snert af slagi, svo strax var brugðið við eftir lækninum, sem bjó þar skamt frá. Þegar læknirinn svo var búinn að skoða gamla manninn, tók hann Sigrúnu á eintal. Það fékk aldrei neinn að vita hvað þeim fór á milli, en það var almanna mál, að hann hefði sagt henni, að ef hún léti ekki undan karlinum, þá yrði það hans bani.

Fám dögum síðar var það alkunnugt um alla sveitina, að Sigrún í Hvammi hefði sagt Sigurði upp, og um leið var þess getið, að Sveinn gamli væri kominn á fætur, orðinn allhress og á bezta batavegi.

Sigurður var ekki nefndur á nafn. Enginn maður vissi, hvað honum bjó innan brjósts. Á honum var ekkert að sjá, nema hvað hann varð smátt og smátt langtum alvarlegri en áður, af-

skiftaminni af flestum málum og einhvern veginn þungbúnari. Þessum tveimur systurbörnum sínum var hann bæði faðir og móðir, og vann baki brotnu fyrir þeim og sér.

Svo leit út sem hann og Sigrún forðuðust að hittast, og ef svo bar við einstöku sinnum, að þau sáust við kirkju eða annarsstaðar, þá töluðu þau aldrei orð saman.

Svo liðu nokkur misseri.

Presturinn þar í sóknunum var farinn að eldast og þreytast og tók sér aðstoðarprest, ungan mann og hinn efnilegasta.

Brátt fór það að kvisast um sveitina, að aðstoðarpresturinn kæmi all-oft að Hvammi, langtum oftar en embættisstörf hans strangt tekið heimtuðu, og var strax smíðuð úr því trúlofun, bónorð eða eitthvað í þá áttina.

Þar varð líka ljósið úr,

Það fara engar sögur af því, hvort mótspyrnan hjá Sigrúnu varð löng eða skömm, nokkur eða engin, en endirinn varð sá, að einn góðan veðurdag eitt vor, um Jónsmessuleytið, var kirkjuklukkunum á Hnúki hringt til hjónavígslu Sigrúnar og aðstoðarprestsins.

Þann dag hafði Sigurður farið snemma burt frá bænum og í vegavinnu uppi undir Hnúknum; hann velti einu heljarbjarginu eftir annað úr skriðunum ofan í mýrina, sem brúa átti, og það

leit nærri því út, eins og hann gengi berserksgang til þess að gleyma því, sem hann vildi sízt hugsa um.

En svo var farið að hringja kirkjuklukkunum á Hnúki til hjónavígslunnar.

Við fyrsta klukknahljóðið stóð Sigurður grafkyr. Hann leit snöggvast í kring um sig, eins og hann væri orðinn einhvern veginn utan við sig. Svo settist hann niður og sat svo aðgjörðalaus, án þess að vita nokkura ögn hvað tímanum liði, og einblíndi alt af á sömu grastóna í skriðunni.

Hann var þó búinn að marghugsa þetta alt, svo það kom honum svo sem ekki að óvörum. Hann hafði dag eftir dag og vökunótt eftir vökunótt hugsað og hugsað, reiknað og reiknað sama reikningsdæmið, reikningsdæmi lífs síns og — það, sem út kom, var alt af hið sama. Hann þurfti ekki lengur að vera að velta því fyrir sér. Hann var fyrir löngu búinn að gjöra sér það fulljóst, að hann hafði fyrir fult og alt kvatt þá sælu, sem hann hafði vonast eftir að hljóta og njóta í lífinu. En að hinu leytinu hafði hann líka hvað eftir annað talið sér trú um, að þó sér fyndist þetta sárt í bili, þá mundi tíminn jafna alt, og þegar lengra liði frá, þá hefði hann langtum meiri ánægju af börnum systur sinnar og meðvitundinni um, hvað mikið hann hefði lagt í

sölurnar fyrir þau, en af ástarsælu þeirri, sem hann hafði hugsað sér og sem hefði getað orðið harla skammvinn.

Var ekki, þegar á alt var litið, meðvitundin um að hafa gjört skyldu sína, hin eina sanna ánægja, sem lífið á til?

En — var það skylda hans að fórna svo að segja öllu lífi sínu fyrir þessi börn? Og var hann viss um, að hann ynni lífi þeirra verulegt gagn með því, og sannfærður um, að hann gæti beint lífi þeirra í réttari og gagnsamari stefnu, en annars hefði orðið? Eða átti hann í raun og veru rétt á þessu? Átti hann rétt á að binda þeirra forlög við sín og sín við þeirra? Þau voru þó ekki hans börn.

Og inst í huga hans kviknaði efi um, hvort hann hefði breytt rétt við sjálfan sig og börnin.

Ein hugsunin tók við af annari, og allar voru þær hrímkaldar og blýþungar.

Og alt af sat hann agndofa á sama stað og einblíndi á sömu grastóna.

En svo fór að smárigna. Einn dropinn eftir annan datt ofan yfir hann, á hendur hans og hár, og þegar hann leit upp, hrundu þeir hressandi og svalandi beint í andlit honum.

Svo stóð hann upp og sá að komið var fram á nótt. Hann gekk heim seinlega, því hann hafði aldrei nokkuru sinni á æfinni verið eins

þreyttur, og hann einsetti sér framvegis að hugsa minna, en vinna meira en þann dag.

Það var komið lágnætti og vorkyrðin hvíldi hlýleg og mild yfir bygðinni.

En Hnúkurinn teygði sig fram yfir héraðið, dökkblár eftir skúrina. Eins og gamall og forvitinn jötunhaus gægðist hann yfir bygðina, grafkyr, eins og hann væri öldungis hissa á öllu þessu bjástri og bisi fyrir neðan sig.

Á meðan hann stóð þarna á sama stað, hafði ein kynslóðin eftir aðra verið að stríða og streitast þarna niðri í bygðinni, elskast og hatast, gleðjast og syrgja, halda brúðkaup og erfisdrykkjur, og alt af var endirinn á öllu þessu sá sami. Gömlu kynslóðirnar slokknuðu út og hurfu, og nýju kynslóðirnar sveittust og þreyttust öldungis eins. Munurinn var enginn og endirinn alt af hinn sami.

Öld kom eftir öld og allar stóðu þær lengi við niðri í bygðinni, sundruðu og umturnuðu öllu héraðinu og öllu í héraðinu, en fram hjá Hnúknum þutu þær allar eins og eitt einasta augnablik.



# Lífið í Reykjavík.

---

## I.

ÞAÐ er merkilegur bær, sem við búum í, ekki einungis vegna þess, að hann er langfjölmennasti kaupstaðurinn á landinu, heldur miklu fremur vegna hins, hvað hann er þýðingarmikill fyrir alt landið og alla þjóðina. Hér situr flest það, sem göfugast er og lærðast á þessu landi, og hér eru allar helztu mentunar- og menningarstofnanir þjóðarinnar saman komnar á einn stað.

Hér sitja allir æðstu embættismenn landsins í einni hvirfingu, nærri því eins og goðin í Valhöll; hér búa þeir sér til nokkurs konar Hliðskjálf úr öllum þessum aragrúa af skýrslum, skjölum og skilríkjum, sem embættismennirnir úti um landið "undirgefnast" senda hingað, og þaðan geta þeir séð, svo gott sem með eigin augum, öll kjör og allan hag landsins barna, sem liggur þeim svo þungt á hjarta, og allar þeirra

andlegu og líkamlegu þarfir; og frá þeim fljúga svo aftur embættisbréfin í hrönnum, stór og tíguleg eins og álftahamir, út um alt þetta land, flytjandi með sér réttlætið eins og fis, til yztu andnesja og instu afdala, nema þau verði úti uppi á fjöllum, fari í ár á leiðinni, eða — verði póstinum sjálfum að bráð, ef það skyldu vera í þeim peningar. Hér er líka prestaskólinn, sá elzti og alkunnasti af hinum æðri skólum hér á landi; líknsamur og miskunnarríkur, eins og sennilegt er um slíka stofnun, breiðir hann opinn föðurfaðminn móti öllu því, sem stúdentsnafni nefnist, án nokkurs snefils af manngreinaráliti, og verði einhverjum fótaskortur á hinu ofboð mannúðlega fullkomnunarlögmáli þar, eða fari eitthvað aflaga hjá einhverjum, þá á prestaskólinn til fyrirgefningar-voð, mikka og breiða, sem leggur sig sjálfkrafa utan um alt þess konar. Og þegar svo þessir nemendur með tveggja ára veru sinni á prestaskólanum eru búnir að sanna bæði sjálfum sér og höfuðstaðnum, hvað það sé hægt og hvað það sé indælt, að sigra þetta, sem kallað sé hold, með andanum, þá dreifa þeir sér eins og salt, sálnasalt, út um alt land til uppbyggingar. — Hér er líka læknaskólinn, sem sendir þjóðinni sína heilbrigðis-postula, lækna og aukalækna, til þess að lengja æfidaga manna og létta sjúkdómsþrautum af lýðnum — annað hvort með

lífi eða dauða; þeim skóla fylgir sú þjóðtrú, að þar muni enginn fara halloka við próf, sjálfsagt af því, að þangað veljist ekki nema sérstakir gáfu- og eljumenn. — Hér er líka latínuskólinn með öllum skólapiltunum úr öllum héruðum landsins, sem sitja þar í auðmýkt og lítillæti eins og börn, þó þeir séu "gentlemen" á götunum í höfuðstaðnum og stórhöfðingjar þegar komið er upp í sveit. Þar geyma þeir innan fjögurra veggja allar sínar eldheitu mánaðarvináttur og viku-ástarskot og þar eru þeir á alls konar stærð, alt frá einni alin og kvartili upp að þremur álnum, og með alls konar andlegu atgervi, alt frá skyni á við greindan uxa upp að "geníi", því það eru alt af "gení" í skóla — í ímyndun skólapilta. — Hér er kvennaskólinn, sem margir helztu menn í sveitunum senda dætur sínar á, til að mentast þar og — lofast, ef lukkan er með. Þar gengur öll stjórn og yfirstjórn í kvennlegg og samkomulaginu milli forstöðukonunnar og stjórnarnefndarinnar hefir lengi verið við brugðið sem því heitasta af því tagi, sem til er hér á landi. — Hér er líka landsbankinn, sem allir þeir renna hýru hornauga til, sem eiga einhverja fasteign óveðsetta, en slíkum mönnum er nú alt af að fækka.

Þegar á alt þetta er litið, þá er það svo sem engin furða, þó alþýðan hér á landi líti með

nokkurs konar drauma-fanginni lotningu til Reykjavíkur og hugsi í raun og veru með öfund til allra þeirra, sem forsjónin hefir veitt þá náð, að fá að ala aldur sinn í höfuðstaðnum og mega njóta allrar dýrðarinnar og sælunnar þar.

Þegar ég hugsa um skoðun alþýðu manna á höfuðstaðnum okkar, þá dettur mér ætíð í hug bóndinn í sveitinni minni, sem tók sér einu sinni í æsku minni ferð á hendur til Reykjavíkur. Þegar hann svo kom heim aftur, þá fór hann um alla sveitina og kom við á hverjum bæ, til þess að segja frá öllum þeim kynjum og fádæmum, sem hann sá og heyrði í Reykjavík. Hann endurtók allar sögur sínar hvað eftir annað, en allar enduðu þær á sömu setningunni: "En dýrðlegast af öllu var þó að koma út, þegar dimt var orðið, og líta yfir allan þann sæg af húsum, upp-ljómaðan af óteljandi ljósagrúa; það var alveg eins yfir að líta og alstirndan himin; þeirri sjón gleymi ég ekki meðan ég lifi." Og hann gjörði það heldur ekki. Þessi alstirndi Reykjavíkur-himinn varð hans forlaganorn, sem heillaði hann með undursamlegum fegurðar-seið og togaði hann til sín, nauðugan viljugan, með óumræði-legum lukku-vonum. Hann festi ekkert yndi eftir þetta í sveitinni. Um vorið seldi hann jörðina, sem hann bjó vel á og átti, allan sinn fénað og alt annað, sem hann gat við sig losað,

og fluttist svo til Reykjavíkur með konu og börnum. En eftir tvö ár hrapaði hann niður af sínum alstirnda himni, ekki með hóp af englum með sér, eins og Lucifer gamli, svo hann gæti stofnað stórt og voldugt ríki. Nei, hann var bara sendur blátt áfram hreppaflutning, félaus og klæðlítill, með alt skyldulið sitt, heim á sína sveit.

## II.

Fimm eru mannflokkar í Reykjavík, sem greina sig stranglega hver frá öðrum ; þeir eru: embættismenn, kaupmenn, námsmenn, iðnaðarmenn og sjómenn. Sjómannaflokkurinn er fjölmennastur og minst virður, embættismannaflokkurinn er fámennastur og mest virður.

Að því er nú snertir embættismenn hér yfir höfuð, má með sanni segja, að meiri hlutinn af þeim gegni embættum sínum með alúð, þó hæfileikarnir séu eðlilega harla misjafnir, og einstaka embættismaður hér kann að skara fram úr öðrum embættismönnum hér á landi. Að vísu eru líka fáeinir, sem eru svo illa lagaðir fyrir embætti þau, sem þeir eru skipaðir í, að langtum betur færi á, að embættin stæðu óskipuð. En einn er aðal gallinn á mörgum embættismönnum hér, og hann er sá, að þeir verða einhvernveginn svo alveg samvaxnir sínum embættum og heim-

ilum, að þeir geta nærri því ekkert séð, sem þar er fyrir utan; heimilið og embættið verða að nokkurskonar skjaldbökuskel, sem vex yfir höfuð embættismanninum, nær niður á tær og tekur frá honum alla útsjón. Og verði honum það á einhvern tíma í ógáti, að reka höfuðið út undan skjaldbökuskelinni, þá hættir honum við að misskilja flest, sem fyrir augun ber. Menn gætu nú ætlað, að embættið græddi á því, að maður, sem á að gegna því, gengi svona alveg upp í því. En því fer fjarri. Sérhver embættismaður er því færari að gegna embætti sínu, hvert sem embættið er, því fjölbreyttari og stærri sem sjóndeildarhringur hans er. Öll óeðlileg takmörkun á sjóndeildarhringnum dregur úr manngildi hvers manns, og þar með úr embættismannsgildi hans líka. Þessi embættisskel, sem liggur yfir svo margan mann, sem lengi er búinn að sitja hér í embætti, er að miklu leyti að kenna bæjarbrag og landsháttum. Samkvæmt bæjarbragnum umgengst hann einungis fáeina stallbræður sína, og landsháttum hér er svo farið, að hann getur ekki nema með ærnum kostnaði, sem hann oft og tíðum er ekki fær um, ferðast um landið, og því síður til útlanda. Þetta gjörir hann ókunnan breytingum og framförum í öðrum löndum, sem mentunin stafar frá, og ókunnan sínu eigin landi, sem hann á að vinna fyrir. Fæstir em-

bættismenn hér rita líka nokkuð fyrir alþýðu landsins, og þannig eru allar samgöngur teptar, bæði andlegar og líkamlegar, milli embættismannanna hér og alþýðunnar á Íslandi. Afleiðingarnar eru öllum augljósar: Fyrir alþýðu hér á landi stendur embættismannaflokkurinn í höfuðstaðnum eins og einhverjar æðri og lukkulegri verur en önnur landsins börn, sem hafi peninga eins og sand og lifi daglega í "vellystingum praktuglega." Og fyrir embættismannaflokknum hér stendur alþýðan eins og andvígur, óvitur og fjandsamlegur flokkur, sem sjái eftir hverjum eyri handa embættismönnunum og vildi helzt afnema flest eða öll þeirra embætti.

Kaupmannastétt þessa lands hefir lengi verið við brugðið fyrir það, að hún stæði að mörgu leyti á baki þess kyns stéttum í öðrum löndum. Sá orðrómur er sjálfsagt á fullum rökum bygður, og kaupmannastéttin í höfuðstaðnum er engin undantekning frá kaupmannastéttinni annarsstaðar hér á landi. Eins og kunnugt er, eru kaupmannastéttir erlendis alment ágætlega mentaðar, og það þykir prýði hvers lands, að hafa sem bezt mentaða verzlunarstétt. Hér er ekki spurt um mentun, heldur um nurlara-náttúrufar, og vel mentaðir kaupmenn eru undantekning, jafnvel í höfuðstaðnum eins og annarsstaðar á Íslandi. Erlendis leggja kaupmenn tugum sam-

an miljónir til stórfyrirtækja þjóðanna. Hér er ekkert í þá átt nefnt á nafn. Erlendis eru það kaupmannastéttirnar, sem efla og auka á allan hátt samgöngur, bæði á sjó og landi, bæði innan lands og utan. Hér hefir kaupmannastéttin frá öndverðu verið andvíg öllum samgöngumálum landsins. Erlendis þykir flestum þeim kaupmönnum, sem auðugastir eru, mestur sóminn í því, að reisa sér einhvern þann minnisvarða til almenningsheilla, sem haldi nafni þeirra sem lengst á lofti. Hér er alt minna um þess háttar. Fyrir all-mörgum árum gáfu fáeinir útlendir kaupmenn hér þessum bæ bæði barnaskóla og spítala; nú láta kaupmenn flestir sér nægja, að láta bara fátækra-útsvarið af hendi rakna, þó sjaldnast umtölulaust. Flestir kaupmenn hér í bæ, sem auðugastir eru, eru útlendir menn, sem búa erlendis og skoða þetta land sem hjáleigu, sem þeir eigi að hafa sem mest not af og kosta sem minstu til. Erlendis telja kaupmenn það skyldu sína og yndi sitt, að auka verksvið sitt á allan hátt, finna nýjar vörur, nýjar aðferðir til vöruverkana og nýja markaði; aðalreglan er sú, að reyna til að bæta í öllum greinum alt, sem þeir hafa með höndum og gjöra það fullkomnara, og þó um leið ódýrara. Hér er aðalreglan sú, að halda öllu í gamla horfinu, hafa sömu vörurnar með sama verkunarlagi og helzt með sama

verði. Einu fullkomnunar-tilraunir, sem gjörðar eru hér í höfuðstaðnum, eru helzt einstöku verzlunarhnykkir, sem sagt er að þeir temji sér helzt, sem ekki hafa verið við verzlun alla sína æfi, eins og t. d. smágaldrar við mæli og vigt og annað þess kyns, sem getur bætt hag kaupmannsins, án þess að vöruverðið breytist á nokkurn hátt.

Þegar litið er á tölu bæjarbúa og tölu námsmanna hér í bæ, þá eru fáir bæir í Evrópu, sem standa Reykjavík framar að tiltölulegum námsmannafjölda. Þetta viðurkenna líka útlendingar, sem hingað koma. Útlendingur, sem hér var í vor, var spurður að, hvað honum þætti einkennilegast við þennan bæ. Hann var fljótur til svars og sagði: "Skólapiltar og hanar. — Ég geng aldrei svo tvo faðma á götunni, að ég mæti ekki skólapilti, og varla nokkurn tíma svo fram hjá nokkuru húsi, að ég heyri ekki hana gala þar." En allur þessi námsmannafjöldi hefir svo sem engin áhrif á bæjarlífið hér. Skólapiltar eru, eins og vonlegt er, bundnir við latínuskólann. Og um stúdenta er það fyrst að segja, að allir þeir sem geta, og flestir þeir sem atkvæðamestir og efnilegastir eru, sigla til háskólans í Kaupmannahöfn, og siglingar til Hafnar eru hin síðustu árin altaf að fara í vöxt. Þeir, sem hér verða eftir, eru þess vegna í raun og veru — ég

vil ekki segja botnskánin, en — lakari hlutinn af íslenzkum stúdentum, þó undantekningar séu eðlilega til. Og svo er annað, að hér getur ekki verið að ræða um stúdentalíf í evrópeiskum skilningi. Námstíminn er svo stuttur, að kandídatarnir eru bara stálpaðir skólapiltar, þegar þeir fara í embættin. Bærinn er líka svo lítill og sársnauður að öllum almennum mentunarmeðölum, að mentunin eða réttara sagt mentunarskorturinn er hinn sami, hvort sem árin eru fleiri eða færri. Auðvitað er hér töluvert af bókum, og til eru þeir íslenzkir námsmenn ungir, sem lesa mikið, en bækurnar eru ekki einhlítar til þess að menta æskumanninn. Til þess þarf hann að hafa breytilegt og stórkostlegt líf fyrir augum. Til þess þarf hann að kynna sér listir heimsmentunarinnar í skáldskap, í söng, í leikment, í myndum og smíðum. Og til þess þarf hann fyrst og fremst að umgangast mentaða menn; hvort þeir eru skólagengnir eða ekki, ríður minna á. En eitt er það, sem stúdentum og skólapiltum hér er lagið fult eins vel og samskonar ungmennum annarsstaðar í heiminum, og það er að líta með hroka niður á alla þá, sem ekki eru skólagengnir. Og þessi hroki er hér hlægilegri en allsstaðar annarsstaðar, einmitt af því, að munurinn á mentunarástandi þeirra, sem

ganga á skóla hér, og þeirra, sem ekki gjöra það, er svo sára-, sáralítill.

Iðnaðarmannaflokkurinn hér er eflaust sú rólegasta iðnaðarmannastétt, sem til er í nokkurum höfuðstað undir sólinni. Erlendis eru þessir iðnaðarmenn alt af að hugsa um stjórnarbyltingar og alt af að gjöra samtök og "skrúfur." Svo er forsjóninni fyrir að þakka, að hér er enginn byltingahugur í mönnum. Iðnaðarmenn hér forðast öll samtök til að bæta hag sinn, eins og heitan eldinn. Þó leitað væri um víða veröld með logandi blysi, þá mundi ekki nokkursstaðar finnast stétt, sem er eins fjarri því í öllu, að vera samtaka, eins og iðnaðarmennirnir í Reykjavík. Hver reynir af fremsta megni að skara eld að sinni köku og um leið — frá náungans köku. Hver baukar sér og hver sveltur sér, ef til kemur. Í einu geta þeir þó orðið samtaka, óafvitandi, og það er að reyna til að toga skóinn niður af einhverjum stéttarbróður, sem þeim þykir vegna betur en sjálfum sér, og níða hann — í laumi náttúrlega. Það er ofboð algengt hjá iðnaðarmönnum, þegar einhver þeirra þykir skara fram úr öðrum að velgengni, að óteljandi huldar höndur vefa einhvern köngurlóarvef af dylgjum um öll hans störf og alt hans ráð. En langflestir iðnaðarmenn eiga bátt, og sumir enda framúrskarandi bátt, enda er það ekki að undra,

þar sem hér hefir verið hið mesta atvinnuleysi fyrir iðnaðarmenn í mörg ár, og þeim hefir þó alt af verið að fjölga. Og þó er eins og engum detti í hug, að eina ráðið er, að taka höndum saman og reyna til að bjarga sér með félagsskap. Þess má geta, að síðasta árið hefir myndast skósmiðafélag; hugsunin er góð og tilraunin gæti komið að miklu liði, ef vel væri, en það á svo sem ekki að ganga slysalaust. Nú er einn skósmiður farinn að auglýsa, að hann sé alls ekki bundinn við söluverð í félaginu, og það eru enda mikil líkindi til, að honum takist að sliga félagið og ef til vill ríða því að fullu, ef margir snúa á sömu leið og hann.

Sjómennirnir hér eru engir eftirbátar iðnaðarmannanna í samtakaleysinu. Það er meira að segja sannreynt, að það er lítt vinnandi vegur, að fá þá til að bindast samtökum til þess að tryggja dálítið líf sitt og gjöra atvinnuveg sinn svolítið hættuminni með því að hafa með sér kjölfestupoka og bárufleyg. En þeir hafa annað þýðingarmikið atriði fram yfir iðnaðarmennina, og það er mikil ræktarsemi til stéttarbræðra sinna. Eitt, sem alment lýtir svo mikið líf sjómanna hér, eru búðarstöðurnar, sem koma einkum af því, að sjómenn eru margir svo að segja heimilislausir og hafa engan almennan samkomustað. Hvern einasta dag, helzt almenna land-

legu-daga, fyllast eða hálffyllast búðir kaupmanna af iðjulausum mönnum, helzt sjómönnum; þeir troða sér stundum svo í búðardyrnar, að þar verður hvorki komist út né inn, raða sér fram með veggjunum, nærri því eins og þeir væru bundnir á streng, eða breiða bolhlutina af sjálfum sér út á búðarborðið eins og hangikrof. Sumir eru að staldra við til þess að vita, hvort enginn af kunningjunum komi, svo stofnað verði 5- eða 10-aura hlutafélag til þess að kaupa eina brennivínsflösku; en venjulegast er erindið ekkert í búðirnar. Þessar búðarstöður eru nú reyndar töluvert farnar að minka, síðan hætt var staupagjöfum í búðunum, en þær eru enn alt of tíðar og alt of miklar. Það er öllum ljóst, hvílíkt iðjuleysi slíkt hefir í för með sér. En þegar rétt er að gáð, þá er iðjuleysið ekki versta afleiðingin af búðarstöðunum. Hugsunarhátturinn, sem af þeim flýtur, er langtum verri. Þessar auðmýktarsetur í búðunum eru lítt fallnar til þess, að innræta sjómönnum, að kaupmenn og sjómenn séu tvær stéttir, sem séu jafn-nauðsynlegar hvor fyrir aðra og sem standi að miklu leyti jafnfætis, þó önnur gangi í frakka en hin í skinnstakk. Búðarstöðurnar gjöra einmitt hið gagnstæða. Þær sýna sjómönnunum daglega kaupmanninn í allri sinni tign og sjálfa þá í allri þeirra undirgefni. Þær eru eitur fyrir alt stéttar-

göfgi sjómannanna, en gróðrarstía fyrir húsgangsandann. En þrátt fyrir alt þetta get ég ekki neitað því, að af öllum stéttum hér í bænum, er mér lang-hlýjast í hug til sjómannanna; getur verið, að það sé að nokkuru leyti af því, að ég þekki þá minst persónulega; það fellur enginn skuggi af einstaklingunum á þá stéttarhugmynd, sem ég gjöri mér af sjómönnunum. En auk þess hafa þeir líka einn aðalkost fram yfir allar aðrar stéttir; þeir standa langnæst náttúrunni. Sjómennirnir eiga meira af óveikluðum náttúruköftum heldur en allar aðrar stéttir hér í bæ til samans. Þeir eru eins og kjarngott og kostamikið land, lítt yrkt, en líka lítt spilt af mannahöndum. Og þessi eilífa barátta við hafið, hið voldugasta og fegursta af öllu, sem til er á þessari jörð, gefur sjómönnunum meira þolgæði en flestum öðrum mönnum og gjörir þeirra líf alveg samvaxið náttúrunni. Hver bára, sem rís á sjónum, hver stormhvinur, sem þýtur um, talar máli, sem þeir skilja og hefir sérstaka þýðingu fyrir þá. Og við þetta bætist svo daglegur lífsháski, sem leggur yfir þeirra æfi einhvern þunglyndisblæ af sérstakri lífsreynslu og einkennilegu sigurstriti.

## III.

Ég mintist á það áðan, að þessir flokkar hér

í bænum væru stranglega aðgreindir. Í raun og veru getur maður sagt, að það sé mikið djúp staðfest á milli þeirra, og í fljótu bragði gæti stundum litið svo út, sem hér byggju fimm mannflokkar, en ekki fimm stéttir. Sumir menn eru nú svo gjörðir, að þeir hafa ekki minsta snefil af löngun til að lifa neinu félagslífi, heldur vilja bara fá í ró og næði að hýrast í sínu horni; heimilið verður svo að segja þeirra heimur og þeirra himinn. Þess konar ofanjarðar-"múmíur" eru algengar hér í Reykjavík. Allir kannast við söguna um manninn, sem ekki þorði að ráðast í jafn-voðalegt fyrirtæki sem að fara á Bókmenta-félags-fund, og sagði: "Þar er enginn kendur, sem hann kemur ekki." En þeir, sem félagslífi vilja lifa, eru bundnir á vanans og bæjarbragsins klafa, innan vébanda þess flokks, sem þeir, annaðhvort eftir fæðingu sinni eða lífsstarfi, heyra til. Lífið á milli flokkanna eða stéttanna er mestmegnis fólgið í ofantekningum. Hver flokkur heilsar öllum flokkum, sem ofar standa í almenningsálitinu, að fyrra bragði, og lægsta floknum, sjómannafloknum, heilsar enginn að fyrra bragði. Hér í Reykjavík höfum við 11 boðorðin. Þessi 10 fyrstu, sem kend eru við Móses, vilja reyndar týna tölunni, og stundum gleymast þau öll, en það 11. kunnum við altaf og meira að segja höldum það. Það er svona:

"Þú átt að bera ótakmarkaða lotningu fyrir öllum þeim, sem auðugri eru en þú og öllum þeim, sem voldugri eru en þú, og þessa þína undirgefni átt þú að fram bera á sýnilegan hátt í — ofantekningum." Þess vegna sér maður varla nokkurn tíma mann heilsa hér kunningja sínum að fyrra bragði, ef hann þykist standa flokki ofar. Hann er til með að skotra til hans augunum, til þess að áminna hann þegjandi í kristilegum kærleika, um að gæta skyldu sinnar og taka ofan, en að taka sjálfur ofan að fyrra bragði — það dettur honum ekki í hug, því það er brot á 11. boðorðinu. Menn hafa líka húfurnar stundum til þess að sýna lítilsvirðingu og fjandskap. Eins og kunnugt er, eru einvígi hér lögð niður fyrir löngu og mannvíg alveg hætt; það helzta, sem enn eimir eftir af í þá átt, er steinkast inn um glugga á kveldtíma eða næturþeli. En það algengasta er þó, þegar ein[illegible]r fyllist heiftarreiði og kemst í vígahug, að láta bara húfuna sitja fasta á höfðinu, þegar hann mætir fjandmanninum, og taka ekki ofan. Þessi húfu-blóðhefnd er farin að verða hér mjög algeng.

Alment bæjarlíf fyrir allar stéttir heyrist aldrei nefnt á nafn. Reyndar er nú þetta félagslíf innan flokkanna ekki sérlega mikils vert; það er helzt fólgið í því, að tala saman þegar menn hittast, og koma svo saman á stéttaskemtunun-

um, sem ég skal nefna síðar. Fáeinir embættismenn hafa veizlusamkomur einstöku sinnum. Vegna embættisstöðu sinnar hefir landshöfðinginn embættismanna-veizlur, og þá finst öðrum embættismönnum, sem veizlur halda, óhjákvæmilegt, að hafa sínar veizlur líka "officiellar", bara fyrir embættismenn, helzt þá, sem standa á sama tignarstigi og þeir sjálfir, eða heldur fyrir ofan en neðan. Þar af leiðir, að slíkar samkomur geta aldrei orðið neinn liður í bæjarlífinu, og tæplega í stéttarlífinu heldur. Það eru bara fáeinir embættismenn, sem koma saman, setjast í sömu kjólunum við sama borðið ár eftir ár, og borða með sömu andríku umræðunum og sömu matarlyst og í fyrra og hitt eð fyrra.

En eitt er sameiginlegt og einkennilegt fyrir allar stéttir hér, og það eru "klikkurnar." Eins og kunnugt er, er það sjaldgæft, einkum hjá þjóðum, sem skamt eru á veg komnar í menningu, að menn hafi sjálfstæðar skoðanir ; en að hinu leytinu er það einkennilegt við okkur Íslendinga, að við viljum sýnast mjög sjálfstæðir í skoðunum vorum og dómum, og umfram alt fastir og óbifanlegir í sannfæringunni ; það kemur svo sem ekkert upp á, hvernig sannfæringin er, lífs-atriðið er að halda henni dauðahaldi, hvað sem á bjátar, þó svo, að reynt sé, eftir því sem frekast er unt, að leggja sem minst í

sölurnar fyrir hana. Að skifta um skoðanir er siðferðisleg dauðasök á þessu landi, og sá, sem það gjörir, hlýtur óvirðingu allra góðra manna, og er krossfestur af almenningsálitinu. En til þess nú að eignast þennan nauðsynjagrip, sannfæringuna, og einkum til þess að geta fóðrað hana á nægilegri orðgnótt, ganga menn í "klikkur", menn fara svo sem ekki í "klikkur" til þess að framkvæma nokkurn skapaðan hlut; nei, og heldur ekki til þess að hugsa, en bara til að tala. Það er bæði fyrirhafnarminst og langþjóðlegast. Í "klikku"-efnum kemur það líka að góðu haldi, að okkar þjóð, eins og öllum öðrum lítt mönnuðum þjóðum, er tamt að hanga aftan í einhverjum öðrum, halda svo að segja í halann á honum, því í öllum "klikkum" eru forsprakkar. Það er svo handhægt, að geta skotið sér á bak við hann, hvað sem á kann að bjáta, og látið allar hríðirnar skella á honum, og hafa þó leyfi til að hafa upp eftir honum öll hans orð, sem sín eigin og flagga með hans sannfæringu, sem sinni við öll hátíðleg tækifæri. Eitt verð ég að nefna, sem er svo einkennilegt fyrir allar "klikkur" hér í bænum, og það er það, að engri "klikku" dettur í hug, að hún sé "klikka"; eitt af aðalumræðuefnunum í hverri einustu "klikku" er að fordæma allar "klikkur" og taka það skýrt fram á alla vegu, að "klikkurnar" séu eitt hið

helzta eiturmein í lífinu hér. Og á "góðra vina fundi" í hverri "klikku" eru forsprakkarnir í hinum "klikkunum" teknir fyrir og þeim úthúðað á allar lundir, fyrst og fremst fyrir það, að þeir séu svo fáfróðir og grunnhygnir, og þar næst fyrir það, að þeir séu með "klikkur" í halanum á sér.

Ef menn ættu andlegan sjónauka, og ef menn gætu séð í honum alt það líf, sem liggur á bak við það, sem sjá má með berum augum, þá mundu menn sjá hér í bænum fjölda af "klikku"-halarófum, mislangar og misháar í loftið, en allar með sömu einkennunum, allar gjörandi svo mikinn þyt af sér, sem unt er, allar talandi svo mörg orð, sem hægt er að láta út um munninn, og allar standandi í sífellu í sömu sporunum, og stappandi í sama farið.

## IV.

Hér eru engin pólitisk félög, svo menn viti af, og ofboð lítið um velgjörða-félög. Helzt af þeim er Thorvaldsens-félagið; þar munu ekki aðrir vera félagar en embættismanna og kaupmanna konur og dætur; ég skal ekkert um það segja, hvort aðrir geta ekki orðið félagsmenn, en hitt er víst, að öllum er leyfilegt að gefa til félagsins við hátíðleg tækifæri, t. d. þegar tombólur eru haldnar. Það er mjög leitt, að það

félag skuli aldrei birta neina skýrslu um störf sín og athafnir, því slíkt gæti einungis orðið félaginu til góðs, vakið eftirtekt manna á tilgangi þess og framkvæmdum, og örvað menn til þess að styrkja það. Það félag hefir reist Laugahúsið, og er það verk bæði virðingar- og þakklætisvert. Auk þess kennir það fátækum stúlkubörnum ókeypis kvennavinnu. Fyrir ofan Thorvaldsens-félagið stendur annað enn æðra kvennfélag, sem er stofnað í þeim tilgangi, að hlynna að sængurkonum; í því félagi eru ekki nema tignusta frúr, 7 að tölu, eins og dagarnir í vikunni og stjörnurnar í sjöstirninu; stundum er sagt, að konur segi sig úr Thorvaldsens-félaginu, ef von er um að sæti losni í hinu, því það er enn göfugra. Ef nú sængurkonan er bláfátæk, og ef hún er í löglegu hjónabandi, og ef hún hefir óspilt mannorð, og ef maðurinn hennar hefir það líka — þá getur hún búist við, að einhver líknardúfa fljúgi inn um dyrnar, þegar minst vonum varir, og rétti að henni ilmandi sætsúpudisk eða aðra styrkjandi fæðu. Af öðrum félögum má nefna Good-Templar-félagið, sem eflaust gjörir langmest gagn af öllum félögum í bænum. Til er líka stúdentafélag, sjálfsagt það lítilfjörlegasta og menningarrýrasta stúdentafélag, sem til er í veröldinni; reyndar eru í því fáeinir eldri lærðir menn, sem mentun hafa hlotið annarsstaðar en

hér, en þó þeir séu endrum og eins að reyna til að blása í það andlegum lífsneistum, þá slokna allar þess kyns tilraunir jafnharðan aftur, því félagsmenn eru fæstir eldfimir í þeim skilningi. Yfir höfuð sýnist það ekki liggja vel fyrir Reykvíkingum að stofna eða halda við uppbyggingarfélögum; félög, sem helzt geta staðist hér, eru dansfélög, og þau eru mörg og þeim fjölgar alt af ár frá ári. Vilji menn af félögunum marka, hvar mannvitið sitji hjá Reykvíkingum, þá yrði það að líkindum ofan á, að "intelligensinn" sé alt meiri í fótunum heldur en í höfðinu. Flest félög hér, sem stofnuð eru í öðrum tilgangi, hafa líka dans með, nema félag iðnaðarmanna; það hefir engan dans, það hreyfir ekki einu sinni fæturna, — það stendur alveg kyrt. Það er svo sem auðvitað, að hver flokkur eða hver stétt hefir sitt eða sín félög með dansi eða eingöngu dansfélög út af fyrir sig. Göfugast af öllum þess konar félögum er eðlilega "Reyjavíkur-klúbburinn," embættismannafélagið, en hvort það er hið skemtilegasta, skal ég ekkert um segja; það er líka bót í máli, að skyldi svo ólíklega vilja til, að manni kynni að leiðast þar, þá er það ætíð "fínt" og gott félag, sem maður geispar í. Þar er hafður dans fjórða hvern samkomudag, og þá er fáeinum skólapiltum hleypt inn til að dansa við frúrnar og fá einu sinni að svitna í virðingar-

verðri vinnu, og launin eru líka sæt á bragðið — ein kaka á mann. Svo koma dansfélög verzlunarmanna, "Balletten" og "Friðþjófur"; í þeim félögum er tilgangurinn enginn annar en að dansa: Nöfnin eru dálítið skrítin. "Balletten" er nú sjálfsagt nefndur svo til þess að sýna dansflokkinum við kgl. leikhúsið sóma; það versta er, að aumingja "Balletten" við kgl. leikhúsið getur aldrei séð til nafna síns hérna og lært af honum listirnar. "Friðþjóf" er ómögulegt að útlista öðru vísi en svo, að allir þeir, sem í það félag komi, verði friði ræntir, sjálfsagt af fegurð félagsmanna. Fyrir neðan þessi félög standa svo ótalmörg smá-dansfélög, að ég sé mér ekki fært að telja þau upp, enda eru sjálfsagt mýmörg til, sem ég hefi aldrei heyrt nefnd á nafn. Eitt er einkennilegt, að eftir því sem neðar dregur í tignarstiganum, eftir því eru félagar í dansfélögum vandlætingarsamari með mannorð þeirra, sem teknir eru í félögin, og mannorð þeirra, sem boðnar eru til dansanna. Er það ekki gleðilegur vottur um siðferðisástandið hér, þessi viðbjóður á öllum mannorðsblettum, sem er svo sterkur, að maður getur ekki fyrir samvizku sinni hugsað til þess, að nokkur persóna, sem eitthvert ryð hefir fallið á, fái leyfi til að dansa undir sama þaki og maður sjálfur?

Af almennum skemtunum, sem allir hafa

ókeypis aðgang að, eru giftingarnar í dómkirkjunni langhelztar. En slíku viðburðir eru líka sannkallaðir hátíðisdagar fyrir allan bæinn, einkum ef það er nú einhver embættismannsdóttir, sem giftist, og — þá náttúrlega einhverjum embættismanni, því dætur embættismanna í Reykjavík taka aldrei ofan fyrir sig. Það eru fá dæmi til, að embættismannsdóttir í Reykjavík hafi nokkurn tíma elskað mann, ɔ: gifst manni, sem ekki hafði von um að komast eins hátt í "rang" og hann faðir hennar var. Þær bíða þangað til sá rétti, helzt júristi með "láði", kemur, og þegar hann kemur, þá rétta þær honum alla þessa uppsöfnuðu og samanspöruðu elsku — nærri því eins og sparisjóðsbók. Og þegar svo farið er að gifta, þá streymir fólk af öllum stéttum, helzt ógiftir karlmenn og kvennmenn, hópum saman til dómkirkjunnar og standa þar fyrir utan dyrnar, stundum klukkutímum saman, áður en opnað er, hvernig sem viðrar. Þegar svo loksins er opnað, þá ryðst allur flokkurinn á dyrnar, stundum með heitingum og illyrðum, því allir vilja verða fyrstir. Og þegar svo inn er komið, þá flyksast fólkið inn í sætin og heldur sér þar dauðahaldi, eins og það ætli að drukna, til þess að verða ekki rifið burt af þeim, sem á eftir koma; uppi á loftinu lendir ætíð í stór-ryskingum, því allir vilja komast fram að grindunum,

og endirinn verður sá, að menn bunka sig þar í lögum, eins og saltket í tunnu, haus við haus og haus ofan á haus, og allir troða hver utan í annan í mesta bróðerni, því þetta er sú eina viðurkenda "skemtun fyrir fólkið", sem hér er til. Svo fer alt að smástillast, þegar brúðurin er komin inn og menn eru búnir að stíga upp á alla bekki, tylla sér á tá, og hnippa sig áfram með ölnbogaskotum til beggja hliða, til þess að sjá einhvern snefil af henni. Og svo hljómar hjónavígslusálmurinn frá orgelinu, og alt í einu fellur undursamlega hlý og dásamlega mjúk kyrðarværð yfir allan þennan sæg af ógiftu fólki; hver orgeltónn togar fram í fólksins brjóstum dýpstu lotningu og hjartanlega gleði yfir þessari hátíðlegu athöfn, sem fram á að fara fyrir altarinu og sem er svo óumræðilega þýðingarmikil fyrir mannanna lukku og — fjölgun; allur þessi stóri, ógifti hópur stendur með öndina í hálsinum, gagntekinn af ástarþrá og hjónabandslöngun; orð prestsins heyrir enginn maður, en augun leita í leiðsludraumi að einhverju fallegu og elskuverðu andliti, sem alt þetta tilfinningabál inni fyrir megi koma vel og réttilega niður á; og þess háttar finst oftast nær. Á slíkum hátíðlegum stundum myndar alt kirkjufólkið einn samhjartaðan, sanntrúaðan söfnuð, ekki beinlínis evangelisk-

lúterskan söfnuð, heldur hjónabandsundirbúnings-söfnuð.

Hvað það hlýtur að vera huggunarríkt fyrir þá, sem bera kvíðboga fyrir framtíð landsins og hafa beyg af því, hvað Ameríkuferðir fækki landsfólkinu hér, að hugsa um það, að á þessum skemtunarstundum fólksins, þegar þess hreinasta og insta eðli kemur bezt í ljós, þá hugsar það ekki um annað en bara giftingar.

Ég vil ekki segja, að greftranir hér séu beinlínis "skemtun fyrir fólkið", en þjóðleg uppbyggingarathöfn eru þær að minsta kosti. Það er nú orðinn hér bæjarsiður og hefir líklega verið lengi, að kaupmenn draga fána í hálfa stöng þegar grafið er, hver sem í hlut á, hvort hann er ríkur eða fátækur, ungur eða gamall. Það getur verið, að sumum þyki þetta fallegur siður, og sýna, hvað hugmyndin um, að allir menn séu í raun og veru jafningjar, sé komin hér langt, og hvað hér sé lítið manngreinarálit. En þegar þessi jafningja-hugmynd kemur aldrei fram í nokkurum sköpuðum hlut, nema í því að flagga í hálfa stöng yfir einhverjum, þegar hann er dauður, þá gef ég ekki mikið fyrir hana. Einu sinni fyrir fáeinum árum sendi yfirforinginn á frakknesku herskipunum hér við land, sem þá var nýr í stöðunni, og lá með skipum sínum hér á höfninni, í land, og spurði hvaða þjóðskörung-

væri verið að grafa, því hann sá sorgina afmálaða með öllum fánum kaupmannanna, og langaði til að sýna kurteisi sína með því, að draga fána í hálfa stöng líka og skjóta sorgarskotum. Það hittist þá svo illa á, að ekki var hægt að segja honum, hvaða stöðu sá látni hefði haft á hendi, því hann var ungbarn, og það var heldur ekki hægt að segja honum, hvað hann hefði heitið, því það hafði ekki verið búið að skíra hann. Ef einhver efast um, að þessi saga sé sönn, þá getur hann fengið hana staðfesta af franska konsúlnum hér í bænum. Þessi atburður sýnir vel, hvað flöggunarsiðurinn fyrir greftrunum er algengur. Hann kvað hafa byrjað svo, að kaupmenn voru vanir að flagga fyrir greftrunum viðskiftamanna sinna, svo fyrir venzlamönnum þeirra, svo fyrir vinnumönnum þeirra og vinnukonum og börnum þeirra, og loks fyrir öllum venzlamönnum vinnufólksins og þeirra börnum og barnabörnum. Eins og þessi flöggun er nú orðin, er hún hreint og beint hlægileg, bara hæðnisverður hræsnis-vani; menn flagga fyrir mönnum, sem menn ekkert þekkja til og ef til vill hafa aldrei heyrt nefnda, eða fyrir börnum, sem varla nokkur maður veit deili á. Hví eiga vesalings flaggstengurnar að bera sorg, sem enginn finnur til nema þær? Þá eru menn heldur ekki sporlatir að fylgja dauðum til grafar, eink-

um kvennfólkið, helzt þegar það er farið að eldast. Það getur enginn lifandi maður ímyndað sér, hvað margt er til af gömlu kvennfólki í þessum bæ, nema sá sem sér það saman komið í líkfylgd; það er alveg eins og það spretti upp úr götunum, því greftranir eiga slíkt aðdráttarafl fyrir flest lægri stéttar kvennfólk hér, að það leggur oftast nær lykkju á leið sína, ef það sér líkfylgd, og slæst í förina, og úr húsunum, sem líkfylgdin fer fram hjá, bætist smátt og smátt við í hópinn, og flest eða alt er það kvennfólk; og alt þetta kvennfólk gengur með sama alvöru- eða raunasvipinn; hver sem grafinn er, er svipurinn alt af sá sami; það er eins og kerlingarnar hér eigi greftrunar-grímu, sem þær smella yfir andlitið í hvert skifti sem þær finna lykt af líkfylgd í nánd. Og þessi líkfylgdarsýki, sem þjáir alt gamalt kvennfólk á sérstökum aldri og í sérstökum flokkum hérna í bænum, er svo sem ekki tekin út með þrautum eða raunum; nei, þvert á móti; að mega vera við og sjá greftranir, er fyrir það nokkurs konar "brama-lífs-elixír", sem bætir öll þess mein; það er hrein nautn, á við tvo eða þrjá góða kaffibolla. Það er heldur engin furða, þegar vel er gætt að, því það er enginn smáræðis léttir, að geta velt af sér yfir þann, sem dáinn er, og á hans gröf öllum sínum sorgartilfinningum. Og það er einmitt það, sem

þær gjöra. Að fylgja dauðum til grafar og flytja sögur um þá lifandi um bæinn, það eru bara tvær hliðar á sama starfinu: að hafa ofan af fyrir sér í ellinni. Önnur hliðin er launuð með raunalétti fyrir sálina og hin með kaffibollum fyrir líkamann.

V.

Til er hér í bænum nokkurs konar andlegur aldingarður, sem nærri því allir bæjarmenn finna sig skylda til að rækta á allan hátt, og hlynna að á alla vegu; við þann blett mætast menn af öllum stéttum, bæði karlar og konur; allur stéttamismunur og allur aldursmunur hverfur þar eins og þoka fyrir sólu; háir og lágir taka þar höndum saman, og gamalmennið á grafarbakkanum og barnið fyrir innan fermingu hittast þar í bróðerni, tignarfrúin og betlikerlingin sitja þar eins og systur, og allir vinna það sama, prýða og skrýða blettinn; sumir gróðursetja þar ný blóm, aðrir stórefiis-tré, og sumir eru í óða önn að vökva eldri blómum og eldri trjám, til þess að ekkert glatist, ekkert kulni út eða visni; þessi augasteinn alls bæjarins, þessi heilagi og friðaði aldinreitur er — slúðrið í bænum.

Menn gætu líka líkt slúðrinu hérna í bænum við vætusudda, sem læðist og skríður inn um

hverja einustu rifu, sezt fyrir í hverri sprungu, treður sér á milli þils og veggjar laumast úr einu herbergi í annað, og tilgangurinn er alt af og allsstaðar sá sami, að reyna til að smella blettum á, og freista, hvort það sé ekki hægt, að búa til dálítinn fúa.

Innan endimarka þessa bæjar hefir aldrei nokkur maður dvalið svo til nokkurrar lengdar, að ekki hafi verið óteljandi hendur á lofti til að þukla og þreifa um alla hans hagi; jafnvel óteljandi pennar hafa verið settir af stað, og það oftast pennar, sem annars hafa sjaldnast verið hreyfðir, alt saman til að skygnast inn í öll þau fylgsni, sem þykja vera á lífsferli hans að einhverju leyti; og leitin verður sjaldan alveg árangurslaus; að minsta kosti finnnast venjulegast einhverjar holur, sem menn þykjast ekki geta rannsakað til hlítar, og það er svo sem auðvitað, að þar þykir ekkert gott geymt; og ef svo ólíklega fer, að ekkert finst, þá er það ekki þar með sannað, að hlutaðeigandi sé svo vandaður maður, að ekkert verði að honum fundið. Nei, þvert á móti, þá er það af því, að hann er svo slóttugur, hann kann að dylja sig; hann er bara refur, sem tekið hefir á sig lambsgerfi, og sem allir góðir menn hljóta að hafa beyg af.

Og enginn lifandi maður gjörir varla svo nokkurn skapaðan hlut í daglegu lífi, að ekki séu

óteljandi augu, sem vaka yfir honum, óteljandi munnar, sem séu reiðubúnir til þess að flytja mann frá manni um allan bæinn alt, sem hann tekur sér fyrir hendur ; hvert einasta atvik fær þýðingu, margfalda þýðingu, sem alt af vex, eftir sama lögmáli og snjóflóð, því lengra sem dregur frá upprunanum. Ef maður gengur inn á veitingahús til þess að fá sér glas af öli, þá er það af því, að hann er mjög hneigður fyrir ofnautn áfengra drykkja ; ef maður sést drukkinn einu sinni, þá liggur hann á túrum heilum vikum saman ; ef ógiftur maður gengur út að kveldi dags, þá er það [illegible] tíð til þess að hitta einhverja vinkonu sína. Ef mannamál heyrist inni í herbergi, þar sem ógiftur maður býr, þá er það eintómt kvennfólk, sem er að heimsækja hann.

Í þessum fréttaburði og tilgátum taka nú flestir bæjarbúar einhvern þátt, eins og ég benti á áðan, en máttarstólparnir undir því öllu saman er þó gamla kvennfólkið ; helzt ógiftar jómfrúr yfir fimtugt, og ekkjur. Það er kunnugt, að hér í bæ eru til ekkjur, sem reka fréttaburð sem atvinnu, og það er, ef til vill, sá atvinnuvegur, sem borgar sig einna bezt ; þar fellur enginn dagur úr, því þá atvinnu má jafnt stunda vetur og sumar, hvernig sem viðrar og hvernig sem árferðið annars er.

## VI.

Þegar litið skal á bókmentalíf bæjarins, þá er þess fyrst að geta, að hér er ekki nema eitt einasta vísindafélag,· „Fornleifafélagið.“ Það vill nú svo vel til, að einmitt í árbók félagsins í ár er skýrt og greinilega tekið fram á fyrstu blaðsíðu, hver sé tilgangur félagsins; hann er sá, að sanna, að allar okkar fornsögur séu réttar, og þessi tilgangur næst með því, að heimfæra það vísindalega spakmæli, sem tekið er fram á öðrum stað í árbókinni í ár, upp á fornsögur okkar; og spakmælið er þetta: að alt, sem getur verið satt, um það er engin ástæða til að efast. Þetta vísindafélag gjörir á ári hverju út vísindamann til þess að koma á sögustaðina og sanna, að sögurnar séu réttar. Og hann fer um alla sögustaðina, hvern á fætur öðrum, lítur yfir þá alla, rótar þeim upp og rannsakar þá til hlitar og segir: „Alt *er* satt, af því það *getur* verið satt; hér er engin ástæða til að efast.“ — Bókmentafélagið tel ég fremur alþýðumentunarfélag en vísindafélag.

Um bókmentalíf bæjarbúa yfir höfuð er annars sára-fátt að segja. Öllum er kunnugt „lestrarfélag Reykjavíkur“; í því ganga nær því allar helztu bækur, sem prentaðar eru á dönsku, og fáeinar sænskar, meðal félagsmanna, og eru

lesnar sumstaðar — sumar. Það spillir mikið fyrir sumum þeirra, að jafnvel titlarnir á þeim eru svo ómóralskir, að fólkið þorir ekki almennilega að fletta þeim upp; og sumir eru svo hræddir við að brenna sig á einhverju þess háttar, að þeir, vegna samvizkunnar og heimilisheillarinnar, ganga úr félaginu; og á aðalfundum verður dálkur þeirra, sem geta heitið "úrgengnir af siðferðislegum ástæðum" stærri en dálkur þeirra, sem eru "útstrikaðir fyrir skuldir." Þetta lestrarfélag er nú, að svo miklu leyti sem bækurnar í því eru lesnar, eina uppsprettu-lindin til allrar mentunar og menningar í bænum. Íslenzkt bókmentalíf er hér ekkert til, fremur heldur en annarsstaðar á landinu; það eru reyndar til stöku menn hér, sem kaupa alt þetta fáa, sem prentað er á íslenzku, ekki til þess að lesa það, heldur til þess að láta það upp í skápinn hjá sér, svo að menn á uppboðinu eftir hann, þegar hann er dáinn, geti talað um, hvað mikill bókavinur hann hafi verið. Það er eins og íslenzkt bókmentalíf sé einmitt nú að kulna út; bækur eða kver, sem lesandi eru, koma ekki út nema á 5 eða 10 ára fresti, og blöðin eru svo gott sem hætt að minnast á bækur, sem út koma. Hingað til hefir verið skoðað svo, sem hverju viðreisnartímabili í sögu hvers lands fylgi vakandi fjör og þroski í bókmentalífi. Menn tala mikið

um, að þjóðin okkar sé á viðreisnarstigi, hún sé að vakna til pólitiskrar meðvitundar og verklegra framkvæmda í ýmsum greinum. Það getur verið; en eitt er víst, og það er, að bókmentalífið er að deyja hér út. Áhugi alþýðu manna, á að eignast og lesa bækur, er að minka. Það er hvorki tími né tækifæri til að fara langt út í þá sálma í þetta sinn, eða fara að gæta að orsökunum til þess eða afleiðingunum af því. En það er atriði, sem verður að taka með, þegar aðgæta skal lífið hér á landi nú á tímum. Það er t. d. sérstaklega einkennilegt hér í höfuðstaðnum, ólíkt því sem tíðkast í mentuðum löndum, að þegar mentaðir ungir menn koma hér saman, þá ber varla við, að nokkurn tíma sé minst á íslenzkar bókmentir. Nú sem stendur eru líka fjögur skáld hér í höfuðstaðnum, öll steinþegjandi — nema þegar taka skal á líksöngslagi. Benedikt Gröndal yrkir bara grafskriftir, Steingrímur Thorsteinsson sömuleiðis, Jón Ólafsson sömuleiðis og — frá Hannesi Hafstein sést ekkert á prenti. Og skáldunum er það meira að segja ekki láandi, þó þau yrki lítið. Alþýða tekur steinþegjandi við öllum skáldskap, og borgun fyrir slík störf er annaðhvort engin eða svo sáralítil, að hún freistar einskis. Annarsstaðar í heiminum er skáldskapurinn skoðaður sem hið helzta og bezta menningarmeðal þjóðanna; flest-

ar mannúðar- og frelsishugmyndir, sem beztu framfaramenn stórþjóðanna eru að berjast fyrir, eiga oftast nær rót sína að rekja til skáldanna. Hér á landi finna menn aftur á móti enga þörf á skáldskap. Sú skoðun hefir aldrei rutt sér hér til rúms, að skáldskapurinn gæti eða ætti að hafa þýðingu fyrir mannlífið. Fyrir nokkurum árum skoðuðu menn hér skáldskap eins og glys og glingur, sem gæti verið skemtilegt fyrir konur og krakka til að stytta þeim stundir; en nú eru menn komnir svo langt, að skoða skáldskap eins og þarfleysu-hringlanda, sem menn eigi að leggja niður eins og önnur æskubrek, og ef það er kunnugt um einhvern mann, að hann yrki eða hafi orkt, þá getur hann ekki talist með nýtum mönnum fyr en hann er alveg hættur að yrkja. Í stuttu máli sagt, hér í bæ eða hér á landi er ekki nokkur skapaður hlutur, sem hvetur eða örvar til skáldskapar. Það bíður svo sem enginn "Pegasus" við dyr skáldanna hér. Nei, það er öðru nær. Enginn kunningi, sem hægt er að tala við um skáldskap, enginn félagsskapur til þess að njóta þess í sameiningu, sem hingað kann að villast af góðum skáldskap frá útlöndum. Mentalífið í bænum er alveg eins og bærinn sjálfur á kveldin, þegar dimt er orðið: Í flestum húsum einhverjar ljóstýrur fyrir heimilisfólkið, ætíð það minsta, sem komist verður af með, og fyrir utan

þennan fátæklega ljóshring, sem þessar "familíu"-týrur gjöra, ekkert nema kolsvart myrkur, niðdimm nótt, sem ekki veit af því, að nokkurt ljós eða nokkur himinn sé til.

## VII.

Þegar litið er á lífið hér í bænum í einni heild, þá einkennir eintrjáningsskapurinn það bezt af öllu. Hér er engin sveigja, engin tilbreyting í lífinu. Menn eldast hér langtum fljótar en annarsstaðar; hér verður aldrei neinn viðburður, sem gagntekur menn alment; þó einhver móður komi í menn, einhver áhugi lifni fyrir einhverju fyrirtæki, þá er slíkt óðara sloknað aftur, eins og stjörnuhrap. Það er eins og engin ástríða sé til í fólkinu hér, eins og svefninn sitji alt af fastur í augnalokunum á því. Það er eins og vaninn sé búinn að gjöra flesta mennina að handvélum, sem hann veifar og sveiflar með sama laginu ár út og ár inn. Þegar maður gengur hér á götunum, þá finst manni að flestir mennirnir, sem maður mætir, séu svo óumræðilega líkir, eins og þeir væru steyptir í sama mótinu, sama kæru- og áhugaleysið á andlitunum og sami seini og hægi gangurinn; maður getur oft og tíðum ímyndað sér, að sá eða sá væri í raun og veru steyptur blýmaður, ef hann ekki talaði; en hann talar alt af. Maður ímyndar sér, að

hann hafi líka bæði heila og hjarta, en á þau líffæri reka menn sig l^ngtum sjaldnar. Munnurinn er þar á móti alt af í lagi, venjulegast í góðu lagi. Þessi eintrjánings-martröð, sem liggur hér yfir flestum, setur óviðjafnanlega ískalt blávatnsbragð á alt lífið. Lífið í kring um mann verður enginn vekjandi og hvetjandi þytur, enginn hressandi straumgola. Nei, langt frá ; það verður bara alt deyfandi, alt svæfandi rokkhljóð, sem aldrei breytist hið minsta, ekkert ár og engan árstíma.

Það er óhætt að fullyrða, að þó einhver maður hér í bænum sofnaði núna og svæfi í fimm eða tíu ár, þá væri hann viss um, þegar hann vaknaði, að hann hefði bara sofið i fáeina klukku tíma. Því hvert sem hann liti, þá stæði alt í sömu skorðum eins og hann skildi við það, þegar hann sofnaði ; húsin yrðu kannske dálítið fleiri, en sjálfsagt með sömu gjörð og sama lagi. Ljósin á götunum yrðu alveg þau sömu, mátulega skýr til þess, að geta sett ofbirtu í augun á manni, meðan maður stendur undir þeim, til þess maður geti dottið í fyrsta poll, sem verður á leiðinni til næsta ljóss. Við sama rennusteininn yrði sjálfsagt verið að ɡjöra, þegar hann vaknaði, sem verið var með, þegar hann sofnaði, reyndar í 1001. sinni ; en hann gæti engin merki séð til þess, því verkamennirnir yrðu hinir sömu

og viðgjörðar-aðferðin sú sama. Ofaníburðurinn á götunum yrði líka sjálfsagt sá sami, mátulega laus og mátulega smágjörður til þess að geta blindað 10 sinnum fleira fólk, heldur en til er í Reykjavík.

Næst eintrjáningsskapnum er það mannorðssýkin, sem einkennir og þjáir flest fólk hér. Það er leitun á bæ, þar sem nærri því allir eru jafnlogandi hræddir um mannorð sitt, eins og í Reykjavík. Hér ganga menn í kring, bæði karlar og konur, með bókstaflegan mannorðs "vandskræk". Nærri því hvaða smáræði sem menn ráðast í eða taka sér fyrir hendur, þá er ætíð fyrst að hugsa um það, hvað almenningur muni dæma um það, og hvað sá eða sá muni segja um það.

Af þessari mannorðssýki leiðir líka fjarskalega mikla hræsni manna á milli; menn þora alment [illegible] að láta í ljósi skoðun sína við þann, sem [illegible] talar við, ef maður hefir ástæðu til að æ[illegible]ð hann sé á gagnstæðri skoðun, einmitt af ótta fyrir því, að hann muni leggja sér það illa út og spilla fyrir sér. Flestir eru eins og á glóðum, því lifibrauðin eru svo fá og allir vilja lifa.

Ég veit nú, að menn að endingu munu spyrja, hvert ráð eða hver ráð séu til þess að bæta bæjarbraginn hér, fá menn til að brjóta

skörð í flokkagirðingarnar, kenna mönnum að leggja niður hræsnina og tepruskapinn, gjöra slúðurþokuna að engu, lækna mannorðssýkina, og um fram alt að brenna inni allan "klikku"-skap? Eg sé einungis eitt ráð, sem gæti komið að haldi. Við þurfum að fá leikrita-skáld, sem getur dregið alt það, sem aflaga fer hér hjá okkur, fram á leiksviðið, og þar næst þurfum við að fá þau leikrit leikin, leikin vel. Brestir okkar eru slíkir, að þeir læknast ekki með nýjum lögum; þeir læknast yfir höfuð ekki með nokkurum sköpuðum hlut nema — háðinu. Þarfasti maðurinn, ekki einu sinni fyrir þennan bæ og hans félagslíf, heldur fyrir alt landið, alt þjóðlífið og allan bókmentadauðann — það væri kómedíuskáld, sem gæti sýnt okkur vel og greinilega, hvernig við lítum út í spegli. Ég er hræddur um, að harla margir af okkur sæju þá, að þeir væru bara hlægilegir Svörtupétrar í öllu þessu spili, sem spilað er á þessu landi. Háðið, nógu napurt og nógu biturt, hefir um allan aldur heimsins verið bezti læknirinn fyrir mannkynið.



# Sælunnar land.

EFTIR

**Iwan Turgenjew.**

---

SÆLUNNAR land, ljóssins, elskunnar, nautnarinnar land, ég hefi séð þig — í draumi.

Vér sátum í undurfögrum, skrautbúnum bát; seglið hvíta hvelfdist eins og brjóst á svani og sigluveifan blakti með einhverjum gleðibrag.

Ég þekti engan af þeim, sem með mér voru, en það fann ég af allri minni sál, að þeir voru eins ungir, eins glaðir og eins sælir og ég.

Annars tók ég varla eftir þeim; hringinn í kring um mig sá ég hið ómælilega, heiðbláa haf með glitrandi smágárum, eins og gullhreistri. Og yfir höfði mér var sem annað haf, eins ómælilegt og heiðblátt, og um það leið in glaða sól, sigurhelg og brosandi.

Stundum reis hlátur í hóp vorum, glaður og skær, eins og guðirnir væru að hlæja.

Orð liðu af vörum vorum — í ljóðum fullum himneskrar fegurðar, andagiftar og afls. Himininn sjálfur tók undir með unaðshljóðum og hafið í kring um oss titraði af samfögnuði.

Svo varð unaðsamleg kyrð.

Ljúfar bárur böðuðu hliðar bátsins og hann þaut áleiðis eins og ör; enginn vindur greiddi för hans, en hjörtu vor slógu og svo flaug hann áfram; hann var gæddur sál eins og sjálfir vér, og hlýddi vilja vorum.

Eyjar urðu fyrir oss á flugferðinni — undureyjar, sem ljómuðu í litskrúði dýrustu gimsteina, — eins og rúbínar og smaragðar, og töfrandi ilmur steig frá tilbreytifögrum ströndum.

Ein af eyjunum lét ýra yfir oss ljúfu rósaregni og konvalla; frá sumum flugu upp regnbogalitir fuglar; þeir veifuðu mjúklega löngum vængjum sínum og flugu í hring yfir höfðum vorum. Rósirnar og konvallarnir bráðnuðu í perlufroðunni, sem rann með hálum hliðum bátsins.

Og á sömu stundu barst oss til eyrna innilegur, heillandi söngur; það voru töfrandi kvennraddir, og alt í kring um oss, himininn og hafið, seglið, sem breiddi sig út blaktandi og straum-

iðan, sem vafði sig upp um stýrið — alt talaði um ást, um sæla, fullsæla ást.

Og ástmey hvers einstaks af oss var þar, ósýnileg, en þó nálæg. Þegar eitt augnablik er liðið, þá ljóma augu hennar móti þér af fögnuði, þú sér sælubrosið á vörum hennar og hún tekur í hönd þér og leiðir þig inn í ina eilífu paradís. — Ó, fullsælunnar land, ég hefi séð þig — í draumi.

---

## Hver er auðugastur?

(Eftir sam .)

—

ÞEGAR menn, svo ég heyri, lofa hann Rauðskjöld (Rothschild) fyrir það, að hann af ofboðslegu tekjunum sínum ver þúsundum króna til að ala upp fátæk börn, lækna sjúka og hlynna að gömlum mönnum, þá verður mér það að vikna og ég lofa hann líka.

En þegar ég vikna og lofa hann, þá detta mér ætíð ósjálfrátt í hug fátæku bóndahjónin, sem tóku frændbarn sitt munaðarlaust til sín í kofagarminn sinn, sem allur var af göflum genginn.

"Við tökum hana Kötu til okkar," sagði

konan; "þá eigum við reyndar ekki einskilding eftir — við höfum ekki einu sinni ráð á að kaupa salt í súpuna okkar...."

,,Jæja, þá borðum við hana saltlausa", sagði bóndinn, maður hennar.

Þeim bónda nær hann ríki Rauðskjöldur ekki!

---

**Anægður maður.**

(Eftir sama.)

UNGUR maður gengur eftir götunum í höfuðborginni. Það er auðséð á öllu, að hann hefir engar áhyggjur að bera, er glaður og mjög ánægður með sjálfan sig. Augun ljóma, varirnar brosa og léttur roði leikur um æskuandlitið.— Það skín út úr honum ánægjan og gleðin.

Hvað veldur þessu? Hefir hann fengið arf? Hefir hann hlotið einhverja tign? Kannske unnusta hans bíði eftir honum, eða hann hafi, ef til vill, bara borðað góðan morgunverð og finni nú til ánægjunnar og æskufjörsins eftir hann? Það skyldi þó aldrei vera, að áttálmaði krossinn hans Stanislásar Pólverjakonungs hefði verið hengdur um hálsinn á honum?

Nei, það er ekkert af þessu. Hann hefir bara spunnið upp og útbreitt, með stakri samvizkusemi, lýgi um einn af kunningjum sínum, og nú hefir hann heyrt þessa lýgi hjá þriðja manni, og — hefir sjálfur trúað henni. Hvað hann er ánægður í skapi og hlýlegur á svipinn, ungi maðurinn efnilegi og elskulegi!

---

## A morgun! á morgun.

(Eftir sama.)

—

MIKIÐ ofboð er hver liðinn dagur snauður, auður og marklaus! Ofboð sjaldan lætur hann nokkuð sjást eftir sig og ofboð þýðingarlaust og heimskulega eru allir þessir tímar liðnir, einn eftir einn!

Og þrátt fyrir alt þetta vill maðurinn lifa — hann elskar lífið, vonar á það, vonar á sjálfan sig og framtíðina — já, mikilli ógnarblessun býst hann við af framtíðinni!

En hversvegna ímyndar hann sér, að hinir dagarnir, ókomnu dagarnir, verði ekki hinum liðnu líkir?

Hann ímyndar sér það heldur ekki, hann

fæst yfir höfuð ekki mikið við að hugsa — og það er rétt af honum.

"Á morgun! á morgun!" segir hann. Með því huggar hann sig, alt þangað til einhver morgundagurinn steypir honum í gröfina.

Og þegar maður einu sinni er kominn ofan í gröfina, þá hættir maður af sjálfu sér að hugsa.

Suð.

---

## Náttúran.

(Eftir sama.)

MIG draymdi að ég kæmi inn í stóra, hvelfda höll niðri í jörðunni. Eitthvert jarðljós bar skæra, stilta birtu um höllina.

Í miðri höllinni sat kona tiguleg mjög, skrýdd grænum skrúða. Hún studdi hönd undir kinn og var sem hún væri sokkin niður í þungar áhyggjur.

Ég þóttist vita, að þessi kona væri náttúran sjálf, og óviðjafnanleg lotning gagntók mig allan.

Ég gekk nær konunni, heilsaði henni með hjartanlegri lotningu og sagði: "Ó, móðir allra vor, hvað ertu að hugleiða? Ertu að huga ókomin forlög mannkynsins? eða ertu að hugsa

um leið þá, sem þ[illegible] enn [illegible]tir til hinnar mestu fullkomnunar, til hinnar æðstu sælu?"

Konan sneri [illegible] og lei[illegible] mig dökkum [illegible] Var r[illegible] na[illegible]rðust og með drynjandi [illegible] járn[illegible] rödd s[illegible]gði hún:

"Ég er að hugsa u[illegible], h[illegible]nig [illegible]var flóarinnar megi fá meira afl, svo [illegible] ei[illegible]egra með að frelsast frá fjendum sínu[illegible] [illegible]gi[illegible] milli sóknar og varnar er [illegible] lagi [illegible] verðu[illegible] að kippa þ[illegible] í lag aftur."

"Hvað er þetta[illegible] stundi ég út úr mér, "er[illegible] að íhuga [illegible]að [illegible]m vér mennirnir þá ekki kærustu börnin þín, sem þú metur öllu öðru meir[illegible]

Þá bra allr[illegible] s[illegible]vast hrukkum á enni konunnar og hún s[illegible] "A[illegible]r skepnur eru börn mín, ég ber ja[illegible]nhyggju fyrir þeim öllum — [illegible]t þau svo öll glatast; þar er enginn [illegible]á."

[illegible]n [illegible]gð — skynsemi — réttlæti?" stamaði [illegible] nér [illegible]tur.

"Það er[illegible] tó[illegible] orð, sem mennirnir hafa," svaraði hún [illegible] drynjandi járnröddinni sinni. "Ég þekki hvorki gott né ilt; skynsemi er ekk[illegible] lögmál fyrir mig; og hvað er réttlæti? — ég [illegible] þér lífið — ég tek það aftur frá þér og gef öðrum það — ormar og menn eru alveg það sama

fyrir mér. En þú, ver þú þig svo lengi sem þú getur og láttu mig í friði."

Ég ætlaði að svara aftur — en þá nötraði jörðin og skalf — og ég vaknaði.

(Suðri.)

---

## Hvað skyldi ég hugsa?

(Eftir sama.)

—

HVAÐ skyldi ég hugsa þegar dauðinn nálgast? — Það er að segja, ef ég get nokkuð hugsað þá.

Skyldi ég hugsa um það, að ég hafi illa kunnað að verja lífi mínu? — að ég hafi sofið eða að mig hafi dreymt það alt á enda og ég hafi ekki notið þess, sem það veitti?

Hvað er þetta? er þetta dauðinn? — Svona fljótt? Það er ómögulegt!.... Ég hefi enn ekki haft tíma til að gjöra neitt! — Ég hafði einmitt nú einsett mér......

— Skyldi ég hugsa um það, sem liðið er? Skyldi ég festa hugann á hinum fáu unaðarstundum, sem ég hefi lifað? Á ástfólgnum svipum og hjartkærum mönnum? Skyldi hið illa, sem ég

hefi gjört, alt í einu rifjast upp fyrir mér, og skyldi sál mín kveljast í logapínslum of seinnar iðrunar?

Skyldi ég hugsa um það, sem bíður mín hinu megin grafarinnar?....Eða bíður mín nokkuð, þegar öllu er á botninn hvolft?

Nei?....Ég held að ég reyni að hugsa öldungis ekki neitt; reyni að láta hugsanir mínar dvelja við eitthvað ómerkilegt; einungis til þess að leiða athygli mína burt frá hinu hræðilega myrkri, sem dregur upp alt í kring um mig.

— Maður, sem var kominn í dauðann, kvartaði við mig um það, að sér væri ekki leyft að brjóta hnetur!....en djúpt í auga hans, sem var nærri því brostið, sá ég eitthvað titra og berjast, eins og vængur blakti á helsærðum fugli.

(Suðri.)

---

## Vinurinn og fjandmaðurinn.

(Eftir sama.)

—

MAÐUR nokkur var dæmdur í æfilangt fangelsi. Hann strauk úr fangelsinu og flýði burt. Lögregluliðið veitti honum strax eftirför

og var rétt að segja búið að ná honum, en hann tók á rás í dauðans ofboði og komst úr greipum þess.

Alt í einu kom hann á árbakka. Ain var bæði lítil og mjó, en alldjúp, og hann var ekki syndur.

Yfir um ána lá fúið borð. Flóttamaðurinn steig strax öðrum fæti upp á borðið — en þá hittist einmitt svo á, að bezti vinur hans og versti fjandmaður hans voru þar staddir.

Fjandmaðurinn krosslagði hendur sínar og talaði ekki orð. En vinur hans kallaði upp: "Guð hjálpi þér, maður! hvað ertu að gjöra? hvað hugsarðu, óvitinn þinn? — sérðu ekki að borðið er grautfúið? Það brotnar undan þér, og þá ertu dauðans matur!"

"En það er ekki hægt að komast yfir um annarsstaðar ... og leitarmennirnir .... heyrðu til þeirra!" stundi aumingja maðurinn upp úr sér og steig aftur upp á borðið.

"Ég leyfi það ekki! — nei, ég get ekki horft á þig fleygja þér í dauðans greipar!" kallaði vinurinn upp og þreif borðið burt undan fótum flóttamannsins. Hann datt ofan í ána og druknaði.

Fjandmaðurinn hló og gekk brott; en vinurinn settist niður á árbakkann og grét beisklega vininn sinn, sem fórst svo hraparlega. Honum

datt ekki eitt augnablik í hug að hann kynni að hafa verið valdur að slysinu.

"Hann vildi ekki hlýða mér!" sagði hann í hálfum hljóðum, sárhryggur. Og svo bætti hann við: "Annars hefði hann nú reyndar orðið að sitja alla æfi í hræðilegu fangelsi; nú er hann leystur frá öllum raunum og nú líður honum vel —þetta hafa verið forlög hans. — En hvað mig tekur það samt sárt mannkærleikans vegna!"

Og góðmennið titraði af ekka og var öldungis óhuggandi langa hríð; út úr hinum hryggilegu afdrifum vinar síns.

(Suðri.)

# Framfari.

(Úr sænsku.)

---

EINN góðan veðurdag var Framfari á ferð, eins og vant var; allir, sem mættu honum, heilsuðu honum hlýlega.

Þegar hann var búinn að ganga góðan spöl, leit hann aftur og sá langt í burtu dökkan díl, sem var á ferðinni á eftir honum. Hann skifti sér lítið af því, en fór áfram leiðar sinnar.

Þó fór hann að verða forvitinn eftir litla stund og sneri sér við, til þess að sjá hvað þetta væri.

"Ég held þetta sé dvergur, sem er að hlaupa á eftir mér," sagði hann hlæjandi.

En þegar hádegi var komið, var þessi, sem á eftir var, búinn að ná Framfara; en það var svo sem enginn dvergur; það var kvennmaður, heldur í stærra lagi. Hún var meira en höfði hærri en Framfari og í raun og veru tröllskessa að vexti.

"Við fylgjumst!" sagði konan stórvaxna.

Framfara var ekkert um það, því ókunna konan leit eiginlega ekkert vel út, né bauð af sér góðan þokka, en hann þagði og lét það svona vera, til þess að konan skyldi ekki halda að hann væri hræddur.

Svo héldu þau áfram ferðinni, og þeir sem mættu þeim, heilsuðu ofboð þurlega, eða sleptu því alveg að heilsa.

Sólin fór að síga niður eftir himninum og skuggar ferðamannanna fóru að lengjast.

Alt í einu tók Framfari eftir nokkuru, sem var svo undarlegt, að hann gleymdi alveg ásetningnum að tala ekkert við samferðakonuna.

"Heyrðu!" sagði hann, "mér sýnist hann í meira lagi skrítinn skugginn þinn. Hann fer allra sinna ferða og lagar sig ekki nokkurn skapaðan hlut eftir þér. Hann er meira að segja ekki í kvennmanns líki, heldur karlmanns!"

"Víst er hann það," sagði konan; "bíddu bara við dálitla stund, þá skalt þú fá að sjá nokkuð!"

Og sólin var alt af að smáhníga niður að sjóndeildarhringnum og skuggarnir voru alt af að stækka.

Þá varð skuggi konunnar alt í einu sjálfstæð vera; stóreflis risi, illúðlegur og ófrýnilegur, og hann gekk rétt á eftir Framfara og steig í hvert spor hans.

Skelfilegur ótti greip Framfara alt í einu; hann vék sér dá̈'tið til hliðar og sagði:

"Hvað er þetta, hvaða verur eruð þið?"

Konan svaraði og hló kuldalega við: "Ég heiti Öfund, og skugginn minn er hann Rógur litli. Þú þarft ekki að vera neitt hræddur um það, að við förum að skilja við þig.

(Heimskr.)

# Vizkusteinninn.

EFTIR

**Henrik Pontappidon.**

---

EINU sinni var drengur, sem hafði heyrt talað um vizkusteininn, er svalaði hverri þrá, læknaði öll sár og eyddi öllum sorgum, og undir eins og hann var þroskaður lagði hann af stað út í heiminn, til þess að leita að vizkusteininum.

Hann leitaði við lind ástarinnar, þar sem fagrar meyjar komu á hverju kveldi til þess að sækja vatn í föturnar sínar. Hann klifraði upp að hásæti konunganna og steig niður í djúp námagöng vizkunnar—en hvergi fann hann svölun fyrir sálarþrá sína og hvergi lækning við sorg sinni.

Þá frétti hann um mann, sem lifði einlífi úti á eyðimörk, saman við vargynju. Það var útlægur konungur, sem hafði ríkt yfir öllum löndum, frá hafi morgunroðans til sléttu kveldsólarinnar,

búið í höll með fimm hundruð gullturnum og eignast fegurstu meyna á jarðríki fyrir konu. Nú bjó hann eins og beiningamaður í moldarhæli; þjóð hans hafði svikið hann í trygðum; konan hans hafði hlaupið burt frá honum og synir hans höfðu hætt hann og smánað, stungið úr honum augun og rekið hann svo út á klakann, til þess að ná frá honum ríki hans.

Þegar pilturinn frétti þettta, lagði hann af stað til þess að leita uppi gamla manninn.

Hann kom að honum, þar sem hann sat á steini fyrir utan moldarholuna sína og lék við fimm úlfshvolpa, sem lágu og sprikluðu í sandinum hjá honum. Hárið og skeggið var snjóhvítt; risavaxni öldungurinn var orðinn boginn af elli, og tötrarnir á kropnum gátu varla skýlt nekt hans.

Þegar hann heyrði ókunnan mann koma, lyfti hann upp stóra höfðinu sínu, og á sólbrunna andlitið brá miklu ánægjubrosi.

Pilturinn ókunni varð alveg hissa og sagði:

"Ert þú sá, sem var konungur yfir öllum löndum, frá hafi morgunroðans til sléttu kveldsólarinnar?"

"Já, það var eg."

"Ert þú sá, sem lifði í höll með fimm hundruð gullturnum og eignaðist fegurstu meyna á jarðríki fyrir konu?"

"Já, það var ég."

"Og ert þú sá, sem var svikinn í trygðum af þjóð sinni og smánaður af sonum sínum, sem stungu úr honum augun og hrundu honum út á klakann?"

"Já, víst var það ég."

"Og þó brosirðu?"

"Já, hví skyldi ég ekki brosa?"

Það var eins og elding slægi niður fyrir framan hinn unga mann, og hann kallaði upp: "Þá hefirðu líka fundið vizkusteininn, sem svalar allri þrá, læknar öll sár og eyðir öllum sorgum.— Segðu mér, hefirðu ekki fundið hann?"

Öldungurinn hnykti við. "Vizkusteininn?" sagði hann; "nú,—já, það er rétt; ég hefi fundið hann, piltur minn."

"Hvar er hann að finna?"

"Hérna inni fyrir," sagði öldungurinn og benti á brjóst sér.

"Hvað áttu við? Hvað er þessi vizkusteinn, sem svalar allri þrá, læknar öll sár og eyðir öllum sorgum?"

Þá reis gamli öldungurinn mikli upp og sagði: *"það er djúpa, þögula mannfyrirlitningin!"*

(Heimskr.)

# Hvítir og svartir þrælar.

Eftir baron H. von Schwerin.

---

— — Þjóðirnar í Evrópu eru fjarsýnar ; þær þykjast hafa þvílík skelfileg ósköp af meðaumkun með þrautum manna í öðrum heimsálfum, en sjá ekki hina óumræðilegu neyð í kring um sjálfar sig heima. Bretar, sem, eftir því er eitt merkt skáld sjálfra þeirra hefir sagt, "vælutilfinningin drýpur af", einmitt þessir Bretar, sem eru þó svo hreyknir, geta daglega horft á það að þetta marglofaða frelsi í þeirra eigin föðurlandi er oft og tíðum einungis fólgið í því, að fá að deyja úr hungri. — — — Hvernig getum vér látið beygjast af meðaumkun með negrunum í Afríku og geta ekki litið með minsta miskunarauga til hvítu þrælanna, sem eru að volkast kring um oss á hverjum degi? þrælaverzlunin er svívirðilegur blettur á mannkyninu, það er satt. En hví beinum vér ekki hugum vorum og starfsemi til verzlunarinnar, sem rekin er með hvíta menn? Er þessi svívirðilega mann-verzlun ekki rekin með hvíta manninn? Ákveða ekki auðkýfingarnir kaup fátæklinganna fyrir lægsta verð, sem hægt er að fá á markaðinum? og er þetta ekki mansal fyrir lengri eða skemmri tíma? Sá, sem atvinnunnar beiðist, verður oft og tíðum bara að kyssa á höndina á þeim, sem kaupir hann; hann á annars engan úrkost, ef til vill, nema dauðann. — — —

(Heimskr.)

# Aðfangadagskveld

## í Winnipeg.

---

ÞAÐ voru engar smáræðis áhyggjur, sem margur maður hafði hér í Winnipeg seinustu dagana fyrir jólin.

Þessi jólavika, eða vika fyrir jólin, er, að einu leytinu, mörgum mönnum hin þungbærasta af öllum vikum ársins.

Hún er ársins heila erfiðistíð. Lífið gengur sinn vanalega gang árið í kring, eins og klukka, sem dregin er upp á hverju kveldi; menn vinna sína vanalegu vinnu dag eftir dag; borða sinn vanalega mat og sofa sinn vanalega svefn á eftir. Tíðindin eru engin og hugsunin engin hjá mörgum mönnum. Heilinn, vesalings litli heilinn, fær að hvíla sig og sofa hjá flestum alt árið til — jólanna.

En þá er líka hvíldinni lokið. Þá verður

unginn litli að rísa úr rekkju, og svo er honum snúið eins og snældu, sigað eins og hundi ; hann er laminn áfram eins og uxi fyrir vagni, eða látinn draga heila trossu af áhyggjum á eftir sér yfir fjöll og firnindi, eins og gufuvagn. Því það er mikið að hugsa fyrir jólin.

Heimilisfeðurnir eru að hugsa fyrir heimilinu ; hugsa um öll þessi ósköp af dýrindis réttum, sem þarf um jólin, því óhæfa þykir að borða sama mat um jólin eins og hina dagana. Unga fólkið, bæði karlar og konur, er að hugsa um, hvaða ný föt það eigi að fá sér fyrir jólin og hvernig það eigi að fá þau, því — það er nú oft þrautin þyngri.

En ein hugsunin er það þó, sem flestum mönnum á öllum aldri liggur þyngst á hjarta ; það er umhugsunin um jólagjafirnar.

Hvaða jólagjafir á maður að gefa sjálfur ? og hverjum ? hvaða jólagjafir hefir maður von um að fá sjálfur ? og frá hverjum ?

Og tíminn líður, jólin nálgast og heilinn flýgur eins og ör út um alla heima og geima, slær sér niður hér og þar á einhverjum saklausum náunga, bara til þess að hafa eitthvert jólagagn af honum. Smýgur eins og regndropi gegn um rifurnar á húsunum, til þess að skygnast eftir hvort þar sé nokkurn jólagróða að fá inni, eða

grefur sér einhver jarðgöng eins og kanína — bara til að leita sér að einhverju jólakorni.

Hann berst um, stritast og baðar öllum öngum, þangað til hann gengur saman og minkar af áreynslunni — svo lítill sem hann var þó áður.

Og aðfangadagurinn kemur og menn eru að senda jólagjafirnar sínar upp í kirkju, allan daginn, og þar er nefnd manna í stórerfiði að raða öllu á jólatréð, setja númer á munina og koma þeim fyrir á bekkina í kring; því jólatréð sjálft tekur ekki fjórða hlutann af öllum þessum ósköpum.

Og um kveldið ganga menn til kirkju prúðbúnir, og kirkjan tekur á móti öllum, ungum og gömlum, eins prúðbúin, eða langtum prúðbúnari en þeir; prýdd grænum blómsveigum og grænum kvistum; skreytt ljósum og ljósaröðum.

En fyrir framan altarið stendur jólatréð með jólagjafabunkunum til beggja hliða, fagurt á að líta og girnilegt til fróðleiks — alveg eins og hið fyrsta tré á jörðu, sem sögur fara af.

Og menn ganga til sæta, líta allra snöggvast á jólatréð og gjafabunkana, renna augunum á ljósafjöldann og blómskrautið, horfa á letur í blómfléttum, sem dregið er þvert yfir kirkjuna uppi, í tveimur línum: "Friður á jörðu" og "Kristur lifir"; og svo horfa þeir aftur á gjafa-

bunkann lengi ; fara að reyna að greina einstöku gjafirnar og gizka á frá hverjum þær séu og til hvers þær séu, þangað til glýju ber á augun af ljósafjöldanum.

Orgelið byrjar og sálmur er sunginn og presturinn segir: "Látum oss biðja." Allir beygja sig áfram til bænar, láta aftur augun og reyna til að hugsa um orð prestsins og um jólin, fagnaðarhátíð kristinna manna.

En svo eru Jólagjafirnar að seilast upp úr öllu, sem sagt er, gægjast fram yfir allar guðlegar jólahugsanir og reyna til að yfirskyggja þær : "Hver átti að fá þetta ljómandi fallega album ?" "Hver þennan silfur kökudisk ?" "Hver átti að fá þetta og þetta, eða hitt og hitt?" Og Jón aumingjinn gat ekki að því gjört, hann var alt af að hugsa um hver ætti að fá rósapúðann, sem hann hafði séð hana Sigrúnu vera að sauma. Var það hann Árni eða kannske hann Bjarni? Skelfing var biðin löng þangað til gátan yrði ráðin ! Og Árni og Bjarni höfðu séð púðann líka, þekt hann og hugsað alveg það sama, hvor um sig. En Sigrún litla sat alveg róleg, grúfði sig áfram, hélt höndum fyrir andlitið, eins og í heitri bæn, og var að hugsa um það, hvað þeir mundu nú gefa sér, Jón, Árni og Bjarni. Átti hún nú að trúlofast þeim þeirra, sem gæfi henni fallegasta jólagjöfina, og það strax í kveld, svona eftir jóla-

tréð og guðsþjónustuna? eða átti hún að geyma að trúlofast þangað til á nýárinu, og trúlofast þá einhverjum, sem enga jólagjöf hafði gefið henni?

Ein jólagjafahugsunin greip aðra í þessum biðjandi hóp.

Og uppi yfir öllum hópnum voru skráð tvö lífsmáli kristinna manna: "Friður á jörðu" og "Kristur lifir."

Presturinn endaði sína hjartnæmu bæn og sagði "amen", og allir risu upp og presturinn hélt stutta ræðu, og svo skiftu menn sér, eftir því sem þeir gátu, milli orða hans og jólagjafahugsananna, því augun hvíldu langtum oftar á gjafabunkunum en á prestinum.

Og svo sungu börnin fallegan jólasálm og guðsþjónustunni var lokið.

Svo var farið að úthluta.

Nöfn voru kölluð upp og hlutum var útbýtt; ys varð og hávaði varð og óþolinmæðin varð þó enn þá meiri en þetta hvorttveggja, hjá þeim, sem biðu lengst eftir gjöfunum.

Vonirnar flugu til og frá um allan flokkinn, eins og neistar; sumstaðar smáglæddist neistinn, þangað til hann var orðinn að ljómandi fagnaðar ljósi, sem bar yl og varma út í yztu æðar, en sumstaðar smákulnaði hann út, þangað til alt var dáið og orðið að engu. Gleði reis og sorg kviknaði. Vinátta kólnaði og öfund glæddist.

Og loksins endaði alt saman.

Menn þyrptust út úr kirkjunni með böglana í fanginu, hlæjandi og ánægðir eða þegjandi og óánægðir, alt eftir gjafastærðinni eða gjafafjöldanum. Sumir voru að hugsa um, hvað það væri heppilegt og hvað það væri frjálslegt, að geta svona sameinað stærstu fagnaðarhátíð kristninnar við eins konar jólamarkað fyrir söfnuðinn. Aftur höfðu aðrir engar gjafir fengið, og voru að hugsa um, hvort það væri vert að vera í þessum söfnuði lengur, og hvort það mundi ekki borga sig betur að fara til Björns, Eldons og Páls.

Og ljósin voru slökt í kirkjunni hvert á fætur öðru, þangað til alt varð dimt.

Hún var svo niðurlút veslings kirkjan, því hún hafði aldrei haft ráð á að fá sér turn, eins og aðrar kirkjur, og meira að segja lá við borð, að hún yrði tekin lögtaki, bara af því að svo margir höfðu gleymt að gefa henni jólagjöf. Og þó hafði hún leyft öllum þessum stóru og smáu börnum að hafa sér skemtimarkað þarna á hverju aðfangadagskveldi, frá því hún fyrst varð til; lofað þeim að kasta á milli sín öllu þessu glingri, eins og það væri alt saman ljómandi lífsfræ, og lagt sinn helgihjúp yfir allan þennan augnabliksleik vináttu og ástar, eins og það væri æfinnar glíma um sálarfarsæld.

Svo stóð hún einmanaleg eftir í kveldkyrð-

inni og raunaleg á svipinn, meðan allur þessi iðandi og suðandi her fór heim til sín, til að —leika sér að jólagjöfunum og sofna á eftir.

Og tunglið dreifði sinni töfrabirtu yfir allan bæinn, og silfraði alt, sendi alvörugeisla yfir allar jólagjafirnar, þar sem það gat náð í þær, og hélt dýrðarhimni yfir kveldgöngum elskendanna.

En inni í kotum sínum og hreysum sátu aumingjarnir og fengu engar jólagjafir, þangað til tunglið laumaði að þeim lífsskímu í gegn um smáu og óhreinu rúðurnar.

Og svefninn kom og brá sinni værð yfir alt jólastritið.

Og heilarnir teygðu úr sér, hnipruðu sig svo í kuðung og hölluðu sér til hvíldar.

Þeir fá að sofa í friði, óáreittir í flestum mannanna höfðum, til — næstu jóla.

(Heimskr.)



# Náttuglur.

---

TVÆR náttuglur hafa öld fram af öld setið í hásætum, fastar í sessi og óbifanlegar, eins og þær ættu að verða eilífar, hélugráar af elli, kuldalegar og þurradrambslegar á svipinn.

Hvað sem á hefir gengið í heiminum, hafa uglurnar ekki einu sinni litið við; konungum og keisurum hefir verið hrundið af stólum, en uglurnar hafa setið blýfastar, eins og þær væru vaxnar saman við hásætin. Og kring um þær hafa á öllum öldum safnast herskarar af ugludýrkendum, sem sungið hafa uglunum lof og dýrð án afláts.

Þessar náttuglur eru latína og gríska. Í margar aldir hefir ekkert orð verið skrifað á þeim málum, sem nokkurum manni detti í hug að lesa sér til uppbyggingar; en alt um það þykir ugludýrkendunum sem ómögulegt sé að leggja nokkurn grundvöll til mentunar hjá æskulýðnum, nema með því að seilast um 20 aldir aftur á bak í tímann og ná í skruddur frá Grikkjum og Rómverjum, til að kenna stafrof mentunarinnar á.

Hér hjá oss er latínan látin sitja langtum hærra en grískan; kannske af því að hún stendur að öllu leyti langt á baki grískunni; grískan er bæði auðugra og fegurra mál en latína, og auk þess eru grískar bókmentir alment viðurkendar í öllu fremri þeim rómversku. Því neitar náttúrlega enginn maður, að bókmentir á þessum málum, eða einkum á grísku, hafa margt til síns ágætis. En hins vegar verður hver maður að játa, að bókmentir nýju höfuðmálanna standa langt frá á baki grísku, eins og hverjum manni gefur að skilja, því þeir verða þó líklega fáir, sem hugsa að heiminum hafi verið að hnigna núna um 20 aldir. Auk þess eiga hin nýju höfuðmál í þýðingum ekki einu sinni alt það, sem bezt er, heldur alt, sem nýtilegt er og rúmlega það, úr grískum og rómverskum bókmentum.

En vér skulum nú setja svo, þó vér ekki séum þeirrar skoðunar, að latneskar eða einkum grískar bókmentir væru heppilegt mentunarmeðal fyrir börn vors tíma: er þá kenslu aðferð sú, sem hér er viðhöfð og einnig í Danmörku, og sem alment er kölluð *Maðvigska*, löguð til slíks? Vér verðum að þverneita því. Kenslan í latínu og grísku hér í latínuskólanum hefir ekki lagt áherslu á og legggur ekki áherzlu á að opna augu unglinganna fyrir fegurðarlífi Grikkja, eða manndygðalífi Rómverja, þegar þessar þjóðir stóðu í

blóma sínum, og ekki að sýna þeim eða rekja fyrir þeim menningarlíf og menningarstrauma hjá þessum þjóðum. Nei, það hefir ekki verið tími til neins slíks, því grammatíkin (málmyndafræðin) hefir svo að segja tekið allan tímann. Öll fegurð skáldanna, öll snild heimspekinganna og mælskumannanna hefir verið bútuð niður í föll nafnorða, stigbreytinga einkunna og hætti sagnorða. Þegar öllu er á botninn hvolft, þá hefir kenslan í grísku og latínu verið bara grammatík. Og tóm grammatík er engin mentun.

Með þessari kensluaðferð verður það þess vegna eðlilegt að latína og gríska liggi eins og martröð á brjósti æskulýðsins, eða eins og breiði sína ugluvængi yfir skólapilta þjóðanna, haldi þeim í járnkaldri heljarklípu og byrgi fyrir þeim sólarljós nýja tímans, sem þeir lifa sjálfir á og eiga að vinna fyrir. Og þessi kensla gjörir þá ekki að eins hvimleiða á latínu og grísku, heldur jafnvel marga hverja á öllum lærdómi yfir höfuð. Unglingarnir verða þreyttir og uppgefnir af þessu eilífa, óþrjótandi stappi og stagli í latínskri og grískri grammatík.

Og í þessari ugludýrkun er svo þriðjunginum af skólatímanum varið. — — —

(Suðri.)



